# Sjø nýjar

# Føstu-Prédikanir

út af

# Píslar-Søgu

Drottins vors Jesú Krists,

gjørdar af

Anonymo.

Seljast einstakar ásamt Píslar-søgunni bundnar, 32. ß.
en, bundnar saman vid Stúrms Passíu-Hugv. 24. ß.

Leirárgørdum vid Leirá, 1798.
Prentadar, ad tilhlutun ens
Islendska Lands-Uppfrædingar Félags,
á kostnad Bjørns Gottskálkssonar,
af Bókþryckjara G. J. Schagfjord.

## T. L.

Þegar eg fyrir fáum árum skrifadi, án annara bóka studníngs, enn Biblíunnar, þessar einfoldu Føstu-Prédikanir med tveimur tilheyrandi Bænum, var mitt áform alls ecki ad bjóda þær nockurntíma fram til prentunar, hvad og til skamms tíma forgéfins verid hefdi, en eptir þad Islands lofsverda Uppfrædingar Félag var stiptad, tók ad útgéfa andlegar- og Vísinda-bækur, og þess Fyrir-rádendur létu í ljósi, ad vidburdum í allsháttar lærdómum mundi ljúf vidtaka veitast, tók eg fyrir mig á ný þessar Prédikanir, þegar af Formálanum fyrir útleggíngunni af Stúrms Hugvekjum sá, ad hans Passíu Hugvekjur mundu og um skammt útlagdar útkoma, umsteypti þær og lagadi ad miklu leiti eptir þeim nýrri og vandadri stýls-máta, hvorn eg í nockrum Félagsins nýjum bókum fyrir mér sá, ad því leiti, sem mínum ófimleika í þessu heppnadist. Vidburd minn vona og bid eg nú ad gódfús lesari vorkunsamlega áliti, einkum Félagsins Tilsjónar-madur, undir hvors væga dóm og heppnu lagfæríngu, þess marga, sem

eg

eg veit áfátt vid mitt ófullkomna rædu-form; eg nú árædi ad leggja þessa mína veiku Tilraun, med ósk, ad ef innihald þessara blada dæmist óverdugt ad koma fyrir almenníngs sjónir vid hentugleika, megi blodin oll eldinum gefast, þar eg ecki finn neina laungun til ad auglýsa hér, hvort þau, ef aptur-ræk verda, sendast ættu, til ad koma Ritara þeirra í hönd, né vil vísa til annara medtoku, til þess ei ad vekja þar med ómerkann grun um Hofundinn. Hvort þessi heitir nú Pétur eda Páll, Jón eda Sveinn, eda hvorju hellst nafni, sem er, má almenníngi vera jafnkiært. Nafn hans gjörir verkid hvorki verra né betra enn þad er; hans áform med þad, var ecki ad ávinna sér Rithofunda ódaudlega nafn, heldur, ef mogulegt, med þessum Prédikunum ad vekja andakt einhvorra medkristinna og leida hana til verdugrar umþenkíngar þess umþenkíngar-verdasta efnis og hofudstyckis í vorum kristinndómi; dæmin sýna mér og, ad þeim má vera meiri hugprýdi, stodugLyndi og þolgædi lánad enn mér, sem nú ecki vhla fyrir sér ad útsetja nafn sitt á prenti fyrir framan jafnvel nytsamleguslu og bestu bækur, mót hreckvísum dómum og álasi af óhlutvondum. Mitt nafn hefir lengst af í doppru myrkri dulist, þad má því allvel í óminni af jordunni burtlída.

Rithofundurinn.

# Jesú Krists
# Pislar-Saga.

## Fyrsti Partur.

Og þá þeir hofdu lofsaunginn súngid, géck Jesús út, sem hann var vanur, yfir um lœkinn Kedron til fjallsins Olíveti; en hans lærisveinar fylgdu honum eptir. Þá sagdi hann til þeirra: á þessari nóttu munud þér allir hneixlast á mér, þvíad skrifad er: hyrdirinn mun eg slá, og saudir hjardarinnar munu í sundurtvístrast; en nær eg rís upp aptur, þá mun eg gánga fyrir ydur í Galíleam. Pétur svaradi og sagdi til hans: þó allir hneixli sig á þér, þá skal eg þó aldrei hneixlast. Jesús sagdi til hans: sannlega segi eg þér, ad í dag ádur enn haninn galar tvisvar, muntú afneita mér

þrisvar. En hann (Pétur) taladi þá enn frekar: já, þó eg ætti ad deyja med þér, þá skal eg ecki afneita þér; slíkt hid sama søgdu allir lærisveinarnir. Þá kom Jesús med þeim-í þad-akurgérdi, sem hét Gethsemane, þar var gras-gardur, þar géck Jesús inn og hans lærisveinar, en Júdas, sá ed sveik hann, vissi og þennann stad, þvíad Jesús safnadist opt þángad med sínum lærisveinum. Þá Jesús kom í þann stad, sagdi hann til sinna lærisvéina: setjid ydur hér á medan eg fer burt og bidst þar fyrir. Bidjid, svo þér fallid ecki í freistni. Og hann tók med sér Pétur og Jacob og Jóhannes, þá tvo sonu Zebedæí, og tók til ad hriggjast, titra af hrædslu og harmþrúnginn ad verda, og þá sagdi hann til þeirra: mín sála er hrigg allt í daudann, blífid hér og vakid med mér. Og hann sleit sig í burt frá þeim, og géck litlu framm lengra nær einu steinsnári, og kraup á kné, féll fram á sínu ásjónu til jardar, og bad: ef þad møgulegt væri, ad sú stund hjá sér lidi, og sagdi: minn Fadir! ef møgulegt er, þá víki þessi kaleikur frá mér; Abba, Fadir minn! allt er þér møgulegt, tak burt þenna kaleik frá mér,

þó ei hvad eg vil, heldur hvad þú vilt. Og hann kom til sinna lærisveina og fann þá sofandi, og sagdi til Péturs: Símon! sefur þú? formáttir þú ecki eina stund ad vaka med mér? vakid og bidjid svo þér fallid ecki í freistni; andinn er reidubúinn en holdid er veikt. Í annad sinn géck hann enn burt aptur, badst fyrir, taladi þeim somu ordum, og sagdi: minn Fadir! ef þad er ecki mogulegt ad þessi kaleikur víki frá mér, utan eg drecki hann, þá verdi þinn vilji. Og hann snéri aptur, kom og fann þá enn sofandi, þvíad þeirra augu vóru þrúngin af svefni, og þeir vissu ecki hvørju þeir svørudu honum. Og hann skildi vid þá, og géck burt aptur, og bad í þridja sinn med somu ordum, og sagdi: Fadir! ef þú vilt svo, þá tak þenna kaleik frá mér, þó ecki minn, heldur verdi þinn vilji. En honum birtist engill af himni, sá ed styrkti hann. Og þá hann var staddur í daudans strídi, tók hann ákaflega ad bidja. En hans sveiti vard svo sem blód-hnikkar, þeir ed féllu á jordina. Og hann stód upp frá bæninni, og kom til sinna lærisveina í þridja sinn, og fann þá sofandi út af hrigd, og sagdi til þeirra;

 sof-

sofid' þér nú þad eptir er og hvílist! hvad sofid þér! þad er nóg, standid upp og bidjid, svo þér fallid ecki í freistni. Sjáid! sú stund tekur ad nálgast, og er komin, ad mannsins Sonur mun ofurseljast í syndugra hendur; standid upp og gaungum hédan, sjáid! sá ed mig svíkur hann er í nánd.

## Annar Partur.

Og jafnsnart, sem hann var enn ad tala um þetta, sjá! einn af þeim tólf, sem Júdas hét, þá er hann hafdi nú til sín tekid flock manna, og þénara Kénnimanna-høfdíngjanna og Pharísæanna, kom hann þángad, og med honum flockur mikill, med blísum, lømpum, sverdum, staungum og vopnum, útsendir af Kénnimanna-høfdíngjum, Skriftlærdum og Ofdúngum, og hann géck fyrir þeim. Sem Jesús vissi nú allt hvad yfir hann átti ad koma, géck hann fram og sagdi til þeirra: ad hvørjum leitid þér? þeir svørudu honum: ad Jesú af Nazareth. Jesús sagdi til þeirra: eg em hann. En Júdas sá ed sveik hann, stód einninn hjá þeim; en sem Jesús sagdi til þeirra: eg em hann, hørfudu þeir bak aptur og

duttu

duttu til jardar. Hann spurdi þá enn einusinni, ad hvorjum leitid þér? en þeir sögdu: ad Jesú af Nazareth. Jesús svaradi: eg sagda ydur þad, eg em hann; þar fyrir, ef þér leitid ad mér, þá látid þessa í burt fara. Svo ad uppfylltist þad ord, hvad hann hafdi sagt: ad engum glatadi eg af þeim, sem þú gafst mér. (Joh. 17.) En svikarinn hafdi géfid þeim sameginlegt teikn, og sagt: hvorn hellst eg kyssi, sá er þad, grípid hann og leidid í burtu vareygdarlega. Og þá hann kom, nálgadist hann Jesúm ad hann kyssti hann, og jafnsnart géck hann til hans og sagdi: heill sértú, Rabbí! og kyssti hann. En Jesús sagdi til hans: vinur! hvar fyrir ertú kominn? Júda! svíkur þú mannsins Son med kossi? Þá gengu þeir þángad og lögdu sínar hendur á Jesúm og gripu hann. En þá ed þeir, sem hjá honum vóru, sáu hvad verda vildi, sögdu þeir til hans: Herra! skulum vér slá med sverdi? og sjá! ad einn af þeim, sem med Jesú vóru og þar stódu, Símon Pétur, hafdi eitt sverd, rétti út höndina og ryckti því, og sló til Presta-höfdíngjans þénara, og hjó af honum hans hid hægra

eyra og sá þénari hét Malchus. En Jesús svaradi og sagdi: leyfid einúngis þetta! (*) og hann áhrærdi hans eyra og læknadi hann. Og hann sagdi til Péturs: stícktú þínu sverdi í slídrir, því ad hvørr ad sverdid tekur, sá mun fyrir sverdi farast; eda meinar þú ad eg kunni ecki nú ad bidja minn Fødur, þad hann sendi mér meir enn tólf legíón engla? skal eg ecki drecka þann kaleik, hvørn ed minn Fadir hefir mér gésid? en hvørninn skyldu þá Ritníngarnar uppfylltar verda? því þad hlýtur svo ad ské. Á þeim tíma svaradi Jesús og sagdi til fólksins og þeirra Presta-hofdíngja, og Hofudsmanna musterisins og Oldúnganna, sem til hans vóru komnir: þér erud svo sem til annars ræníngja útgengnir med sverdum og staungum ad grípa mig. Daglega hefi eg hjá ydur verid, setid og kénnt í musterinu, og þér hafid engar hendur á mig lagt, og ecki gripid mig, heldur er þetta ydar tími og makt myrkranna, svo ad Ritníngarnar uppfylltust. En allt þetta er skéd, svo ad uppfylliist Ritníngar Spámannanna.

Þá

(*) Svo taladi Jesús til Ovinánna í því hann áhrærdi Malchusar eyra, sjá Lúc. 22.

Þá forlétu hann allir læriſveinarnir og flýdu. Og þar var úngur madur, ſá er honum eptirfylgdi, hann var med líni klæddur yfir bert hørund, og úngmenni gripu hann; en hann ſnaradi línklædinu og flýdi nakinn í burt frá þeim.

## Þridji Partur.

En flockurinn og hinn yppar ſti Høfudsmadur, og þénarar Gydínganna gripu Jeſúm og bundu hann, og leiddu hann fyrſt burt til Hannam, ſá var fadir konu Kaiphas's, hvørr ed þá var þeſs árs ædſti Preſtur, og þeir burtleiddu Jeſúm fánginn til Kaiphaſs' Kénnimanna-høfdíngja, en Kaiphas var ſá, ſem Gydíngum gaf þad rád, ad betur færi þad einn madur dæi fyrir fólkid. Og þeir innleiddu hann í hús þeſs yppar ſta Preſts, þar ed med honum allir Kénnimanna-høfdíngjar, Skriftlærdir og Oldúngar vóru ſamankomnir. En Símon Pétur fylgdi Jeſú eptir álengdar, allt í fórſtofu Kénnimanna-høfdíngjans, og einn annar læriſveinn, ſá ſami læriſveinn var kunnugur Kénnimanna-høfdíngjanum, og géck inn med Jeſú í

forstofu Kénnimanna-hofdíngjans, en Pétur stód þar úti fyrir dyrunum. Þá géck út sá annar lærisveinn, sem Kénnimanna-hofdíngjanum var kunnugur, og taladi vid dyravordslu konuna, og leiddi Pétur inn lengra í forstofu Kénnimanna-hofdíngjans, og hann géck inn, þvíad þénararnir høfdu eld qveiktann í midri forstofunni og setst til samans, en Pétur setti sig á millum þeirra og vermdi sig vid logann, ad hann sæi hvørr endir þar á yrdi. En Pétur sat utar í forstofunni, og þar hann var fram betur í forstofunni, kom ein af ambáttum Kénnimanna-hofdíngjans, og þá hún leit Pétur sitja vid logann og verma sig, leit hún til hans og stardi á hann, géck til hans og sagdi: hvørt ert þú og einn af þess manns lærisveinum? og þú varst med Jesú þeim galílæiska af Nazareth. En hann afneitadi honum fyrir øllum, segjandi: kona! ei er eg, eg þecki hann eigi, og ei veit eg hvad þú segir; og hann géck út í fordyrid, og haninn gól. En þrælarnir og þénararnir stódu, sem gjørt høfdu kola-eld, og vermdu sig, þvíad kuldi var. Pétur stód þar hjá þeim og vermdi sig. En Kénnimanna-

hofd-

høfdínginn spurdi Jésúm þá ad um hans læríſveina og hans kénníngu? og Jeſús ſvaradi honum: eg hefi opinberlega talad í heiminum: eg hefi og med jafnadi kénnt í ſamkundu húſum, og í muſterinu þar ed Gydíngar allſtadar ad koma til ſamans, og eckért hefi eg í leynum talad; hvad ſpyr þú mig ad þeſſu? ſpyr þú þá þar ad, ſem heyrt hafa hvad eg hefi talad til þeirra; ſjá þú! þeir hinir ſømu vita hvad eg hefi ſagt; en ſem hann taladi þetta, gaf einn þénaranna, ſem har ſtód hjá, honum kinnheſt, og ſagdi: ſkaltú ſvo ſvara Biſkupinum? Jeſús ſvaradi: hafi eg illa talad þá bevíſa þad, ad þad ſé órétt, en hafi eg ſatt ſagt, hvar fyrir ſlær þú mig? og Hannas ſendi hañ bundinn til Kaíphaſs' Kénnimanna-høfdíngja. En ambáttin, þar hún ſá Pétur, tók hún aptur til ad ſegja þeim, ſem þar hjá ſtódu: þeſſi er einn af þeim. En ſem hann géck út um dyrnar, leit hann ønnur ambátt og ſagdi til þeirra, ſem þar vóru: þeſſi var og med Jeſú af Nazareth. Og litlu ſídar þar eptir ſá hann enn annar og ſagdi: þú ert og einn af þeim. Og Símon Pétur ſtód þar og vermdi ſig;

þá tøludu þeir til hans: ertú af hans lærisveinum? og í annad sinn neitadi Pétur aptur med eidi og sagdi: madur! eigi em eg, ecki þecki eg þann mann. En þeir ædstu Prestar og Oldúngar, og allt rádid leitudu ljúgvitna ígégn Jesú, svo ad þeir gætu honum í hel komid, og fundu ecki; og þó margir ljúgvottar gengi þar fram ad, þá fundu þeir eckért, þvíad margir báru fals-vitni móti honum, en þeirra vitnisburdir vóru ecki samhljóda. En ad sídustu stódu upp og gengu fram nockrir tveir fals-vottar, og báru ljúgvitni í móti honum, og søgdu: vér høfum heyrt hann segja: eg kann og vil nidurbrjóta þetta musteri Guds, sem med høndum er gjørt, og á þremur døgum uppbyggja annad, þad ei er med høndum gjørt, en þeirra vitnisburdir urdu enn þá ecki samhljóda. Sá ædsti Prestur stód þá upp midt á millum þeira, spurdi Jesúm ad, og sagdi til hans: svarar þú engu? hvad vitna þessir á móti þér? en Jesús þagdi og svaradi engu. Þá ansadi enn aptur sá ædsti Prestur, spurdi hann ad, og sagdi til hans: ertú Kristur Sonur hins blessada, eg særi þig vid lifanda Gud, ad

þú

þú segir oss ef þú ert Kristur Sonur Guds? Jesús sagdi til hans: þú sagdir þad, eg em: en þó segi eg ydur: hér eptir munud þér sjá Mannsins Son sitja til hægri handar Kraptarins, og komanda í skýjum himins. Þá reif Kénnimanna-höfdínginn sín klædi í sundur, og sagdi: hann gudlastar. Hvad þurfum vér nú framar vitnanna vid? sjá! þér heyrdud nú sjálfir hans gudlöstun. Hvad virdist ydur? en þeir fordæmdu hann allir, svörudu og sögdu: hann er daudans sekur. Og litlum túma þar eptir, nær einni stundu, styrkti einhvörr annar þad, og sagdi: ad sönnu var og þessi med honum, því hann er Galílæari. Og aptur gengu þeir ad, er hjá stódu, og sögdu til Péturs: sannarlega ertú af þeim, þvíad þitt túngumál er samhljóda og opinberar þig. Þá sagdi einn af Kénnimanna-höfdíngjans þénurum, frændi þess, sem Pétur hjó af eyrad: sá eg þig ecki í grasgardinum med honum? þá neitadi Pétur því enn aptur, og sagdi: madur! eigi veit eg hvad þú segir. Þá tók hann til ad formæla sér og sverja: eigi þecki eg þann mann, um hvörn þér talid. Og jafnsnart

snart er hann nú taladi enn framar, gól haninn í annad sinn, og Drottinn snéri sér vid, og leit til Péturs, og Pétur minntist ordanna Jesú, er hann hafdi sagt til hans: ádur enn haninn galar tvisvar, muntu afneita mér þrisvar; og hann géck út og grét beisklega. Þá toku nockrir ad spýta á hann, í hans ásjónu, og bördu hann med knefum, en þénararnir og þeir menn, sem héldu Jesú, dárudu hann og slóu, og byrgdu hans ásjónu, og slóu hann med knefum, spurdu hann og sögdu: spá þú oss, hvørr er sá þig sló? og margt annad háduglegt sögdu þeir vid hann.

## Fjórdi Partur.

Og strax um morguninn, er dagur var, söfnudust saman og héldu rádstefnu allir ædstu Prestar med Oldúngum lýdsins og Skriftlærdum, og þaradauk öllu Rádinu, móti Jesú, svo ad þeir gætu honum í hel komid, og leiddu hann upp fyrir sitt Rád, og sögdu: ef þú ert Kristur, seig oss þad? og hann sagdi til þeirra: ef eg segi ydur þad, þá trúid þér því eigi, en ef eg spyr ydur, þá svarid þér mér eigi, eda látid mig lausann. Nú

héd-

hédan í frá mun Mannsins Sonur sitja til hægri handar Guds kraptar. En þeir sögdu allir: ertú þá Guds Sonur? hann sagdi þá til þeirra: þér segid þad, eg em hann. Þá sögdu þeir: hvad þurfum vér nú vitnisburdinn lengur, vér siálfir heyrdum þad af hans munni. Og allur sá skari þeirra stód upp og bundu Jesúm, og leiddu hann í burt frá Kaiphasi og í þínghúsid, og ofurseldu hann Landsdómaranum Pontió Pílató; en þad var snemma morguns. Þá er Júdas, sá er hann hafdi for-rádid, sá þad hann var til dauda dæmdur, ydradist hann þess, og færdi aptur þeim ædstu Prestum og Öldúngum þá þrjáthgir sylfur-penínga, og sagdi: syndgad hefi eg, ad eg for-réd saklaust blód; en þeir sögdu: hvad kémur þad vid oss? siá þú þar fyrir. Og hann snaradi þeim sylfur-peníngum í musterid, skundadi þadan, géck í burt og hengdi siálfann sig. En þeir ædstu Prestar tóku sylfur-peníngana, og sögdu: eigi hæfir ad vér látum þá í Guds kistuna, þvíad þad er blóds-verd. En þeir héldu rád, og keyptu med þeim Leirsmids-akur, framandi mönnum til greftrunar. Fyrir

þad,

það, er sá akur kalladur blóds-akur, allt til þessa dags. Þá er uppfyllt hvad sagt er fyrir Jeremíam Spámann, segjandi: þeir tóku þá þrjáthgir sylfur-peninga, er hinn seldi var med betaladur, hvorn þeir keyptu af Israels bornum, og hafa géf-id þá fyrir Leirkérasmids-akur, eptir því, sem Drottinn hafdi mér bodid. Og Høfud-prestarnir og Oldúngarnir, géngu ei sjálfir inn í þínghúsid, ad þeir saurguduſt eigi, heldur svo þeir mættu neyta Páskanna. Pílatus géck þá út til þeirra og sagdi: hvørja ákjæru færid þér ígégn þessum manni? þeir svør-udu og søgdu til hans: ef þessi væri ei illrædis-madur, þá hefdum vér eigi í hend-ur fengid þér hann. Þá sagdi Pílatus til þeirra; takid þér hann þá og dæmid eptir ydrum løgum. Gydíngar søgdu til hans: oss leyfist ecki ad lífláta nock-urn, svo ad þad ordid Jesú uppfylltist, er hann sagdi, teiknandi þar med, hvør-jum dauda hann skyldi deyja. En Jes-ús stód frammi fyrir Landsdómaranum. En þeir tóku ad áklaga hann, og søgdu: þenna finnum vér ad hann fráſnýr fólk-inu, og fyrirbýdur skatt ad géfa Keisar-anum, og segir sig ad vera Kónginn

Krist-

Kristum. Þá géck og í annad sinn inn Landsdómarinn Pílatus, kalladi Jesúm, og sagdi til hans: ertú Kóngur Gydínga? Jesús svaradi: talar þú þad af sjálfum þér, eda hafa adrir sagt þér þad um mig? þá svaradi Pílatus: er eg nockud Gydíngur? þín þjód og Kennimanna-høfdíngjar ofurseldu þig mér; hvad hefir þú gjørt? Jesús svaradi: mitt ríki er ei af þessum heimi, ef ad mitt ríki væri af þessum heimi, þá mundu mínir þénarar strída þar fyrir, svo ad eg ofurseldist ei Gydíngum, en nú er mitt ríki eigi þadan. Þá sagdi Pílatus til hans: ertú þó samt Kongur? Jesús svaradi, og sagdi til hans: þú segir þad, eg em og Kóngur, til þess er eg fæddur og í heiminn kominn, ad eg beri vitni sannleikanum, og hvørr hann er af sannleikanum, sá heyrir mína rødd. Pílatus sagdi til hans: hvad er sannleikurinn? og þá hann hafdi þetta sagt, géck hann út aptur til Gydínga, og sagdi til þeirra yppurstu Presta og til lýdsins: enga søk finn eg med þessum manni. Og Høfud-prestarnir áklogudu hann hardlega. Og sem hann áklagadist af þeim ædstu Prestum og Oldúngum, svar-

svaradi hann engu. Pílatus spurdt hann aptur ad, og sagdi til hans: svarar þú engu? heyrir þú ecki? sjá! hvørsu hardlega þeir áklaga þig. En Jesús svaradi honum engu framar til nockurs ords, svo Landsdómarinn undradist þad nærsta. En þeir vóru þess ákafari og søgdu: hann hefir uppæst fólkid, med því hann hefir kénnt á øllu Gydíngalandi, og hefir tiltekid í Galílæa, allt híngad. En er Pílatus heyrdi Galílæam nefnda, spurdi hann ad: hvørt hann væri Galílæari? og er hann fornam ad hann var undir Heródis veldi, sendi hann hann burt til Heródesar, sem einninn var á þeim sømu døgum í Jerúsalem. En er Heródes sá Jesúm, vard hann nærsta gladur, þvíad hann hafdi fyrir laungu girnst ad sjá hann, af því hann hafdi margt heyrt af honum, og hann vænti ad hann mundi sjá teikn af honum, og adspurdt hann á marga vega, en hann svaradi honum engu. En Kénnimannahøfdíngjar og Skriftlærdir, stódu og ásøkudu hann hardlega, en Heródes med sínum strídsmønnum forsmádt hann og spottadi, færdi hann í hvítt

fat,

sat, og sendi hann aptur til Pílátum. Og á þeim degi urdu þeir Pílatus og Heródes vinir aptur, þvíad ádur vóru þeir óvinir sín á milli. En Pílatus samankalladi Prestá-hofdíngja og Hofuds-menn og lýdinn, og sagdi til þeirra: Þér hafid þennann mann til mín haft, svo sem þann, er fráſnýr fólkinu, og sjáid! eg hefi yfirheyrt hann hér fyrir ydur, og á þessum manni finn eg enga af þeim sokum, hvar um þér klagid hann, og ei heldur Heródes, þvíad eg sendi ydur til hans, og sjáid! eckért er af honum gjört þad dauda sé verdugt, fyrir því vil eg refsa honum og láta lausann. En á hátídar-deginum hlaut Landsdómarinn eptir venju, fólkinu lausann adláta einhvørn bandíngja, hvørn hellst þeir vildu, og eptir hvørjum þeir beiddust. En þá hafdi hann nafnkénndann bandíngja framar ødrum, sá ed Barabbas hét, med upphlaups-mønnum bundinn, hvørjir í upphlaupinu høfdu víg unnid. Sem þeir vóru til samans komnir, sagdi Pílatus til þeirra: þad er ydar sidvenja, ad eg géfi ydur einn lausann á Páskum; og fólkid kalladi upp og tók til ad bidja, ad hann vildi gjøra,



sem

sem hann væri vanur. En Pílatus svaradi þeim og sagdi: viljid þér ad eg géfi ydur nú Gydínga Kónginn lausann? hvørn viljid þér ad eg géfi ydur lausann Barabbam eda Jesúm, sem kallast Kristur, (þvíad hann vissi vel ad Høfud prestarnir høfdu af øfund ofurselt hann). Og sem hann sat á dómstólnum, sendi hans Húss-frú til hans, og lét segja honum: haf þú eckért ad gjøra med þann Réttláta, þvíad margt hefi eg lidid í dag í draumum fyrir hann. En þeir ædstu Prestar og Oldúngar rédu fólkinu og eggjudu, ad þad skyldi bidja: ad hann gæfi þeim miklu heldur Barabbam lausann, en Jesúm skyldu þeir deyda. Þá svaradi Landsdómarinn Pílatus, og sagdi til þeirra: hvørn af þessum tveimur viljid þér ad eg láti ydur lausann? þá kalladi upp allur hópurinn, og sagdi: tak burt þennann, og géf oss Barabbam lausann. Þá svaradi aptur Pílatus, kalladi og sagdi til þeirra, og vildi Jesúm lausann láta: hvad viljid þér þá ad eg skuli gjøra vid Jesúm, af hvørjum sagt er, ad hann sé Kristur Kóngur Gydínga? en þeir kølludu þá allir aptur upp, og søgdu: krossfestist hann,

hann, krossfestú hann. Þá sagdi Landsdómarinn enn í þridja sinn til þeirra: hvad íllt hefir þá þessi gjørt? enga dandasøk finn eg med honum, fyrir því vil eg hegna honum, og láta hann lausann. En þeir kølludu því meir, segjandi: krossfestist hann, krossfestú hann. Og allir køllidu aptur, segjandi: eigi þenngann, heldur Barabbam. En Barabbas var ræníngi, hvørr ed var fyrir upphlaup og mannslag, er skéd var í borginni, innsettur í fángelsi. Og þeir stódu því fastara þar á med miklum hljódum, óskandi þad ad Jesús yrdi krossfestur, og þeirra hljód og Høfud-prestanna tóku yfir. Þá tók Pílatus Jesúm og húdstrýkti hann, en strídsmenn Landsdómarans tóku hann, og leiddu hann med sér inn í þínghúsid, køllidu saman og sofnudu ad honum øllu lidinu, affklæddu hann, og færdu hann í Purpurakápu, fléttudu kórónu af þyrnum, og settu hana á hans høfud, og reyr í hans hægri hønd, beygdu kné fyrir honum, spjødu hann og tóku ad heilsa honum, og søgdu: heill sértú Konúngur Gydínga! gáfu honum pústra og hræktu á hann, tóku reyrinn og þørdu

 um

um hans høfud, féllu á kné og tilbádu hann. Þá géck Pílatus út aptur og sagdi til þeirra: sjáid! eg leidi hann nú út híngad til ydar, svo ad þér vitid þad eg finn enga søk med honum. Svo géck Jesús út, berandi þyrni-kórónu og purpura klædid, og hann sagdi til þeirra: sjáid manninn! Þá er Kénnimanna-høfdíngjarnir og þénararnir sáu hann, kolludu þeir og søgdu: krossfestú, krossfestú. Pílatus sagdi til þeirra: takid þér hann og krossfestid, þvíad eg finn enga søk med honum. Þá svørudu honum Gydíngar: vér høfumløg, og eptir vorum løgum á hann ad deyja, þvíad hann gjørdi sig sjálfann ad Guds Syni.

# Fimti Partur.

Þá Pílatus heyrdi þad ord, óttadist hann enn meir, og géck aptur í þíng-húsid, og sagdi til Jesúm: hvadan ertú? en Jesús gaf honum eckért svar. Þá sagdi Pílatus til hans: talar þú eigi vid mig? veitstú ecki ad eg hefi rád til ad krossfesta þig, og eg hefi rád til ad géfa þig lausann? Jesús svaradi: eigi hefdir þú nockurt vald yfir mér, nema

þér

þér væri géfid þad hér ad ofan, fyrir þvt hefir sá meiri synd, er mig ofurseldi þér. Og eptir þad leitadist Pílatus vid, hvørninn hann gæti látid hann lausann. En Gydíngar hrópudu, og søgdu: ef þú lætur þennann lausann, þá ertú ecki Keisarans vinur; þvíad hvørr, sem sig gjørir ad Konúngi, hann er á móti Keisaranum. Þá Pílatus heyrdi þad ord, leiddi hann Jesúm út, og setti sig á dómstólinn, í þeim stad, sem kallast hinn steinlagdi, en á hebresku Gabbatha, en þad var adfánga-dagur Páska, nærri søttu stundu. Þá segir hann og til Gydínga: sjáid! þad er ydar Kóngur en þeir kølludu, burt, burt med hann, krossfestú hann. Pílatus sagdi til þeirra: skal eg krossfesta ydar Konúng? Kennimanna-høfdíngjarnir svørudu: engann Konúng høfum vær, nema Keisarann. Þá er Pílatus sá, þad hann kom engu til vegar, heldur þad, ad þar yrdi enn meira upphlaup af, tók hann vatn, og þvodi hendurnar fyrir folkinu, og sagdi: saklaus em eg af blódi þess hins Réttláta, sjáid þér til! þá svaradi allur lýdur, og sagdi: hans blód komi yfir oss og yfir børn vor. En Pílatus þenkti

b 3 folk-

fólkinu fullnægju ad gjörá, og dæmdi ad ské skyldi þeirra beidni, gaf þeim Barabbam lausann, sem inn var settur fyrir upphlaup og manndráp í myrkva-stofu, um hvörn þeir bádu; en Jesúm húdstrýktann framseldi hann þeim, eptir þeirra vilja, ad hann krossfestur yrdi. Þá tóku þeir Jesúm, eptir þad þeir höfdu spottad hann, færdu hann úr purpura-kápunni, og færdu hann í sín egin klædi, og leiddu hann út, ad þeir krossfestu hann, og hann bar sinn kross og géck út. En í því þeir gengu og leiddu hann út, fundu þeir mann, sem fram hjá géck af Cyrene, Símon ad nafni, hvörr ed kominn var af akri, födur þeirra Alexanders og Rúffi, hann þöndludu þeir, og þreyngdu honum ad hann bæri hans kross, og lögdu krossinn uppá hann, ad hann bæri hann eptir Jesú. En honum fylgdi mikill fjöldi fólks og qvenna, hvörjar ed grétu og hörmudu hann; en Jesús snériſt til þeirra og sagdi: þér dætur af Jerúsalem, grátid ecki yfir mér, heldur grátid yfir ydur sjálfum og yfir börnum ydar: því, sjáid! þeir dagar munu koma, á hvörjum þeir segja: sælar eru óbyrjur, og þeir qvid-

qvödir, er ei hafa fœdt, og þau brjóst, hvör eigi vóru mylkt. Þá munu þeir taka ad segja fjöllunum: hrynjid yfir oss, hálsunum: hyljid oss. Ef þeir gjøra þetta vid hid blómgada tréd, hvad mun þá ské vid hid þurra? En tveir spillvirkjar adrir leiddust og út, ad þeir væru aftèknir med honum; og þeir leiddu hann í þann stad, sem kallast á hebresku Golgatha, hvad ed þýdist Hausaskélja-stadur, og þeir gáfu honum ad drecka í víni myrru og edik galli blandad, og hann tók þad eigi til sín, því þá hann smackadi þad, vildi hann ecki drecka. Og, sem þeir komu í þann stad, sem kalladist: Hofudskélja-stadur, þar krossfestu þeir hann, og med honum tvo adra rœníngja á bádar sídur, einn til hœgri handar, og annann til hinnar vinstri, en Jesúm í midid. En þad var nær um þridju stundu, er þeir krossfestu hann; þá vard sú Ritníng uppfyllt, sem segir: medur íllvirkjum er hann reiknadur. En Jesús sagdi: **Fadir! fyrirgéf þeim, þvíad þeir vita ei hvad þeir gjora.** Pílatus skrifadi þá yfirskrift, og setti hana upp yfir krossinn, upp yfir hans hofdi festu þeir hans dauda-sök. En yfir-

yfirſkriftin og hvor ſök honum var géf-
in, var ritud yfir honum med grísk-
um, látínſkum og hebreſkum bókſtöf-
um: Þeſſi er **Jeſús af Nazareth,
Konúngur Gydínga.** Þeſſa yfir-
ſkrift láſu margir af Gydíngum, því-
ad ſá ſtadur var nærri borginni, þar
Jeſús var kroſsfeſtur. Þá ſögdu þeir
ædſtu Preſtar Gydínganna vid Píla-
tum: ſkrifa þú eigi Konúngur Gyd-
ínga, heldur þad hann hafi ſagt: eg em
Konúngur Gydínga. Pílatus ſvaradi:
hvad eg ſkrifadi, þad hefi eg ſkrifad.

## Sjötti Partur.

Þá ſtrídsmennirnir höfdu kroſsfeſt Jeſ-
úm, töku þeir hans klædnad, og gjördu
á fjögra hluta ſkipti, ſérhvörjum ſtríds-
manni einn hlut, og vörpudu þar um
hlutkéſti, hvorr ad hann ſkyldi hafa, og
þar med kyrtilinn; en kyrtillinn var eigi
ſaumadur, heldur frá ofanverdu allur
prjónadur. Þá töludu þeir ſín á milli:
ſkiptum vær honum eigi í ſundur, hlut-
umſt heldur um, hvors hann ſkal vera,
ſvo ad Ritníngin uppfylltiſt, hvad ſagt
er fyrir Spámanninn, er ſegir: þeir
ſkiptu

skiptu med sér klædum mínum, og á minn kyrtil løgdu þeir hlutkésti. Og þetta gjørdu strídsmennirnir, og fólkid stód og horfdi á. Og þeir, sem gengu þar fram hjá, hæddu hann, skóku høfud sín og søgdu: svei! hvørninn nidurbrýtur þú musterid, og uppbyggir þad aptur á þremur døgum? hjálpa þú nú sjálfum þér, ef þú ert Guds Sonur, og stíg nidur af krossinum. Og Høfdíngjarnir spottudu hann med þeim, líka einninn hæddu hann þeir ædstu Prestar sín á medal med Skriftlærdum og Øldúngum, og søgdu: ødrum hefir hann hjálpad, sjálfum sér getur hann eigi hjálpad. Sé hann Kristur og Kóngur Ísraels, þá stígi hann nú nidur af krossinum, ad vér sjáum og megum svo trúa honum. Hjálpi hann nú sjálfum sér, ef hann er Kristur hinn útvaldi Guds. Hann treysti Gudi, hann frelsi hann nú, ef hann hefir lyst til hans, þvíad hann sagdi: eg em Guds Son. Ad honum hæddu og strídsmennirnir, gengu til hans og færdu honum edik, og søgdu: ef þú ert Konúngur Gydínga, þá hjálpa þér sjálfum. Líka einninn hæddu hann ræníngjarnir, þeir med honum vóru kross-

festir. En einn af þeim spillvirkjum, sem hengdir vóru, lastadi hann og sagdi: ef þú ert Kristur, frelsa sjálfann þig og ockur. Þá svaradi hinn annar, straffadi hann og sagdi: og þú hræðist ei heldur Gud, sem ert þó í eins fordæmingu? og ad sonnu skér ockur þetta réttilega, þvíad vér medtøkum hvad ockar gjørdir vóru verdar, en þessi hefir eckert óskickanlegt gjørt. Og hann sagdi til Jesú: Drottinn! minnstú mín þá þú kémur í ríki þitt. Og Jesús sagdi til hans: sannlega segi eg þér, í dag skaltú vera med mér í Paradís. En þar stodu vid krossinn Jesú, módir hans og módur-systir hans, María húsfrú Kleóphæ, og María Magdalena. Þá Jesús sá nú sína módur, og hann lærisvein þar nær standandi, er hann elskadi, segir hann til sinnar módur: Kona! sjá þú þad er þinn sonur. Eptir þad segir hann til lærisveinsins: sjá! þad er þín módir. Og upp frá þeirri stundu tók lærisveinninn hana ad sér. Og þad var nær um hina sjøttu stundu, ad myrkur gjørdist yfir allt landid, allt nær til níundu stundar, og sólin misti sitt skin. Og um níundu

stundu

stundu kalladi Jesús hárri røddu, og sagdi: **Eli, Eli, Lama Sabachtani**, hvad ed útleggst: **Gud minn! Gud minn! hvar fyrir forlétstú mig?** og nockrir af þeim, er þar stodu hjá; þá þeir heyrdu þad, søgdu þeir: sjá! hann kallar á Elíam. Eptir þad þá Jesús vissi ad allt var nú fullkomnad, og ad Skriftin yrdi uppfyllt, þá segir hann: **mig þyrstir.** Þar stód kér fullt af ediki, jafnsnart hljóp einn af þeim til, og tók njardarvøtt, og fyllti af ediki, og setti hann ofan á reyrlegg, og gaf honum ad drecka, og sagdi: lát vera! sjáum hvørt Elías kémur ad taka hann ofan. En adrir søgdu: bídid! látid sjá hvørt Elías kémur ad hjálpa honum. En þá Jesús hafdi edikid til sín tekid, sagdi hann: **þad er fullkomnad.** Og Jesús kalladi upp hárri røddu í annad sinn, og sagdi: **Fadir! í þínar hendur fel eg minn anda.** Og er hann hafdi þetta sagt, ad hneigdu høfdi, uppgáf hann sinn anda.

## Sjøundi Partur.

Og sjá! ad tjaldid musterisins rifnadi midt í sundur í tvo parta, frá ofanverdu,

verdu, allt nidur ígégnum, og jørdin skalf, og bjorgin klofnudu, og grafirnar lukust upp, og margir líkamir heilagra risu upp, þeir ed sváfu, og gengu eptir hans upprisu úr grøfunum, og komu í hina heiløgu borg, og auglýstust þar mørgum. En er Hundrads-høfdínginn, hvørr þar stód gégnt, sá þad hvad þar skédi, og ad hann kalladi svo, þá ed hann létst, prísadi hann Gud, og sagdi: vissulega hefir þessi réttlátur madur verid og Guds Sonur. Og þeir, sem med honum vóru ad vardveita Jesúm, þá þeir sáu jardskjálftann, og þad hvad þar skédi, urdu þeir mjøg óttaslegnir, og søgdu: sannlega var þessi Guds Sonur. Og allt fólk, er þar var hjá og horfdi á, sem þeir sáu hvad þar skédi, bardi þad sér á brjóst og snéri í burt aptur. En allir hans kunníngjar stódu lángt frá. Þar vóru og margar konur, sem sáu þar uppá álengdar, medal hvørra ad var María Magdalena og María hins litla Jacobs, og Jósephs módir og Salóme, módir þeirra Zebedæi sona, þær honum høfdu eptirfylgt, þá hann var í Galílæa, og þjónad honum, og margar adrar, hvørjar

jár med honum høfdu uppfarid til Jerúsalem úr Galílæa, og horfdu á þetta. En Gydíngar, med því þad var adfánga-dagurinn, svo ad líkamarnir værit ecki á krossunum um Sabbáths-daginn, (því sá sami Sabbaths-dagur var mikill,), bádu Pílatum, ad þeirra bein brytust og ofantækiust. Þá komu strídsmennirnir og brutu sundur bein hins fyrsta, og svo hins annars, sem med honum vóru krossfestir. En þá þeir komu til Jesúm, og sáu ad hann var allareidu dáinn, þá brutu þeir eigi hans bein, heldur opnadi einn af strídsmønnunum hans sídu med spjóti, og strax þá rann út blód og vatn. Og sá er þad hefir sjed, ber þar vitni um, og hans vitnisburdur er sannur, og hann sami veit þad, ad hann segir satt, svo ad þér og svo trúid. Þvíad þetta er skéd, svo ad Ritníngin uppfylltist: Eigi skulud þér brjóta nockurt hans bein. Og enn aptur segir ønnur Ritníng: þeir munu sjá hann, í hvørn þeir stúngu. Þar eptir, þá er qvøld var komid, af því þad var adfánga-dagur, hvørt ad er fyrir Sabbaths-daginn, kom madur nockurr ríkur af borg Gydínga Aremathía, Jó-

sephs

seph ad nafni, heidurlegur Ráð-herra, gódur madur og réttvís, hvørr eigi hafdi verid sambyckur þeirra ráda-gjørd og breytni, hvørr ed og svo var einn af lærisveinum Jesú, þó heimuglegur, fyrir ótta sakir vid Gydínga, sá er og vonadi eptir Guds ríki; hann dirfdist ad gánga inn til Pílatum, og bad um ad hann mætti taka nidur líkamann Jesú. En Pílatus undradist ad hann væri þegar sátinn, og kalladi Hundrads-høfdíngjann, og spurdi hann ad, hvørt hann væri fyrir laungu andadur? og er hann var þess vís ordinn af Hundrads-høfdíngjanum, leyfdi Pílatus og skipadi, ad Jóseph skyldi afhendast líkaminn, og gaf honum hann. Þá kom hann og tók nidur líkamann Jesú. Og hann keypti líndúk og tók vid líkamanum, og sveypadi hann í hreinu lérepti; þar kom og Nicódemus, sá, er fyrri kom um nótt til Jesú, færandi samblandad myrru alóe, nær hundrad punda. Þá tóku þeir líkamann Jesú, og sveypudu hann í líni med dýrmætu salve, svo sem Gydínga sidur er til ad greftra. En þar í þeim stad, sem hann var krossfestur, var gras-gardur,

ur, og í gras-gardinum var nýgrof, í hvørja ad enginn hafdi enn verid lagdur; og Jóseph lagdi hann í þessa sína egin nýju grof, hvørja hann hafdi úthøggva látid í steini, og velti stórum steini ad grafar-dyrunum, og géck í burt. Og þad var adfánga-dagur, og Sabbaths-dagurinn tók til, þángad logdu þeir Jesúm fyrir sakir adfánga-dagsins Gydínga, þvíad sú grof var nærri. En þar var María Magdalena, og onnur María Jósephs, og þær konur, sem kommar vóru med honum af Galilæa, fylgdu eptir, sitjandi gégnt yfir frá grofinni, og skodudu grofina, sán til hvar og hvørninn hans líkami var lagdur. En þær snéru aptur, reidandi til dýrmætar jurtir og salve. En um Sabbathsdaginn vóru þær kyrrar eptir logmálinu. Og annann dag, þann sem eptir adfánga-daginn er, søfnudust saman þeir yppurstu Prestar og Pharísæi ásamt, til Pílatum, og sogdu: Herra! vær minnumst á þad, ad þessi svíkari sagdi, þá er hann lifdi: eptir þrjá daga mun eg uppríſa; af hví skipa þú ad vakta grofina allt til

til hins þridja dags, svo ad eigi komi hans lærísveinar á nóttu og steli honum í burt, og segi fólkinu ad hann sé uppirisinn frá daudum, og verdi hin seinni villa, argari þeirri fyrri. Pílatus sagdi til þeirra: þar hafid þér vard-menninna, farid! vaktid, sem þér hafid vit á. En þeir gengu í burtu, og vöktudu gröfina med vard-mönnunum, og innsigludu steininn.

# Fyrsta
# Midvikudags Föstu-Predikun.

Verid eins lyndir og Jesús Kristur! hann, sem var í Guds mind, matti þad þó ecki sem ræuta tign, ad vera Gudi líkur; nei! hann lagdi sjálfur nidur þessa tign, af því hann kaus ad vera þjón, þegar hann vard mønnum líkur, og — hann lítilæckadi sjálfan sig, þegar hann hlýdnadist jafnvel ad deyja, já, ad deyja á krossi. Philipp. 2. Þessi vóru, medal annara, heilrædin, er Postulinn Páll gaf Jesú sofnudi í borginni Philippi í Gricklandi; þessi hans vitnisburdur um Jesú mannelsku og undirgéfni undir vilja síns himneska Fødurs. Hvar má nú ædra edur og jafnverdugt dæmi til eptirbreytnis finna? hvar nockurt, manneskjur svo skuldbindandi, dæmi til innbyrdis elsku, til offurs egin erfidis og hagsælda ødrum til góda, til audmýktar, til afneitunar virdinga og sjálfs síns, til ástundunar ens góda og til undirgéfni undir Guds vilja, til íhugunar og adgjætslu þeirra kristinndóms skyldna, er leida skulu til lángvinnustu farsældar hér og annars heims? Jesús, sem var í Guds mind, kaus ad vera þjón og líkjast mønnum, til ad fullkomna vilja síns himneska

efka Fodurs og frelsa syndugu menn; hann lítilæckadi sig, sem vel mátti fullsælu hafa, til ad hlýdnast sínum Fodur, er heitid hafdi toppudu mannkyni þessari endurlausn, og hlýdnadist honum svó náqvæmlega, ad hann jáfnvel lét lífid og dó, já, dó á krossi. Þá fullkomnustu hlýdni vid Fodurinn og elsku til mannanna velferdar innsigladi Jesús med því fullkomnasta hlýdnis- og elsku-merki, med sjálfviljugum dauda. Sínu erfidi og hagsældum offradi hann mannkyninu til góds, sem var og mátti vera eilífilega sæll; sig audmýkti hann og lítilæckadi framyfir alla, þegar hann, sem var í Guds mind, ljóminn Fodursins dírdar og ímind hans guddóms veru, kaus ad vera þjón, og vard monnum, já, madki enn ecki mannl líkur; sinni egin virdíngu og sjálfum sér afneitadi hann, þegar hann sjálfkrafa lagdi nidur þá tign, ad vera Gudi líkur, en gjordist madur, sá madur, er í ollu sínu lífi hér á jordu, óaflátanlega vottadi, hvorsu ljúft og hugfast honum var ad hlýdnast sínum Fodur, leggja sig þolinmódlega undir allann hans vilja, og uppfylla allar þær skyldur, sem þessum Guds elskulega Syni vóru á hendur faldar, til ad bæta úr eymd mannanna, leida þá, sem nú vóru ordnir hans brædur, til lángvinnustu farsældar, og med sinni hlýdni fullvissa þá um hana annars heims; já, svo trúfastlega, ad hann loksins stadfesti þessa sína laungun og hlýdni med qvalafullum krossins dauda.

Á þess-

Á þessari Jesú fullkomnu hlýdni grundvallast oll vor von og trú, kristnir menn! hún er summa vors kristinndóms, verdugast eptirdæmi oss monnunum til eptirbreytni, já, þrístandi dæmi til ad vardveita stoduga og fúsa hlýdni, sem Jesús, vid vorn himneska Fodur, vor leidarvísir í lífinu, og vor huggun í daudanum. Veri þad því mín einka vidleitni í þetta sinn, af upplesnum fyrsta parti Jesú Píslar-søgu, til lærdóms og eptirbreytnis einfaldlega ad leida ydur fyrir sjónir:

Jesú fúsu undirgéfni undir vilja síns himneska Fodurs.

Æ! himneski Fadir! leggdú þín ord mér í munn, og hneig vor hjortu til lærdóms og hlýdnis þinna orda! Amen.

Allt Jesú líf hér á jordu, var ad sonnu sífeldur vottur þess, hvorsu fús hann var til ad framqvæma vilja síns Fodurs, og hvorsu hann í ollu gjordist honum undirgéfinn, þó er hans Píslar-saga oss hvad minnisstædastur vottur um þessa hans laungun. Hann var ad Fodur síns vilja og rádi í heiminn sendur, ecki til ad láta sér þjóna, heldur til ad þjóna odrum; hans matur og dryckur var ad gjøra þess vilja er hann sendi; hann tók eckért vitni, enga dýrd af monnum, en Fadirinn og þau verk, hann baud honum ad framqvæma, vitnudu um

hann; Jóh. 5. Hann leitadi ei sinnar dýrd-ar, en hann vegsamadi og auglýsti Fódurinn fyrir mönnum. Hann kom af himni, ei til ad gjøra sinn vilja, heldur þess, er hann sendi; hann auglýsti og heiminum ad hann elskadi Fódyrinn og gjørdi þad sem hann baud. Jóh. 14.; en nú var þad Fódursins vilji, ad hann enau skyldi glata af því honum var gefid, Jóh. 6.; ad hvørr, sem á Soninn trýdi skyldi ødl-ast eilíft líf, og ad Jesús legdi sitt líf út fyrir saudina. Jóh. 10. Sjálfur vitnadi Jesús, qvøldid sama og hann gëck út í sína bitru pínu, med bæn og játníngu til síns himneska Fód-urs: Fadir! eg hefi auglýst þig á jørdu og fullkomnad þad verk, er þú fëckst mér ad gjøra, auglýs mig nú einninn, minn Fad-ir! stundin er komin, ad þú auglýsir þinn Son; þá sem þú gafst mér, þá vardveitti eg, enginn þeirra er glatadur, nema þad gløtunar-barn, svo ad Ritníngin uppfylliſt. Jóh. 17. Jesús vissi vel allt hvad yfir hann koma átti; bædi ádur og eptir þad hann á fjallinu forkláradist fyrir Pétri, Jakob og Jó-hanni, sagdi hann sínum lærisveimum fyrir, hvad hann í Jerúsalem mundi lída, hvørn-inn líflátinn verda, og hvørsu hann á þridja degi mundi aptur upprísa. Vid qvøldmáltíd-ina sagdi hann fyrir Júdasar forrád og ófar-ir, og þó gëck hann sjálfviljuglega út í Gras-gardinn til ad leggja sig þar undir pínuna, og þanninn fullnægja vilja síns himneska Fód-

urs;

urs; hann leitadist eckért vid ad umflyja Júdasar[ og Gydinganna laun-svik, hvorsu sem honum vóru þau kunn, þar hann sjálfur fyrisagdi sínum lærisveinum: ad á þeirri nóttu mundu þeir allir hneixlast á sér, hirdirinn mundi verda sleginn, saudir hjardarinnar í sundur tvístrast, stundin nálgadist ad mannsins Sonur seldist í syndugra hendur, og ad sá ed hann sviki væri í nánd, heldur lagdi sig sjálfkrafa fram á þeirra vald, sagdi sjálfur til sín og géck á móti þeim. Hvorsu máttu hér ei sannast þín ord: minn Herra Jesú! eg er sá gódi hirdirinn, sem legg lífid út fyrir mína saudi, enginn tekur þad af mér, heldur legg eg þad af mér sjálfur. Jóh. 10. Hvorsu máttu ei, segi eg, þessi þín ord sannast, er þú í Gras-gardinum syndir óvinunum hvad lítid, já, minna enn eckért, þeir orka kynnu gégn þér, vildir þú ad eins láta þá, kollvarpada med einu þínu ordi til jardar, liggja þar máttvana edur og lífinu týna, en leidst þeim þó ad rísa á fætur aptur til þess ad handtaka þig og selja í fyrirdæmíngu daudans og sárustu píslir! þú géckst um kríng, gjördir gott og græddir alla, þú leitadir ad þeim frávilltu saudunum, til þess ad leida þá heim til þíns sauda-húss, þinnar kristni og þinnar sælu á himnum sídar meir, en hér urdu þín laun í qvølinni, ad þínir óvinir, já, þinn eginn lærisveinn leitadi þín, þar sem þú í Gras-gardinum varst á bænum til þíns himneska

Födurs, og fus lagdir þig undir hans reidi-dóm í mannanna stad; þar leitudu þeir þín, til ad selja og kaupa þig, fyrir fáeina sylfur-penínga, í qvalir og krossins dauda; þín, meinlausa og óflekkada lambid Guds, sem fyrir oss ert fórnfærdur; þín, þú blessada ljós heimsins, sem upplýsir alla menn, sem koma í þenna heim; þín leitudu skálkarnir med blysum og logbrondum til ad útslockva þitt lífsins ljós, þegar þú hættir ad brúka þína guddóms tign og veldi, en leidst sjálfviljuglega, einúngis sem madur í mannanna stad, þegar þú hlýdnadist þínum Fødur, jafnvel í því ad deyja, já, ad deyja á krossi. O! þá brennheitu ást til allra mannkyns, er lét þig, til líknar því, leggja lífid í solurnar! o! þessa fúsu undirgéfni í ollu undir vilja þíns himneska Fødurs!

En — látum oss, kristnir menn! enn framar skoda Jesú fúsu undirgéfni í qvolinni undir vilja sins himneska Fødurs. Hans þjáníng byrjar í Aldingardinum med skjálfta og ángist, hann titrar af hrædslu, hann verdur harmþrúnginn, hans sála hryggist allt í daudann, hans líkami sveitir blódinu, sem hrundi í hnikl-um til jardar; hann veit sjálfur og segir fyrir, ad hann þá muni seljast í óvina hendur, veit svikarann med vopnudum fjandmanna skara þegar nálægjast, veit, eins og allt hvad yfir hann átti ad koma, ad þeir innan skamms muni sig bondum reira, hrekja frá einum dóm-

stóli

stóli til annars, slá med knésum og med reyr, spotta, hrækja, húdstrykja, þyrnum kryna, dryckja med galli, krossfesta, til qvala-lengíngar á ediki endurnæra, og ad hann þanninn muni med sárri qvøl lísid láta, svo ad hann saklaus bæta kynni fyrir brot sinna qvalara og alls mannkyns; hans mannlega náttúra titrar af qvída vid adfør qvalanna og þess ótta-lega dauda, þessa lífsins og náttúrunnar óvinar, harmþrúnginn fellur hann því flatur fram á sína ásjónu til jardar og andvarpar aud-mjúkur, hlýdinn og ánægdur med vilja síns himneska Fødurs: hjartkjæri Fadir! tak burt þenna kaleik, þenna qvala- og hormúnga-fulla kaleik frá mér! æ! þetta er þér mögu-legt, þóckníst þér ad eins, hjartkjæri Fadir! Því þú megnar allt, verdi þó ecki minn, heldur þinn vilji! samt verdur hormúnganna kaleikur ecki frá honum tekinn, hann þreytir því á ný vid sinn himneska Fødur med somu bæn, og enn aptur í þridja sinni; hann bidur því innilegar, því ákaflegar sem daudans strid framar ad honum þreyngdi, og lyktar bæn sína med sama efnis ordum: ecki minn, heldur verdi þinn vilji! og þegar hann bad, en fann þó qvalanna kaleik ad sér óumbreytanlega réttum af Fødurnum til ad afsúpa, bad hann hvad audmjúklegast og undirgéfnast í øllu undir Fødursins vilja, segjandi: megi þessi kaleikur ecki víkja frá mér, án þess eg drecki hann, þá verdi þinn vilji! hvad má fúsa

 und-

undirgéfni undir Guds vilja nefna, ef ecki allt þetta? hvad ánægju med hans fødurlegu rádstafanir? hvad sonarlegt traust og sannfær-íngu, ad hann, sem máttugur, vís og gódur Gud, rádi og stjórni øllu til hins besta, sé þad ei augljóst af þessu Jesú fagra hlýdninn-ar eptirdæmi? hvad mátti fremur sanna hans egin ord: ad hann væri af himninum kom-inn, ecki til ad gjøra sinn, heldur Fødursins vilja, er hann sendi? o! minnisstædast eptir-dæmi og verdugast eptirbreytnis af oss mann-eskjum! Jesús titrar af hrædslu vid adfør qval-anna, er hann sjálfviljuglega undirgéckst, til ad bæta fyrir alla þá óhæfu, er syndugt mann-kyn hafdi framid og verdskuldad med Guds þúnga réttlætis dóm; en þú, andvaralausi synd-ari! hrædist ei Gud, staddur í ógnarlegri for-dæmingu, vilji hann ad eins í dóm vid þig gánga, og þú titrar ecki midt í því þú frem-ur þær syndir og illgjørdir þánkalaust, er Jesú urdu svo þúngbærar! Jesús sveitir blódinu und-ir þeirra ofurbyrdi, en þú ert kaldur og dof-inn í ad draga þad heilsusamlega ok med Jesú, já, hálf-volgur undir hans léttu byrdi, og verd-skuldar því ei annad, enn ad hann á sídan skirpi þér, sem hálf-volgum hræsnara og sem ónýtum þjóni, út af sínum munni. Jesús verdur harmþrúnginn og hriggist allt í daud-ann, en þú, sem allann þinn aldur hefir í lýst-unni alid, hugsar þér enn nú ad misbrúka Guds þolinmædi yfir þér allt í daudann, med því

að safna þér enn þá vaxandi hegníngar á reiðinnar dag, og lætur þér ecki í hug koma að ángrast vegna þeirra afbrota þinna, sem Guðs Syni ollu svo mikils ángurs, að hann í sinni hormúngu hrópa varð: min sála er hrigg allt í dauðann; þínir glæpir gjörðu Jesúm harmþrúnginn, en þú gleðst og lætur þig eckért ángra að fremja þessa glæpi, ecki leiða af hans ángist, ecki hræra af allri hans hormúngu til að yðrast og biðja þinn Guð og Foður um náð, og að hann taka vilji þann reiðikaleik frá þér, er þú svo fullmældann verðskuldað hefir. Jesús fellur flatur fram á sína ásjónu til jarðar, og biður auðmjúkur, hlýðinn og ákafur, að qvalanna kaleikur víki frá sér, en þú vogar enn þá uppréttur og þverbrotinn að lypta óskammfeilnum augum í hæðir til himnanna Guðs, hvorn þú svo sífellt reitir til reiði, og lætur þér lítið annt um að ákalla hann um vægð og náð, með betruðu líferni að snúa þér til hans, eða með þeim tapaða syni að andvarpa: Faðir! eg hefi syndgast í himninum og fyrir þér, ellegar að Jesú dæmi: hjartkjæri Faðir! leyf að þinn reiðikaleikur víki frá mér! Jesús leggur sig viljugann undir alla þá qvöl og þjáníngu, er hans Faðir á hann hlóð, og segir: megi þessi kaleikur ecki víkja frá mér, án þess eg dreckí hann, þá verði þinn vilji, en vér, kristnir menn! sem látumst þó vilja setja oss Jesú líf og lærdóm til eptirdæmis, vér moglum þó

 all-

allmargir undir eins mót forsjón og stjórnun vors vísa og góda himneska Födurs, jafnvel þá, er hann stjórnar voru rádi og kjorum til vorra bestu heilla og farsældar, láti hann ad eins vorar óstjórnlegu, vorar ſanſalegu, vorar ſkadvænu og opt hreckvísu óskir ecki eptir oss, leggi hann ad eins ecki í vor ſkaut, allt hvad vor óſedjandi fíkn og holdlegur munadur vogar ad útſkorda af gódum og alvísum Gudi; láti hann ad eins fácina beiſka ſorgar- eda armædu-dropa blandast í vorn ſíſulla gledi-kaleik, strax finnum vér eckért til hans gledi og ſætinda framar, þó vér þánka- og þackar-laust, margir hvorjir, súpum hvorn fleytifullann út eptir annann, í margra ára heilbrygdi, árgædſku, gledi og velgengni; þegar lítill kránkleiki, lítil ſorg, óhapp edur bágindi bera oss ad höndum, strax andvorpum vér, ecki med Jesú blída ljúflyndi og fúsu undirgéfni undir vilja vors himneſka Födurs, heldur med ódælli möglunarſemi, med djarfri frekju, hellst of margir: Fadir! tak þenna kaleik frá mér, en gleymum opt med hjarta og munni ad bæta hans ummæli vid: þó ecki minn, heldur verdi þinn vilji! já! gæfi þad Gud, ad vér einhvorjir, ecki krefdum Gud ſkyldu-ſkatts, þegar vér ſem audmjúkaſtir ættum hann ad bidja, né afmörkudum þeim óendanlega mid og máta og ſtund og ſtad til ad héyra vorar hmislegu bænir, allra ſíst vogudum í hjártanu, ef ei med munninum á ſtundum ad ſegja: þó ecki þinn, held-

ur verdi minn vilji! eda hvad gjorum vér, annad, þegar vér sífellt þyljum hvorr ødrum þúngar qvartanir yfir hans vísu rádstøfunum yfir oss, sem oss finnast ecki ad sambjóda vorum ímindudu verdugleikum, í samburdi vid annara vorra medbrædra? nú þykjumst vér ecki nógu virdtir, en unum illa ad heidrinum sé hrúgad ad þeim, er hann miklu sídur verdskuldi; nú qvortum vér, med allri vorri hófsemi og vareygd, yfir heilsúbresti, og tokum sjaldan á oss heilbrygdum, en ad rúturinn og hinn lostagjarni svallari starki lystínganna veg heill og hraustur; nú ad vér þjáumst skorti og volædi med allri vorri ydjusemi, sparsemi og rádvendni, en ad eydslu- og svack-samir, já, ódrádvandir leiu-magar búi í nægtanna skauti; nú ad vor vegferd sé um hrjóstrugann og þyrnigróinn veg, en ad varmenni mørg badi í rósum; nú ad vor rádvendni og ástundan, ad taka framførum í vísdómi og dygd, sé almennings spé-glósa, en ad hvort heimskuparid af aldarmódsins andvaralausu þyjum, sé í alþydu munni dygdin og spekin sjálf; nú ad vor verdugleiki og dugnadur sé audvirdilegur í heimsins augum undir ørbyrgdarinnar audvirdilega dularfeldi, en ad á vaxandi, saman-nirflada og útsogna fjársjódu audugs dára, hladist dagvaxandi virdíngar og hól; nú ad sjálf náttúran sé oss øfundsjúk, og útbyti oss med kargri nídsku sínum gáfum, já, svipti oss þeim, þrátt fyrir alla vora adgjætslu- og atorku-semi, á svipstundu,

en sendi, eydslusöm rofaldar ödrum í ómennsku sofandi; nú ad sjálfur himininn sé oss sem járn og jördin sem kopar, þó ödrum séu þau mild og gódgjordasöm; nú ad vér bidjum ángrádir, audmjúkir, vongódir: Fadir! tak þenna kaleik frá mér! og ítrekum þessa bæn, en megum hann þó til botns afsúpa, þar sem sælkérinn sýnist ad fá, jafnvel óbedid, hvad hann girnist, og einúngis ad medtaka gledinnar kaleik, og nú — þegar vér sjáum allt þetta, nú möglum vér mót gudlegri forsjón og réttvísi, nú leggjum vér vorn eginn verdugleika á vigt og krefjum Gud launa, svosem med sjálfskyldu, nú krefjum vér, ad hann strax heyri vorar óskir og uppfylli vorn vilja, en gleymum Jesú undirgéfnis dæmi og hlýdna ummæli: þó ecki minn, heldur verdi þinn vilji! vér vottum þá undir eins, hvörsu litid og Jesú fúsu undirgéfni ólíkt traust vér, í raun og veru, setjum til þess Guds og vors himneska Fodurs, sem vér þó med munninum játum ad vera máttugann, vísann og gædskuríkann Gud; vér dæmum þá hans rád og vísdóms vilja eptir því, sem holdlegur munadur metur ágætt um fáein augnablik; vér látum þá alla verulega farsæld vera bundna vid skammvinnann hégóma, er blindar um stund vor sljófu skilníngar-vit, og vér elskum svo mjög heiminn, af því vér oflítid elskum himininn; en Jesús, sem elskadi Fodurinn, sem þeckti allt hans vísdóms- og gædsku-rád, hann forsmádi alla fánýta heims-

sæld

fæld og virdíngu til ad fullkomna Fodurfins vilja, hvorn hann setti sér fyrir mark og mid, hvorjum hann, jafnvel í sjálfri pínunni, fól sig á hendur og sinn vilja, segjandi: ecki minn, heldur verdi þinn vilji! já, hann fulltreysti því, ad þessi Fodurfins vísi og gódi vilji væri hinn allra besti, enn þótt hans mannlega nátt-úra titradi vid þann qvalafulla kaleik er hon-úm var af Fodurnum áqvardadur; þvi bad hann þrisvar med sama ummæli, ad þessi ka-leikur mætti víkja frá sér, en — undir eins og hann fann, ad þad ecki var Fodurfins vilji ad taka frá honum þann kaleik, fann sig ad nockru leiti bænheyrdann, þegar honum sendist Engill af himni til styrktar, undir eins gengur Jes-ús fram, sem fús og hugprúdust hetja, til ad fullkomna Fodurfins vilja; enga efasemd, eck-ert vantraust lét hann í ljósi, enga tregdu ad afsúpa þenna kaleik. Hann flýr ecki, þó hann viti og sjái óvini sína nálægjast; hann leynir sér ecki, heldur gengur á móti þeim og segir: eg em hann, sem þid leitid ad; hann ver sig ecki, hvorsu audveldt sem þetta var honum, heldur vottar sína fúsu undirgéfni undir vil-ja síns himneska Födurs, med því ad lída þeim, ad rísa aptur á fætur, eptir þad hann hafdi lagt allann óvina-skarann ad velli med einu almættis ordi, og þar med sýnt þeim sinn mátt, já, lídur þeim ad handtaka sig. Hann þyggur ei vorn edur forsvar af ödrum, held-ur óvitar Pétur, sem rykti sverdi til Jesú

varnar, hardlega, minnir hann á þá miklu skyldu, ad treysta Gudi og leggja sig sjálfann undir hans vilja, segjandi: stíkrú þínu sverdi í slídur, meinar þú ecki ad eg nú gæti bedid Födur minn, ad senda mér fleiri enn tólf legiónir (þad er hér um 8000) engla til varnar? skal eg ecki drecka þann kaleik, sem Fadirinn hefir mér gefid? en hvörninn fyllast þá ritníngarnar, því svona ber ad ské?

Svo fúsa undirgéfni undir vilja síns himneska Födurs vottadi Jesús, bædi vid upphaf pínunnar og í henni allri! svo þolinmódlega umbar hann sérhvörja písl og vanvirdu af sínum qvölurum! svo kjærleiksfullur leid hann alla hádúng og krossins bitra dauda, ad hann ecki lauk upp sínum blessada munni til mögls edur óþolinmædis, ecki ógnadi þá hann leid, ecki formælti þá honum var formælt, heldur bad sjálfur sínum qvölurum vægdar, og afsakadi þeirra vanvitsku! já, svo fúsa undirgefni vid Födursíns vilja vottadi hann í öllu, ad eckért annad jafnverdugt dæmi veit eg ad sela ydur til eptirbreytnis, kristnir menn! æ! látid því þetta lærdómsríka dæmi sífellt vaka í ydar hjörtum til leidarvísirs í lífinu, til upporfunar í ydar ángist, til hughreystíngar í sérhvörri þjáníngu og sorg, og til fúsrar undirgéfni undir vilja ydar himneska Födurs! Þér, sem lært og heyrt hafid hvörsu þúngbært ydar saklausa Lausnara vard ad betala ydar synda-sekt, og hvörsu hann, ydar vegna, mátti

titra

titra af hrædslu og harmþrúnginn verda vid
adför hins grimma daud-daga, já, sveitast blód-
inu, og þar eptir alla þá óhæfu þola, er hans
Píslar-saga vottar, hrædist þó Gud, þér, hvor-
jum glötunin annars er búin, og hættid ad
gledja ydur vid þá syndanna ydju, er kostadi
ydar Meistara lífid, en nálgist hans kross, og
lærid þar af enum lídanda Jesú þann dyr-
mæta vísdóm, ad lifa og deyja vel; þann vís-
dóm og þá dygd, í öllu ad legaja ydur fús-
lega undir vilja ydar himneska Födurs; þann
vísdóm, ad setja allt ydar traust til hans, eins
og Jesús, fullvissir um hans speki og vilja og
mátt til ad stjórna öllu, sem honum þóknast
ad láta fram vid ydur koma, til farsællegs enda;
þann vísdóm, ad óttast Gud. O! ad þessi
farsæld og þessi vísdómur mætti æ verda ydar
hlutskipti, verda mark og mid allra ydar at-
hafna, þá má hvorr ydar jafnan gladur og
hughraustur, sem Jesús, gánga á móti sínum
ofsóknar- og haturs-monnum, segjandi: eg er
hann, sem fúsa undirgéfni veiti vilja míns
himneska Födurs, og er reidubúinn ad af-
súpa þann hormúnga-kaleik, hann hefir mér
sendt; eg er hann, sem óskelfdur fylgja vil dæmi
og lærdómum míns Jesú, og sem fulltreysti
mínum Gudi og Fødur ad géfa sérhvorri reynslu,
er mér mæta kann, þann enda ad eg fái vel
stadist. Já, þegar Drottni þóknast ad senda
ydur, kristnir menn! nockra reynslu, nockra þján-
íngu í lífinu, sem ecki mætti tilreiknast sjálfra
yd-

ydar ófuamſhni, þá bidji hvorr um ſig, ad ſonnu, eptir Jeſú dæmi: hjartkjæri Fadir! leyf ad þeſſi kaleikur viki frá mér! en gleymi aldrei hans ummæli: þó ecki minn, heldur verdi þinn vilji! þóckniſt þér ad láta mig reyna orbyrgd, hatur og oſſóknir, ſem Jeſúm, þá verdi þinn vilji! ſkuli eg verda ſpott og ſpé-glóſa mannanna, fyrir þinn ótta og þína vidurkénníngu, ſem hann, þá verdi þinn vilji! ſkuli eg reyna álygar og adkaſt heimſins fyrir gott, ſem hann, ſeljaſt af vina ſkárædi til óvina og oſundar-manna grimdar, ſem hann, lída fjotur og hádúng og fyrirdæmíngu, já, ſjálfann daudann, ſem hann, ſvo verdi þinn vilji! fús ſkal eg afdrecka þann heilſuſamlega kaleikinn, ſem þú, minn Fadir! hefir mér géfid, og þitt nafn vegſama; einkum bid eg þig, hjartkjæri Fadir! þegar ſú ſtund tekur ad nálgaſt og adkémur, ad eg aſſápa ſkal daudans bitra kaleik, mitt lasburda hold tekur ad titra og ſkjálfa og þjáſt í daudans ſtrídi, minn andi harmþrúnginn ad verda og hriggjaſt allt í daudann, ſtyrk mig þá, mildi Fadir! ſem Jeſúm í ſínu dauda-ſtrídi, til ad fá hann vel og ſigri hróſandi afdruckid; ſend mér þá þann vísdóm í hjartad, ad eg þecki þinn vilja ad vera mér, eins og ollum, fyrir beſtu, og leggi mig því eins fús og hughrauſtur og þér fulltreyſtandi undir hann, ſem Jeſús; minnſtú þá hans ſálar ángiſtar og allra harmqvæla, þegar hann hlýdnadiſt þér jafnvel ad deyja, já, ad deyja á kroſſi,

á krossi, og fyrir hans hlýdni, væg þá minni óhlýdni, fyrir hans fulltraust, styrk þá mitt veika traust, og lát þína náð og gledirika huggun deyfa alla remmu í daudans sídustu skál. O! ad sú bæn verdi mér og ydur öllum já og Amen!

# Annars
# Midvikudags Fostu-Predikun.

Ad hvörjum leitid þér? svo spurdi Jesús þann óttalega óvina skara, sem ad honum þusti í Gras-gardinum, med hans eginn lærisvein Júdas í broddi fylkingar, og þeirra svar vard: ad Jesú af Nazareth. Merkverd og lærdómsrík má þessi Jesú spurning, eins og allt annad í hans Lífs- og Píslarsögu, vera oss, kristnir menn! sem svo opt látumst vilja leita ad Jesú í hans lífsins ordi, og í þessu ordi ad hans vilja til vorrar farsældar; leita hans hjálpar og huggunar í hvörju, sem oss ad höndum ber. Ecki var Jesú ókunnugt, ad hvörjum þessi fjandmanna flockur leitadi, né heldur í hvörjum tilgángi, þvi hann vissi allt; en af því hann, ad vitni Gudspjallamannanna í upplesnum parti Jesú Píslar-sögu, vissi þetta allt, sem yfir hann átti ad koma, geck hann sjálfur á móti sínum óvinum

vinum og spurdi: ad hvørjum leitid þér? audsjáanlegur er, medal annars, sá tilgángur Jesú med þessa spurníngu, og med því ad gefa sig sjálfkrafa fram á þeirra fund, eins og hugprúd hetja, er þá strax var reidubúinn ad fullkomna Fodursins vilja, er hann sendi, já, ad fullkomna hid mikla endurlausnar verk, sá tilgángur, segi eg, ad láta þá sjá, og af reynslunni þeckja, hvorsu máttugur sá var, sem þeir offóktu og nú framselja vildu í fyrirdæmíngu daudans, er hann strax eptir med einu almættis andsvari: eg er hann, sló þessum skara flötum til jardar; þó er sá tilgángur hans jafnframt audsjáanlegur med þessari spurníngu, og andsvørunum, er af henni leiddu, ad vernda sína elskudu lærisveina fyrir áráfum, og forda því, ad óvinirnir villtust um sig og þá, tækju einhvørn þeirra í stadinn sín, edur vegna óvissunnar í náttmyrkrinu, alla þá undir eins og sig. Þenna Jesú tilgáng med þá itrekudu spurníngu: ad hvørjum leitid þér? vottar hans itrekada svar: eg sagdi ydur þad, eg er hann; þar fyrir, ef þid leitid ad mér, þá látid þessa á burt fara. O! hvørsu náqvæm var ei þessi Jesú umhyggja fyrir frelsi og velferd sinna lærisveina! hvørsu samqvæm því mikla offri, er hann nú fór ad láka fyrir þeirra og allra manna sakir, þegar hann fórnfærdi sjálfann sig Gudi, og gaf sitt líf út til lausnar-gjalds fyrir alla! hvørsu sannandi hans egin ord, Jóh. 17.: ad engum hefdi hann glat-

ad af þeim, sem Fadirinn gaf honum; o! þetta náqvæmasta elsku- og umhyggju-merki! ad þjást siálfur í daudans stridi, ad siá vopnadann fiandmanna skara æda mót sér med bitrustu grimd, ad umkríngjast øllum ógnunum ens qvalafyllsta daud-daga, og þó láta sér lángtum framar annt um annara heldur enn egid frelsi, og þó leggja sig siálfkrafa fram í daudans háska til ad forda þeim, og þó ad vísa sínum fiandmønnum óbedinn á sig, en bidja þeim en ecki siálfum sér hlísdar! o! þetta minnistædasta mann-elsku dæmi, verdugt ad inn-prentast diúpt í allra manna hiørtu med óút-skafanlegu letri! þetta hugg-unar-ríka dæmi øll-um Jesú elskendum! hann vottadi sig ad vera góda hirdirinn, sem leitadi ad frávilltu saud-unum; þegar hann gaf sig, í vorn stad, fram í óvinanna hendur, gaf sitt líf út fyrir sína saudi; en hans sauda var aptur á mót ad heyra hans raust, og ad þeckja þenna sinn hirdir. Hans raust lét fordum fagurt af hans eginn munni medal þeirra töpudu sauda af húsi Israels, Gydínganna, til hvorra hann qvadst eginlega sendur, Matth. 15, og þó heyrum vér ad þetta hans fólk, já, hans eginn lærisveinn Júdas, leitadi Jesú med sverdum, staung-um og vopnum, med lømpum og logbrønd-um; hans raust hefir sídan hliómad og hlióm-ar enn fagurt medal kristinna, í hans heilaga ordi; en hvorninn kristnir menn hafa leitad og enn leita síns Meistara Jesú, er ad sonnu í

 morgu

morgu lofsverdt, og í morgu frábrugdid. Júdí asar og hans fylgjara dæmi, en þó í morgum greinum svo líkt, ad eg nú vil láta mitt umtals-efni vera ad minnast á:

## Kristinna ýmislegu adferd ad leita Jesú.

Lát oss, o Jesú! af þessari yfirvegun læra svo verduglega og gudrækilega ad leita þín og þinna orda, ad vér á sídan fagnandi mættum þig eilíflega finna! Amen.

---

Margvísleg er sú adferd, sem mennirnir hafa brúkad ad leita Jesú. A hans holdsvistar-døgum leitudu margir hans til ad frædast af honum, og allur fjøldi manna flycktist til hans, til ad hlýda hans ordum, þeir fylgdu honum eptir á fjøll og eydimerkur og sáu hans dásemdar-verk; Nicodemus, þessi Meistari í Israel, leitadi á náttar-þeli Jesú sér til uppfrædíngar; sjúkir af alls slags sóttarferlum leitudu hans hjálpar og urdu heilbrygdir; blindir hrópudu: Jesú, sonur Davíds! miskuna þig yfir oss! líkþráir: Jesú, gódi Meistari! miskuna þú oss! hin blódfallsjúka, Kóngs-madurinn, Jaírus, Høfudsmadurinn, sú kanverska og ótal adrir leitudu hans, en Gydíngar og þeirra Høfdíngjar, Skriftlærdir og Pharisæi leitudu hans undir eins ødruvísi, þeir leitudu Jesú ad sønnu á, stundum, sem

hins

hins fyrirheitna Messíæ, en sem þess Messíæ, um hvors komu og erindi þeir gjørdu sér gagnstædar meiníngar Jesú sanna erindi í heiminn; þeir væntu ad hann, sem veraldlegur Konúngur, skyldi á ný vidrétta þad Israels ríki, sem þá vár fyrir laungu undir lok lidid, og frelsa þá undan annarlegri yfirdrottnun, en þeir gádu þess alls ecki, ad Jesú, sem þess sanna Messíæ, ríki ecki var af þessum heimi; þeir óskudu þess vegna sífeldt teikna af honum, er láta mættu ad þessu; en þótt þeir ýdugslega [illegible]eu svo mørg og mikil dásemdar verk, er Jesús gjørdi á medal þeirra, héldu þeir hann ad eins sem Spámann, eins og Nicodemus vottadi, segjandi: Meistari! vér vitum ad þú ert Lærifadir af Gudi kominn, því enginn getur gjørt þau teikn, sem þú gjørir, nema Gud sé med honum, Jóh. 3.; samt vildu þeir ecki þeckja hann fyrir Messíam, ecki fyrir þann veraldlega Konúng, eptir hvørjum þeir væntu og leitudu; þeir fylgdu honum ad sønnu eptir, af því þeir sáu þau teikn, þau krapta-verk, er hann gjørdi á sjúkum, Jóh. 6.; þeir undrudu þessi verk ad sønnu og søgdu: allt gjørdi hann vel, því daufa lét hann heyra og mállausa tala, Marc. 7., en þeir vildu þó ecki halda hann ad vera hinn sanna Messíam, nema þeir sæu teikn, er vottudu hans sendíngu til þeirrar kónglegu yfirdrottnunar, hvørja þeir væntu ad finna hjá Messía, svo Jesús mátti qvarta: nema þér sjáid teikn og stórmerki, trúid þér

ei, Jóh. 4., og aptur Lúc. 11.: þetta er vond kynslóð, hún girnist teikn. Í sama skyni gladdist Heródes, er hann sá Jesúm, og leitadi eptir ad sjá teikn af honum, en forgéfins. Ad sönnu höfdu menn og gladst vid hans innreid til Jerúsalem, er þeir hugdu hann þá mundi þar veraldlega Kóngsstjórn byrja, breiddu sín klædi á veginn, lofudu Gud med hárri röddu fyrir þau teikn, er þeir höfdu séd og sögdu: lofadur sé sá komandi Kóngur í nafni Drottins! fridur á himni og dýrd í upphædum! Lúc. 19.; ad sönnu höfdu þeir svo sannfærst af Jesú krapta-verki, er hann med 5 braudum og tveimur fiskum mettadi 5000 manna, og lét þó 12 karfir fullar verda ad afgángsleifum, ad þeir, sem sáu þetta teikn, sögdu: þessi er sannarlega sá Spámadur, sem í heiminn skal koma, vildu því grípa hann og gjöra ad Kónúngi, Jóh. 6.; en þegar þeir sáu ad hann flúdi undan þeirri virdíngu og tók sér alls ekkért veraldlegrar Kóngsstjórnar snid, vildu þeir ekkért af fyrrsíenum teiknum þýda uppá hinn sanna Messíam, því freistudu þeir hans, og óskudu ad hann sannadi sig ad vera Messíam med teikni af himni, Marc. 8.; því sögdu þeir hann med fullíngi Beelzebubs útreka djöfla, Lúc. 11., og af því þeir ecki skildu, hvört Messíæ sanna erindi var, sögdu Gydíngar: djöfulinn hefir hann, afsinna er hann, til hvörs heyrid þér honum? Jóh. 10.; já, þeir vildu opt grípa hann, grýta hann og Kennimannahöfd-

hofdíngjar, Skriftlærdir og villdarmenn lýd-
sins leitudu tækifæris ad fyrirkoma honum,
Lúc. 19.; loksins gjørdu þeir honum þad ad
dauda-søk, ad hann segdi sig ad vera Gyd-
ínga Kónginn Kristum; svo fast stódu þeir
jafnan á, ad Messias sanna skyldi med teikn-
um sína veraldlegu Köngs-tign, ad þeir álitu
þad ad frásnúa fólkinu, orsaka upphlaup, og
ad leida þad. afvega og í villu, ad hann qvadst
vera Messias og Konúngur Gydínga, en
skeytti þó alls eckért veraldlegri stjórn; ad sjálf-
ur Jesús, á krossinum hángandi, bad sinn
himneska Fodur vægdar fyrir þeirra íllvirki,
med þeirri afbotun og játníngu: ad þeir vissu
ecki hvad þeir gjørdu; æ sídan hafa þeir
vænt, ad Messias skyldi med teiknum sanna
sinn Köngdóm, svo sem Postulinn Páll vitnar
1 Cor. 1.: ad Gydíngar æski teikns og Grísk-
ir spyrji ad speki, og ad sá krossfesti Kristur
sé Gydíngum hneixlan, er þeir gjordu sér alla
adra þánka um þann sanna Krist. Og hvad
þurfum vér Gydínga til ad taka? sjálfir Jesú
lærisveinar vóru allmargir, strax eptir hans
dauda og upprisu, ófródir um Messiæ sanna
erindi, og héldu þad vera ad upprétta Köngs-
veldid handa Jsrael; þeir tveir, sem vóru á
ferd til Emaus, hverjum Jesús upprisinn op-
inberadist, qvádu sig vonad hafa, ad hann frelsa
ætti Jsraels lýd, Lúc. 24.; af þeim 11 læri-
sveinum og meir enn 500 kristnum, sem á
Galílalands-fjalli, þar eptir sáu hann upp-

 risi-

risinn, esudu nockrir um erindi hans, þar þeir meintu ad Israels Kóngs-veldi ætti ad verda veraldlegt; já, þegar þeir, er hann hofdu sied uppriſinn, vóru samanſafnadir undir hans uppstigningu til himna, spurdu þeir Jesúm jafnvel ad: Herra! ætlar þú nú á þessum tíma ad stipta Kóngs-veldid fyrir Israel? Post. g. b. 1., svo ófródir og efablandnir vóru sjálfir Jesú lærisveinar um erindi hans, uns þeir þarum frædðir urdu seinna meir af heilogum Anda. Þanninn leitudu jafnvel þessir Jesú, sem veraldlegs drottnara, enn þótt þeir af ollu mættu vera ordnir sannfærdir um sannleika hans egin orda: ad hans ríki væri ecki af þessum heimi. Hvørt munu þá undur, þó Gydingar leitudu Jesú þanninn, sem upplesinn partur hans Píslar-søgu útmálar, med sverdum, staungum og vopnum, med lømpum og logbrøndum? Æ! allt ofmargir kristinna hafa sídan og enn í dag fordæmt þessa Gydinganna adferd ad leita Jesú, hatad þá og hrjád, og jafnvel gjørt sér ad skyldu, ad hefna á þeim þessa illrædis, þó ad allt, sem fram vid Jesúm í qvølinni kom, væri fyri laungu af Guds vísdómsfulla rádi fyrirsied og ályktad; þó ad þeirra íllvirki yrdi í Guds hendi medal til fullkomnunar þess mikla endurlausnar verks, sem nú grundvallar allra kristinna von og trú, og þó ad sá rétt láti Dómarinn Jesús, hvorn hinir framseldu í daudann, midt í sinni sárustu písl á krossinum sjálfur

ur vitnad hafi um þá: þeir vita ecki hvad þeir gjøra! Gæfi þad Gud, ad kristnir menn, sem fulla þeckingu þykjast odlast hafa um persónu og lærdóma Krists, og svarid þeim hollustu og trú, ad þeir, sem ecki vilja né kunna Gydínganna vanvitsku fyrir sig bera sér til málbóta, heldur segja: vér sjáum, vér vitum hvad vér trúum og gjora eigum, ecki hefdu sídan leitad Jesú, sem óvinir hans fordum, né med eins blindadri og enn syndsamlegri frekju adferd leitad Jesú undir gudhrædslunnar yfirskini! látum oss fljótlega renna vornm þaunkum til margra kristinna ólíku adferdar ad leita vors Jesú, og oss til lærdóms þar af sjá, í hvorju hún taki Gydínganna fram, og hvorn verdugleika hún hafa muni fyrir augliti ens réttláta Dómara!

Hvad segir oss Kristinndóms- og Veraldar-sagan? hvílíkt skodunar-spil frambýdur hún oss, medal kristinna, medal játenda Jesú? lengst af slockadrætti, hatur, mord og stríd og ofsóknir og blóds-úthellingar og grimmustu píníngar og bál og bruna þeirra medbrædra, sem ecki leitudu Jesú med somu adferd og þeir yfirsterkari. Blómlegust lønd fljóta í egin blódi, stadir brennast upp, manneskjur píntast margvíslega, brytjast nidur, dreckjast, steikjast á báli þúsundum; já, hundrad þúsundum saman; húngur og drepsóttir, orsokud af þessum ofsóknum, eitra þá sigd, hvorri daudinn veifar yfir rósemdar og farsældarinnar heimkynni,

 og

og af hvorri orsök? allopt einúngis þeirri, ad sæll og fridsamur, gódur granni valdi sér adra adferd ad leita Jesú, ad dýrka sinn Gud, enn ofundsjúkum og hofmódugum nábúa gedjadist; því herthjar þessi sig til ad kúga med eldi og sverdi og bannfæríngum granna sinn til ad vegsama Gud, ad þjóna Gudi, eptir þeim sida-reglum hinn ecki skilur eda þeckir, ecki er sannfærdur um ad jafnist vid sínar, enn sidur taki þeim fram; þessi gjørir sig ad hjartnanna og nýrnanna ransakara, ad hugsananna dómara, ad Gudi, sem hafi lyklana ad lífi og dauda, ad himnaríki og helvíti, og segir: svona skaltú leita ad Jesú; ecki eins og þú vilt og sær skilid, heldur eins og eg býd þér, annars er þér glötunin búin, þín pína ákvordud, þín píslar-færi til taks, þitt bál þegar kveikt, þinn daudi víss, já, þitt helvíti opid. Hvad virdist ydur, kristnir menn! mun ecki þetta ad leita Jesú líkt og Júdas med sínum flocki, er leitadi hans med sverdum, staungum og vopnum? þess hógværa og mannelskuríka Jesú, sem á dóms-degi alls holds, vill meta þessa og þvílíka adferd vid sína játendur, sína minnstu brædur, sem vid sjálfann hann framkomid hefdi; þess Jesú, sem spád hafdi, Jóh. 16.: ad hvørr sína játendur lífláti, mundu meina sig ad gjøra Gudi þægt verk þar med, en undir eins sagt: þetta munu þeir gjøra, af því þeir þeckja hvørki Födurinn né mig; þess Jesú, sem baud sín-

um

um læriſveinum, og undir eins ollum ſinum játendum, Jóh. 13.: kæru børn! nýtt boðorð géf eg ydur, að þér elſkið hvørr annann; eins og eg elſkaði ydur, ſvo ſkuluð þér og elſkaſt innbyrdis. (O! hvorſu gleymnir eru ei hinir offóknarar, er þó nefna ſig kriſtna Jeſú leitendur, þeſſa Jeſú boðorðs? hinir mannbodlar, er áhyggjuſamlega hafa leitað upp hvørn þann, er þeir hugdu eitthvað frábrugdið þeirra trúarbragda grillum þenkja edur mæla, til að oſſækja, ſmána og framſelja í ſárar qvalir og daudann, eins og Júdas og hans fylgjarar Jeſúm, eda er ecki þetta að leita Jeſú með lømpum og logbrøndum? Gudi ſé lof! vér byggjum hér að ſonnu kaldann hólma, en príſa meguni vér þeſſa vegna forſjón og mildi Guds, ſem lét oſs hér aldrei kénna á þeim qvalafulla ſtríds- og offókna-hita, vegna vorrar Guds-dýrkunar, ſem vída hefir eydt og ormagnað morg lønd, já veraldar-álfur. Hér hafa menn í ró og fullu frelſi mátt dýrka ſinn Gud, leita ſins Jeſú, eptir beſtu þeckingu og ſannfæringu, á medan Páfadómſins gudlauſi Rannſóknar-réttur um morg Nordur-álfunnar Kóngaveldi dró ótolulegann grúa Jeſú ſaklauſu játenda, er grunſamir hofduſt um, ecki í ollu að að hugſa edur tala, ſem þeſſum réttarins bodlum líkadi í trúarbragda efnum, undir þær ſárustu píſlir, er upphugſaſt máttu, og á logandi bál; á medan Kóngar og landa ſtjórnendur eyddu þegnum ſinum og allri velmegun ríkja ſinna

sinna til ad innprenta ødrum þjódum med eldi og sverdi náskyld trúarbrogd; á medan banueldíngar settu mestalla Nordur-álfuna í bál og bruna sokum trúarbragda gétgátna, sviptu rétta stjórnara og egendur ríkjum, voldum, eignum og ódulum; á medan kristnir svolludu, í Vestur-álfunni, heipt sinni á saklausum innbúum þar, hundrad þúsundum saman, vegna ólíkra trúarbragda; á medan nád Guds, syrirgésníng drýgdra og ódrýgdra synda og von eilífrar sælu, géck kaupum og solum mót gulli og peníngum, sem annar varníngur; á medan, segi eg, ad kristnir þanninn þóktust leita Jesú og hans bodorda, en í raun med eins heiptar-fullum þjósti og Júdas med fylgjurum, og ólíkt þeirri adferd, er Jesús og hans sonnu Postular brúkudu, til ad leita ad enum frávilltu saudunum, hofum vér ad sonnu eckert af þessum ossóknum reynt, þó hefir vort land ýmislega adferd valid sér á ýmsum oldum, til ad leita Jesú og hans þjónustu. Ecki er lángt sídan Páfadómsins myrkur hvursu vid þad ljós, er Lútherus qveikti med endurbót trúarbragdanna, og enginn af vorum sofnudu forfedrum mun þó hafa þeckt edur álitid sína adferd ad leita Jesú óvissari edur lakari enn vér nú álitum vora; hvorjum og einum þykir sinn fugl fagur; hvorr og einn gudrækinn Jesú elskari má og deyja med sáluhjálplegri von, eptir ad hafa í lífinu þanninn leitad Jesú, sem hans sannfæríng og trú dæmir

dæmir réttast, fulltrúa um, med Postulanum Pétri, Post. g.b. 10., ad hjá Gudi er eckért manngreinar álit, heldur er hvorr sá, sem óttast hann og gjörir hvad rétt er, honum þócknanlegur, af hvada þjód, sem hann er. Vér þykjumst nú sjá meira, lengra og víssara frá oss á vorum trúarbragda vegi, enn margir vorra eldri forfedra, og sjáum þad sannarlega, því ódaudlegar þackir séu eilífum Gudi! sem lét oss, búandi í heidindóms myrkri og skugga, upprenna þad ljós, í hvorju vér lærdum ad leita Jesú, sem flutti oss frá myrkrunum til síns dásamlega ljóss! en hugsum oss aldrei fullnuma hér í heimi, og ad sannleiki og vitska skíni hvorgi gladt nema hjá oss og á vorum dögum, eda ad vér einir leitum réttilega vors Jesú! audsjáanlegt er Guds vísdómsfulla rád frá upphafi heimsins, ad leida sínar mannsképnur sifeldt fram, old eptir old, til vaxandi þeckingar í ollu og til betrunar; sjálf heilog Ritníng, já Veraldar-sagan, og vors Fodurlands-saga stadfestir þann sannleika; sú var tídin, ad vér alls eckért vissum af Jesú, en med kristnibodinu lærdum vér nockra adferd ad leita hans, og med endurbót trúarbragdanna þá adferd, er vér nú dæmum betri; réttilega erum vér hættir ad setja trúnad á margfalda hjátrú og heimsku, á djofulsins medstjórn med Gudi í náttúrunnar ríki, og skammast vér ad ákalla hann, eptir óhlutvandra vísu, ásamt Gudi; hættir ad setja trúnad á svo nefndra galdras

galdra-manna skyndndu sambønd vid djöful-inn, og mátt fyrir þessa fulltíngi; já, hættir ad brenna og dreckja þessum saklausu med-brædrum, og med svo blóskrandi offurs adferd ad leita vors Jesú og hans vilja, og smám-saman mun oss upprenna sú tíd, ad vér enn framar þeckja munum og reyna, ad Guds ríki er ecki fólgid í ordum, myrkvum og þúng-skildum, forblómudum, sansalegum ordum og líkíngum, heldur í krapti. Óneitanlega skín nú trúarbragdanna ljós oss gladara, enn vor-um eldri fedrum, og óneitanlega mun þad enn gladna hjá vorum óbornu nidjum, svo ad þeir í því, máské enn verduglegar enn vér, læri ad leita vors Jesú. En — æ! vort ljós er oss þó nóg, ef vér ad eins viljum í þessu ljósi Jesú réttilega leita, en varast Júdasar og Gydínganna víti. Stíngid þessvegna hend-inni í ydar eginn barm, kristnir menn! ran-sakid ydar hjörtu, reynid hvort þér séud í trúnni og hvorninn þér leitid Jesú! Júdas seldi sinn Meistara fyrir fáeina penínga, en þegar þér látid glaum og gjálífi og skarkala veraldarinnar koma ydur til ad gleyma ydar Jesú, ad afneita honum og hans lærdómum, ad kasta hans bodordum á bak ydur aptur, ad setja til sídu og láta fala ydar trú og játn-íngu hans, ydar hlýdni vid hans ord, vid einhvorjum hagsmunum edur ábata-vón, þegar eitthvad lítid af hégóma dýrd og munadi veraldar-innar freistar ydar, hól og virdíngar og brád-

vandra

vandra voldugra hylli ginnir ydur til ad lík-
jast sér, en. hirda ecki, heldur enn Júdas, um
ydar Meistara Jesúm; géfid þér þá ecki Jes-
úm falann? seljid þér þá ecki Jesúm fyrir fá-
nýtt glis heimsins, fyrir fárra peninga virdi,
sem Júdas? ad hvorjum leitid þér þá? ad
sönnu ad Jesú, en einúngis, sem Júdas til
ad svíkja og selja ydar Meistara, en kaupa
ydur í stadinn glotunina, sem hann; selja alla
ydar farsæld og sinnis-rósemi, en kaupa fyrir
hana qvol og orvæntíngu sidar meir, sem hann;
þér seljid þá lífid, en kaupid daudann. Þeg-
ar þér sækid helgar tídir og lestra, og í vid-
logunum sendid, midt í ydar vondsku og and-
varaleysi, nockur bænar-andvorp upp til yd-
ar Guds og Jesú, hengid nidur hofudin, set-
jid upp gudrækilegann hræsnara-svip, og gáng-
id til drottinlegrar qvoldmáltídar, einúngis fyr-
ir sidasakir, og til ad komast hjá vanvirdu og
álasi af ydar medbrædrum, njóta kristins og
borgaralegs frelsis, og, líkt og Pharísæi ford-
um, viljid med þessum hræsnurum sýnast gód-
ir fyrir monnum; þegar þér þar látist vilja
minnast Jesú qvalafullu pínu og verdskuldun-
ar, leita hjá honum fyrirgéfníngar ydar morgu
og miklu afbrota, heitid og sverjid honum í
hvort sinn stadfastri hollustu og trú og endur-
bót ydar vonda lífernis, og medtakid, til inn-
siglis þessarar ydar játníngar og trúar á Jesú,
hans líkama og blód, en látid svo lítinn hug
máli fylgja, sýnid svo lítil betrunar-merki í

yd-

ydar líferni, sambodin þessari útvortis gudrækni, ad þér, í dárlegu oftrausti bodadrar synda-qvittunar, haldid med nýrri frekju áfram í ydar sömu vana-syndum og uggleysi, verdid æ því argari, sem framar eldist, í stadinn fyrir betri og verdugri Jesú lærisveinar, ad hvörjum leitid þér þá? ad sönnu ad Jesú, en ecki ólíkt og Júdas, sem mælti: heill sértú, Rabbí! og kyssti hann, en sveik sinn Meistara med þessum kossi. Hann mynntist vid Jesúm med fagurgala, en hafdi med sér flock manna med sverdum og staungum og vopnum til ad grípa hann; þér mynnist og vid ydar Jesúm í altarisins Sakramenti, og heitid honum þar öllu fögru, en hafid á bak vid ydur mikinn her synda og ódygda, hvörjum þér þar eptir ásetjid ad beita gégn Jesú; en látid þó, sem Jesús segi og svo til ydar: ad hvörjum leitid þér? vinir! til hvörs erud þér hingad komnir? kristnir! þér, sem berid mitt nafn og látist vera mínir lærisveinar! viljid þér og svíkja og gabba mig, sem ydar vegna þoldi svik og sára qvöl og krossins dauda? viljid þér enn vera mér ótrúir, sem Júdas? enn fylgja hans, en ecki mínum fótsporum? enn selja ydar Meistara, sem hann, fyrir fánýtann hégóma? enn rádast undan mínu merki og steypa ydur í glötunina, sem hann? þegar þér haldid áfram ad hata, smána og áreita Jesú sönnu tilbidjendur; þegar þér látid ei af ad dæma og fordæma, sem vitfyrríngar, ydar

med-

kiedbrædur, vægja og hreyta banni yfir hvørn, sem ecki þýdist ydar fortølur og ginníngar, þér blindir og blindra leidtogarar! yfir sérhvørn, sem forsmáir ad draga ydar vantrúar og andvaraleysis og lystínga ok, ad hvørjum leitid þér þá? ad sönnu ad Jesú, en líkt og Gydíngar, því hvad þér fremjid gegn þessum Jesú játendum, vill sá meta eins og vid sig gjort, sem svarid hefir og sagt: sannlega segi eg ydur: hvad þér gjørdud einum af þessum mínum minnstu brædrum, þad gjørdud þér mér, Matth. 25. Æ! látid því, sem ydar Meistari og réttvísi Dómari Jesús segi enn til ydar: ef þid leitid ad mér, þá látid þessa í fridi vera; hvørjir erud þér, sem annarlegann þjón dæmid? hann stendur og fellur sínum Herra; því dæmid þér, því forsmáid þér ydar brædur? allir skulud þér mæta fyrir mínum dómstóli. Látid því af ad dæma hvørt um annann, en leggid enga ásteytíngu í veg fyrir ydar brædur, Róm. 14. Eg hefi fyrir ydar skuld ránga dóma og álygar og lastmæli saklaus þolad, og þó ecki fordæmt mína ofsóknara, þó ecki dæmt mína qvalara, heldur bedid þeim vægdar; þó ecki áfellt ræníngjann, sem fyrst hæddi míg, en sídan leitadi minnar nádar á krossinum, heldur heitid honum vist med mér; eg hefi fyrir ydur á holdinu lidid, æ! brynjid ydur því med sama hugarfari og látid af ad syndga, 1 Pét. 4.

Já, leitid Jesú, kristnir menn! á medan hann er ad finna, ecki sem Gydíngar; og Jesú nafns smánarar, heldur sem verdugir kristnir, verdugir til hans nafns og játníngar, og verdugir ad hann, á þvi mikla allsherjar þíngi, þecki ydur fyrir sína vini og trúfostu eptirfylgéndur, sem hafid elskad hann af hjarta, og einkanlega þarmed vottad ydar elsku til hans og ad þér seud hans trúfastir lærisveinar, ad þér hér hafid elskad hvorr annann, Jóh. 13. Þegar sorg og harmqvæli, skortur og neyd, hatur og áreitir vondra manna ossækja ydar sakleysi og dygd, sem hans, leitid þá ydar Jesú, og þér munud vid yfirvegun og minníngu hans písla, odlast huggun og styrk og hugarmód til ad bera ydar mótlæti med öruggri von og þolinmædi og fulltrausti á gudlegri nád. Leitid hans med gudrækilegum og grandvörum lifnadi, med hreinskilni og vongódri trú allt til æfiloka, svo munud þér hann, ydur til eilífrar gledi og farsældar, sannarlega finna. O Jesú! unn oss þá heill og þann sóma! Amen.

---

## Þridja
# Midvikudags Føstu-Predikun.

---

Vidjid, svo þér fallid ecki í freistni! andinn er reidubúinn, en holdid er veikt.

veikt. Þessi var ein af Jesú áminnkngum og adværunum til stuna lærisveina, við uppbyrjun hans pínu; þessi hans ályktun um breiskleika veikra mannskepna, en þó undir eins sinna vilja=góðu Postula; hans, sem þeckti alla og þurfti ei við að nockurr bæri af manninum vitni, þvíað hann vissi sjálfur hvað með manninum var, Jóh. 2.; hans, sem svo þráfaldlega hafði gefið sínum lærisveinum með kénníngum og kraptaverkum þá órækustu sannfæríngu um það, að hann væri sá sanni Kristur og fyrirheitni heimsins Endurlausnari, já, Sonur Guðs, og þeim til trúarstyrkíngar, til þeckingar á sinni persónu, optsinnis sagt fyrir, hvornínn Kristó byrjaði að líða, seljast í syndugra hendur, hæðast, húðstrýkjast, krossfestast, uppríſa aptur á þriðja degi og inngánga í sína dírð; sagt þeim hvorr sig forráða mundi, og loksins á síðasta qvöldi sinnar æfi, að á þeirri nóttu mundi hirðirinn sleginn verða, sauðir hjarðarinnar í sundur=tvístrast, þeir allir hneixlast á sér. Því reiðubúnari anda, sem Postulinn Pétur fann hjá sér til að fylgja sínum Meistara, jafnvel í fjötur og dauða, því sannfærðari hann í hjarta sínu var um persónu Jesú, því ólíklegri mátti fyrir hans skammsýni, er síst þeckti eginn holdlegann veikleika, virðast þessi spádómur Jesú, og því skal oss, kristnir menn! alls ecki furða, þó Pétur tæki ecki nærri þessari Jesú fyriboðun: Þér munið allir hneixlast á mér, heldur svaraði: þó all-

 ir

ir hneixlist á þér, skal eg þó aldrei hneixlast, og þegar Jesús, med enn ljósari rökum segir honum fyrir, ad hann ecki einúngis muni hneixlast á sér heldur afneita sér þrísvar, og þad ádur enn haninn tvisvar gala mundi, segir honum, sem gódur og elskuríkur Meistari þetta allt fyrir til advörunar og til sannfæríngar sídar meir, frekar Pétur sína losun og heitstrengíngu á ný, segjandi: já, þó eg ætti ad deyja med þér, skal eg ecki afneita þér. Alls ecki skal oss furda, segi eg, á þessari heitstrengíngu Péturs, sem svo opt ádur hafdi sjed Jesú dásemdar-verk, heyrt hans rædur, notid hans uppfrædíngar, og vitnad nógu skoruglega um persónu Jesú; sem sjed hafdi Jesúm gángandi á sjónum, sjálfur varpad sér út til hans og á vatnínu gengid, efad sig, leitad hans hjálpar og af honum verid úr háska frelsadur, þá sockva tók, fallid fram fyrir Jesúm og sagt: sannarlega ertú Guds Sonur! Matth. 14.; sem andsvarad hafdi Jesú, þá margir hans lærisveina yfirgáfu hann og Jesús adspurdi þá tólf: viljid þér og frágánga? Herra! til hvörs skulum vér fara? þú hefir ord eilífs lífs, og vér trúdum og skildum, ad þú ert Kristur, Sonur lifanda Guds, Jóh. 6., já, svarad þeirri spurníngu: hvörn segid þér mig ad vera? þanninn: þú ert Kristur Sonur lifanda Guds, og heyrt Jesúm ansa til þessa: sæll ertú Símon Jónasson, þvíad engin manneskja birti þér þetta, heldur

minn

minn himneski Fadir, og eg segi þér: þú ert Petrus, það er: steininn, og yfir þenna hellustein mun eg uppbyggja minn søfnud, og daudans veldi skal ecki fá hans yfirrád, Matth. 16. Pétur hafdi og strax eptir þetta heyrt Jesúm opt segja fyrir sína pínu, dauda og upprisu, sied hann á fjallinu auglýsast fyrir sér og Jakob og Jóhanni, sied hans ásjónu skína sem sólu, hans klædi björt sem ljós, Mósen og Elias birtast honum, sagt: hér er oss gott ad vera, og heyrt roddina úr skþinu segja: þessi er minn elskulegur Sonur, á hvørjum eg hefi velþocknun, heyrid þér honum; en ad þessi Jesú ástvinur Pétur, sannfærdur med þessu og ótal fleiru, um persónu Jesú, og sem auk þessa heyrt hafdi Jesú ord, Lúc. 9.: hvørr, sem fyrirverdur sig fyrir mig og mín ord, fyrir hann skal mannsins Sonur fyrirverda sig, þegar hann kémur í dírd sinni og Fødur síns og heilagra Engla, ad hann, segi eg, gat ei stadist ýgit tillit audvirdilegrar ambáttar, svo hann ei strax med eidum afsværi þenna sinn guddómlega Meistara, það má virdast sæta allri furdu og fullkomlega ad sanna Jesú ord: ad hvorsu reidubúinn, sem andinn væri, sé holdid þó veikt. En látum oss nockud framar yfirvega Péturs falls og vidreisnar dæmi, oss til uppvakningar og lærdóms, kristnir menn! látum oss heimfæra hans dæmi ogsvo til vor, og nú í tósemi igrunda:

*I.* Heimsins háskalega tillit, kristnum til falls.

*II.* Jesú hjálpsamlega tillit, kristnum til vidreisnar.

Drottinn! sem best sier og þeckir vorn veikleika, upplýs vor hjortu og gjør vorn anda reidubúinn til ad fylgja þér og þínum lífsins ordum! líttú mildilega til vors breiskleika! Amen.

---

Ecki var lángt umlidid, frá því Jesús sagdi sínum lærisveinum fyrir: þér munud allir hneixlast á mér, og Pétri sérílagi: ádur enn haninn galar tvisvar, muntú afneita mér þrisvar, þegar þessi Jesú ástvinur Pétur, sem med svo miklu sulltrausti á sinum eginn stødugleika, fortók ad hann hneixlast skyldi, þó allir hneixludust, med svo miklum ofurhuga baudst til ad fylgja Jesú strax, þángad, sem hann færi, baudst til ad setja sitt líf út fyrir hann, Jóh. 13., og einkum heitstrengdi, ad afneita aldrei sínum Meistara, þó hann jafnvel ætti ad deyja med honum; ecki var lángt frá øllu þessu lidid, segi eg, þegar Pétur tók ad votta og reyna sjálfur sannleika Jesú orda, ad hvørsu reidubúinn, sem Péturs andi og vilji vera kynni, sé þó holdid veikt. Jesús hafdi bodid honum ásamt Jakob og Jóhanni: blífid hér og vakid med mér! en varla hafdi Jesús uppsendt sin fyrstu bænar andvarp í

Grasgardinum til síns himneska Födurs, fyrr enn hann finnur þenna, í ordi svo hughrausta, lærisvein sofandi; nýlega var hann reidubúinn ad deyja med honum, nú megnar hann ei ad vaka med Jesú eina stund í hans miklu sálar-ángist, þegar hann harmþrúnginn titrar af hrædslu. Jesús hafdi áminnt hann og alla lærisveinana um ad bidja, svo þeir ei féllu í freistni, sagt Pétri ad vaka med sér, og varla hefir Jesús ordinu sleppt fyrr enn Pétur er sofnadur. Jesús bregdur nú Pétri um þenna breiskleika, þetta hirduleysi: Símon! segir hann, sefur þú? gatstú nú ecki haldid þér vakandi eina stund hjá mér? hann talar einkum til hans, er heitid hafdi mestri hugprýdi, stödugustu trúfesti, já, ad leggja sitt líf út fyrir Jesúm, en var nú steinsofnadur, hafdi nú strax gleymt sínum loforduin og Jesú skipun: vakid med mér; var nú ónýtur til varnar sínum Meistara, þó hann hefdi hennar þurft og þyggja viljad; var nú ordinn breisk og máttvana og lidlaus manneskja til egin, aukheldur Jesú varnar. Staddann í daudans bitra stridi yfirgéfur hann nú Jesúm einmana, hann megnar nú ecki svo mikid, sem ad vaka honum til skémtunar, honum til huggunar, en— hann sofnar. Jesús itrekar því aptur sína fyrri áminníngu: vakid og bidjid, svo þér fallid ecki í freistni! æ! munu ecki þessar Jesú áminníngar, svo sannfærandi áminníngar, hedan af géta haldid Pétri vakandi? mun ecki

nøgum og sneipa vegna þess hirduleysis og þeirrar ótrygdar hann þegar sýnt hafdi sínum Meistara og bodum hans, hédan af hafa gjørt Pétur því árvakrari, því áhyggjusamari um ad efna sín heit því betur framvegis? ónei! enn finnur Jesús hann, ásamt hinum, á samri stundu sofandi, svo fast sofandi ad hann ecki vissi, hvørju hann ansadi Jesú; og allteins strax eptir í þridja sinni, þá Jesús talar til þeirra: sofid þér nú þad eptir er og hvílist! hvad sofid þér! nóg er sofid, en standid upp og bidjid, svo þér ei fallid í freistni! nú er stundin komin, ad eg seljist í syndugra hendur! sjáid! þarna er minn svikari í nánd!

Svona megum vér optast lýsa eptir oss breiskum og máttvana mannsképnum! þarna sjáum vér vora egin náttúrlegu afmálun! vér treystum opt svo frekt uppá vort hyggju-vit, vora hugprydi, vort stødugglyndi, vora framsýni, vort abl og atorkusemi, ad oss sýnist fátt verda mega ómøgulegt fyrir oss, en flest verda ad lúta vorum mætti og vilja, og forlaganna tauma nær því ad vera gefna oss í hendur; vér byggjum einatt kastala í loptinu, snúum þaunkunum upp og nidur á heilum støndum og løndum, heitum vinum og verndar-sonum mikilli lucku og metordum og nád, eins og allt þetta sé oss undir fætur lagt; ógnum vorum óvildar-mønnum med hyldu tilliti, eins og ambáttjrnar Pétri, og svífumst ecki vid ad segja:

um sjálfa oss: vér mannesfkjur, erum Guðir í smáu; en gleymum Davíðs hugvekju, Psálm. 82., að þessir vesælu smá-guðir skulu þó deyja, sem menn, sem veikir og breiskir menn; menn, sem í fáu líkjast Pétri, nema í ofurhuga og fögrum loforðum, nema í svefnugum dofinleik og hirðuleysi og máttvana rænuleysi, þegar eitthvað reynir á; er það nú þegar gylda skal aðgætslu Jesú boðorðs, árvekni og skörugleika í kristinndómi og dygð, þegar vér egum að fylgja Jesú ígégnum sorg og hrellíngar og háskasemdir, þegar vér þannmn egum að vaka með Jesú. Æ! vér reynum þá allt of þrátt, hvörsu ablvana og ónógir vér erum sjálfum oss, nema vér aðnjótum guðlegs fulltíngis; vér reynum að öll vor hugprýði og rækt og fögru heit og fylgis loforð hverfa burt í vindinn, vorar hótanir vega minna enn eckért og sambeðið vorum náttúrlega vanmætti, sem ecki megnar að gjöra eitt svart hár hvítt á vorum egin, og ecki að skérða eitt hár, sem öll eru talin af vorum himneska Föður, nema með hans leyfi, á vorra óvina höfðum; ecki að fella einn smátitling til jarðar; í stuttu máli: miðt í öllum vorum ofurhuga og drambi og ákofu framqvæmd, erum vér einatt, áður enn orðinu sleppir, af oss komnir, máttvana, já, steinsofnaðir með Pétri, og látum oss treglega vekja á ný til dygðugra manndóms athafna.

En — Pétur lét sig þó loksins vekja, við Jesú itrekuðu áminníngar. Hann virðist að

hafa fundid sjálfur til þess, hvörsu illa hann hafdi efnt sín drjúgu heit, og þvi ásett ad bæta nú upp þenna brest. Hann kémur í háskann med Jesú í Grasgardinum, og umkríngist óvina her, og nú býdur hann sig exuggur fram til varnar og ryckir sverdi, uns Jesús bannar honum ad hafa í frammi nockra vorn: Jesús verdur bundinn og burtleiddur til Kaiphæ Kénnimanna-hofdíngja, Pétur fylgir Jesú álengdar ásamt odrum lærisveini, er Kénnimanna-hofdíngjanum var kunnugur, en, nú vogar hann ecki ad gánga inn med honum, hann stendur úti fyrir dyrunum; hann verdur leiddur inn, hann vill sjá Jesú afdrif, en hann setur sig utarlega í forstofu Hofdíngjans, og þetta atvik gjörir, ad ein af Kénnimanna-hofdíngjans ambáttum kémur og lítur til Péturs, starir á hann, gengur til hans og segir: svo! ert þú og einn af lærisveinum þess manns? þú varst og med Jesú af Nazareth! og strax er nú allri Péturs hugprýdi og rækt og ollu hans stodugl ýndi lokid á ný; oll hans heit og loford gleymd, oll skylda vid Meistarann Jesúm undir hofud logd. Nú man Pétur ei framar til síns lofords: þó allir hneixlist á þér, skal eg þó aldrei hneixlast; ei framar til hreysti-yrda sinna vid Jesúm: Herra! því má eg nú ei ad finni fylgja þér? eg vil setja mitt líf út fyrir þig, Jóh. 13., og ei framar til heitsins: já, þó eg ætti ad deyja med þér, skal eg þó aldrei afneita þér.

þér. Enn er Pétri enginn háski búinn, hann er á frium fæti og situr og vermir sig; enn ógnar honum, enginn; enn eru Jesú píslir fyrsta byrjadar; enn ósjed hvorr endir þar á yrdi, og þó afneitar Pétur strax sínum Meistara fyrir ollum. Audvirdileg ambátt litur ad eins til hans, starir ad eins á hann, spyr hann ad eins: ert þú einn af Jesú lærisveinum? varstú med Jesú af Nazareth? og strax er hetjan Pétur fallinn, strax flúinn undan merkjum Meistarans Jesú, strax eidrost ordinn, einúngis vid ohýrt tillit aumrar ambáttar, strax géfur hann henni svar: kona! ecki veit eg hvad þú segir; ecki er eg Jesú lærisveinn; ecki þecki eg Jesúm! hann gengur út í fordyrnar og heyrir hanann gala; hvort mundi ei þetta hana-gal mega fá Pétur vakid af sinni fásinnu, af andvaraleysinu? mundi þad ei fá hann minnt á sinn glæp og á Jesú ord? fá hann til ad hafa sig í burtu úr þessum hættusama hópi, svo hann ei optar afsværi sinn Meistara? ónei! enn þeckir Pétur ei sitt afbrot nóg; enn vonar hann ad þurfa ei adra edur nýja játníngu ad gjora um Jesúm; vonar ad þessu umtali sé lokid; vonar máské ad verda hugdjarfari, ef tilkjæmi, ad medkénna sannleikann; enn oftreystir hann sjálfum sér; enn þá hafdi haninn einúngis einusinni galad, og enn var Drottins Jesú sannfærandi tillit ecki skéd, til ad þreyngjast inní hans hjarta og sálu. Pétur géfur sig því í þræla-hópinn

inn aptur, en ambáttin opinberar hann á ný; hann vill forda sér frekari spurníngum og gengur út, en, þá lítur önnur ambátt á hann og segir: þessi var og med Jesú af Nazareth! nú er hann skömmu sídar spurdur: ertú Jesú lærisveinn? og hann forteknr og sver: madur! ei er eg, ecki þecki eg þann mann! enn þá lídur vart ein stund, enn er Pétur spurdur á vidlíkann hátt, og enn segir hann: madur! ei veit eg hvad þú segir! já, hann sver nú og formælir sjálfum sér, til ad gjöra sinn vitnisburd trúanlegann: ecki þecki eg þann Jesúm, um hvörn þér talid.

Svo veik og vanmegna og óstödug er mannsképnan alloptast, þegar einhver reynsla edur armæda og háski ber henni ad höndum, og hún hugsar ad standast af eginn ramleik! æ! hvörsu sannfærandi og grátlegt dæmi býdur ei þetta Péturs fall oss uppá vorn eginn breiskleika! hvörsu vekjandi fyrir oss, má ei þad hana-gal nú vera vid hvört Pétur þó í fyrstu daufheyrdist! oss furdar máské á, ad svo uppljóstur ástvinur Jesú var svo ör á loforðum um trygd og trú, en svo veiktrúadur og breiskur strax vid þá minnstu reynslu, strax vid freistandi tillit vesællar ambáttar, en munum vér réttilega fá Pétri álasad nema vér undir eins áfellum sjálfa oss fyrir, ecki einúngis jafnmikinn, heldur lángtum meiri óstödugleika, meiri breiskleika, og Gud gæfi eg þirfti ecki ad segja: lángtum straffsverdari synd, eg meina:

láng-

lángvarandi illvilja og mótþróa, sem hér var alls engann í Péturs hrósun að finna? ef að vér stíngum hendinni í vorn eginn barm og látum oss þó einhvorntíma leiða til að skoða siálfa oss, án hræsninnar skýlu, hösum vér alla orsök að sælast vora egin andlegu ómind, að hræðast vora synd, að láta oss vekja með Pétri við Drottins orð, láta oss hræra til apturhvarfs við Drottins náðar-tillit, að gánga út með Pétri og gráta synd vora beisklega. Hann komst í háska og reynslu, og seck ei staðist freistandi tillit umkomulausra ambátta, og vér, sem með Pétri hétum Jesú trúu fylgi og hollri þjónustu, vér, sem erum skírðir til hans nafns, og sórum að afneita honum aldrei, vér, fyrir hvörjum svo skírlega hefir verið prédikað um Jesúm Krist, eins og vér hefðum horft á, þegar hann dó á krossinum, Gal. 3., vér stondumst þó ei óblídt eður og ginnandi tillit af heiminum, af heimsins tælandi ambáttum, svo sem eru: vellyst, metorða-girnd, ösundsýki, ségirni, drambsemi, áður enn vér, ef ecki berlega með orðunum, þá þó með verkunum, augljóslega vottum: ecki þeckjum vér Jesúm. Þegar vér látum vora skynsemi verða þá sansanna ambátt, er þrælka má í þeirra fjötrum og að þeirra boði; þegar vér leggjum Jesú lærdóma oss undir höfuð, en viljum ei snerta við hans þarflega oki og léttu byrði, ecki afneita vorum egin lystingum, heldur leitum einúngis sansanna skammvinnu og synduga

lyst-

lystínga í svalli, óhófi, munadarkífi og skadvænum hégómlegum skémtunum, og setjum í þessu til allskyns ódáda tælanda framferdi allá vora farsæld, án þess ad ígrunda hennar sanná tómleika, án þess ad hugsa nockud útí hvorsú brádann og háskalegann enda hún hafa muni, án þess ad leita betri og varanlegri farsældar eptir Jesú bodi, og án þess ad láta oss snúa til apturhvarfs vid hans vekjandi tillit, er þá vor sanna játníng ei þessi: ecki þeckjum vér Jesúm? Þegar vér keppumst eptir virdíngum og metordum þessa heims, leggjum allt í sölurnar til ad ná þeim, svosem kostulegu og varanlegu farsældar-hnossi, jafnvel med því ad brjóta trygd og trú vid vini og vandamenn, med því ad spilla vorra medbrædra heillum og heidri, og verda eidrofar vid Jesú lærdóma, er vor játníng þá ecki hin sama: ecki þeckjum vér Jesúm? Þegar vér sjáum adra máské fullverduga brædur blómgast og virdast af dygd og atorkusemi, og þessi þeirra heill fær oss svo miklar hugsýki og ofundar ollad, ad vér leggjum oll vélrædi fram og saman til ad fá lagdar snorur fyrir þeirra fætur, svipt þá eignum og sóma, og hrundid þeim undir vora fóta-skör, sett oss sjálfa upp aptur í þeirra sess; ecki þeckjum vér, ecki fylgjum vér þá Jesú, sem af elsku til mannanna, lagdi nidur þá tign, sem hann í upphafi hafdi hjá sínum Fodur, tók á sig þræls mind, og vard madki en ecki manni líkur, þegar hann forsmádi alla heims-tign og virdíngar. Ef vér legg-

leggjum allt kapp á, alla sálar og líkama krapta saman, til ad ávinna góts og audæfi þessa heims med réttu og raungu, med dygda og rádvendnis missir, med saklausra lítilmagna og einfeldnínga útormun, med forsmán og verklegri afneitun Jesú bodorda, Jesú lærdóma: safnid ydur ecki fjársjódum á jørdu, hvar mølur og rid kann ad granda, og þjófar fá eptirgrafist, heldur safnid ydur fjársjódum á himni, Matth. 6; ellegar þá vér, nægt og audæfum sæmdir, apturlokum þó vorum hjørtum fyrir þurfandi brædrum, vottum vér þá ei, ad vér leggjum meira kapp á, ad afla jardneskra og forgengilegra fjársjóda, heldur enn þeirrar arfleifdar á himnum, sem ecki má saurgast, ecki skémmast og ecki rotna? heimfærum vér þá ei uppá oss Jesú þúnga dóm: vei ydur audugum, þér hafid ydar huggun úttekid? bitnum vér þá ecki í verkinu, strax vid þad fyrsta háskalega tillit þessara heimsins ginnínga, þessara heimsins ambátta: ecki þeckjum vér Jesúm? þegar vér, til ad þócknast voldugra drambsemi og ávinna oss þeirra hylli og vild, þurfum ei nema litid tillit þeirra, til ad selja fyrir alla vora rádvendni, vort sannsøgli, vora trygd, vort meinleysi, forsvar ens undirokada, vora hollustu vid løg og Løg-gjafara, land og lyd, vora gudhrædslu, vottum vér þá ei, ad vér heldur sækjumst eptir vegsemd hjá mønnum enn vegsemd hjá Gudi, Jóh. 12., og ad ecki þeckjum vér Jesúm? og loksins, þeg-

ar vér álítum þad nóg til Jesú þeckíngar, ad segjast þeckja og trúa á Herrann Jesúm, halda uppi helgihalds-sidum, koma til Jesú bords, og fleipra eitthvad gudrækilegt fram, sem vér ecki skiljum né hugsum par úti, vitum litla grein ad gjöra á trú og kristinndómi, enn sídur vottum í verkunum ávexti Jesú lærdóms, ljáum honum eyrun med leidindum, forsmáum alla uppfrædíngu, alla handleidslu á vísdóms- og dygda-veg, en leikum á als-oddi vid fyrsta háskalegt tillit veraldarinnar gárúnga, sem ginna oss í sinn andvaralausa hóp, til ad þjóna synd og gjálífi, læra heimsku og hjátrú, háð og forakt gégn dygdinni og Jesú lærdómum, temja oss skammarlegt tal, róg og illar munnrædur, og ætlum oss þanninn undirbúnir strax vid andlátid ad inngánga í Jesú dírd, en fyrst vid andarslitrin ad afneita heiminum og segja: Drottinn! minnstú mín! æ! hvorsu grátleg en undir eins almenn má þá ei sú játníng, eptir verkunum, verda: ecki þeckjum vér Jesúm! já, svo er, þvi midur! máttugt heimsins háskalega og tælandi tillit til afneitunar vors Jesú í vorum hjörtum, kristnir menn! ad flestir verdum vér fljótari til ad hlaupa heimsins lystínga veg og dragast í synda-þrælanna soll, enn ad minnast Jesú orda, sem Pétur vid þad sídara hana-gal, enn ad gánga med honum út frá veraldarinnar fláradu þjum og gráta synd vora beisklega; en — skodum þó þetta hans apturhvarfs dæmi, og leitumst sídan

sti vid ad fylgja Því framar oss til farsældar!

Vèr höfum heyrt hvörsu Pètur þrisvar afneitadi Jesú. Vid hans sídustu afneitun gól haninn í annad sinn, Drottinn snèri sèr vid og leit til Pèturs, en Pètur minntist ordanna Jesú: ádur enn haninn galar tvisvar, muntú afneita mèr þrisvar, gèck út og grèt beisklega. Vèr höfum og heyrt, hvörsu mikill ad er mannlegur breiskleiki, hvörsu ónógir vèr erum sjálfum oss, hvörsu háskalegt heimsins ginnandi tillit er fyrir vora dygd og vorn kristinndóm, nú skulum vèr og af Pèturs dæmi læra, hvörsu hjálpsamlegt Jesú nádarríka tillit verda má til vidrèttingar sínum follnu játendum. Jesús stendur bundinn frammi fyrir Kennimanna-höfdingjum, verdur kinnhesti lostinn; heyrir Presta, Oldúnga og allt Rádid leita ljúgvotta gègn sèr, til ad koma sèr í hel; heyrir þessara ljúgvotta framburd, en skeytir eckèrt þeirra lastmælum, eckèrt þeirra illri breytni vid sig; hann verdur spurdur af ennm ædsta Presti: hvört hann sè Kristur, Sonur Guds? svarar djarft og sköruglega uppá þá spurníngu, og heyrir strax allra fordæmíngu yfir sèr hvella vid: hann er daudans sekur! í sama vetfángi afneitar Pètur honum í þridja sinni, haninn galar, og Jesús snýr sèr vid og lítur til Pèturs. O! hvílík elska og trúfost umhyggja fyrir ens fallna Pèturs vidreisn! fyrir eblíngu þess safnadar,

 er

er Jesús byggja vildi yfir þenna hellu-stein! hvílíkt hjálpandi, sannfærandi, vidreisandi til-lit! Jesús, staddur í mesta dáudans háska, staddur undir höggum og böndum og fordæm-íngu af sínum qvölurum, lætur sér þó framar annt um sinn elskada hrasada Pétur; heldur enn sitt egid frelsi, hann gleymir sínu egin qvalafulla og háskalega ástandi, til ad rétta hann fallinn vid. Hann snýr sér vid og lítur til Pét-urs. Ad tala til hans fann hann nú háska-legt, fann ad þetta vildi opinbera Pétur, sem sinn forna lærisvein, opinbera hann, sem mein-særis-mann, máské olla honum fjotra og of-sókna sinna vegna; hann lætur sér því nægja ad-líta einúngis til hans, en þetta tillit þreyng-ir sér djúpt inní Péturs hjarta, og verdur þar svo veltalandi, svo sannfærandi, sem nockur ord vera kunnu, allteins og þó Jesús hefdi berlega til hans talad: Pétur! nú gól haninn í annad sinn, og nú hefir þú þrísvar afneitad mér, eins og eg spádi fyrir. O! Pétur! hvar er nú öll þín hugprýdi? þín fogru og freku loford, heldur ad deyja med mér, enn ad af-neita mér? þín elska og trúfesti vid mig, þinn Meistara, þinn Frelsara, sem nú stend hér sak-laus bundinn fyrir þínar og þinna brædra syndasakir, sem nú þoli högg og ljúgvitni og dauda-dóm fyrir þig, enn er þó enn þinn ást-ríki vinur og Frelsari? midt í því þú nú af-sver mig, læt mér þó meira annt um þína vidreisn enn mitt egid frelsi, lít þó enn til þín, sný

snú mér enn til þín, sýni þér enn að þú átt að láta þetta seinna hana-gal sannfæra þig um þíns Meistara hátign, minna þig á hans orð, á þinn breiskleika, á þína háskalegu synd, þrísvar að afsverja þinn Drottinn? æ! Pétur! láttú þessa minningu og sannfæringu leiða þig til apturhvarfs, til ángurs fyrir þína synd, til mín aptur, sem enn þá lít ei til þín reiðuglegs dómara, heldur trúföstum vinar-augum; láttú þetta mitt tillit minna þig á: að fyrst eg á mínum qvala-degi hefi gleymt mínum þjáníngum en ekki þér, er skyldt að þú héðanaf aldrei gleymir mér, heldur öllum þeim hörmúngum, er þér fyrir mig og mína viðurkénníngu mæta kunna, fyrr enn þú optar afneitir mér. Lát þína synd, þetta hana-gal, þetta mitt ástrika tillit jafnan minna þig á þinn veikleika, á þínar skyldur við mig, á mína alvitsku og náðarríku umhyggju fyri þér; grundvalli þetta þína trú; tendri þetta þína elsku til mín; orfi þetta þinn huga til að játa mig héðanaf óskélfdur fyrir Guði og mönnum!

Og þessa farsælu verkun hafði Jesú hjálpsamlega tillit til Péturs. Hann minntist orðanna Jesú, hann lét sig sannfæra við hans tillit og hið síðara hana-gal; hann þeckti sinn breiskleika; ángraðist af sinni miklu synd; hann géck strax út og grét beisklega. O! þessi happasælu umskipti! huglaus, breiskur, óstöðugur géck Pétur inn í þræla-hópinn og lét sig af ambáttanna háskalega tilliti leiða til að af-

neita sínum Jesú. Vakinn af andvaraleysins við strekað hana-gal, sannfærður við Jesú blíða og hjálpsamlega tillit, um þá ógjæfu hann hefir sér bakað, þá óhæfu hann hefir drýgt, ángrast hann af hjarta, hverfur aptur til síns afneitaða Jesú, gengur út úr Jesú fjandmanna solli, og grætur beisklega; gengur út og játar hugprúður, stöðuglyndur, ástríkur, styrkur sinn Jesúm; gengur út og prédikar: gleðjið yður! ef þér með Kristó líðið, svo þér á opinberingar-tíma hans dýrðar, mættuð gleðjast og fagna; sælir eruð þér! þegar þér vanvirðtir verðið fyrir nafnið Kristo, 1 Pét. 4., gengur út og innsiglar Jesú viðurkenníngu með qvalafullum dauða þar eptir.

Tökum oss nú lærdóma af þessu Péturs falls og viðreisnar dæmi, kristnir menn! þann lærdóm, að þeckja sjálfa oss, vorn vanmátt og vorn breiskleika; þann lærdóm að treysta aldrei uppá sjálfa oss, eða vorn ímindaða hug og dug og stöðugleika, sem vér af Péturs og af egin sifeldum dæmum þeckja megum hvörsu skammt nær; þann lærdóm, að láta oss, eins og Pétur við síðara hana-galið og við Jesú hjálpsamlega tillit, vekja til að minnast Jesú orða, þeckja vor illverk, snúa frá þeim aptur með sannarlegu ángri og yfirbót og til meistarans Jesú; til að gánga út, sem Pétur, og gráta synd vora beisklega; gánga út frá heimsins illu athæfi, synd og ó-gudlegleika, gánga út frá heimsins gjálífa og

andvaralausa solli, sem audveldlega kann med einu tilliti ad tæla edur hræda oss, sem Pétur, til ad afneita vorum Jesú. Æ! vèr hofum enga afsokun framar enn hann; vèr höfum allteins mátt læra ad þeckja Meistarann Jesúm; eins svarid honum hollustu og hann, en lángtum optar rofid vor heit og afneitad honum; ecki einúngis þrisvar, heldur óteljandi sinnum, ef ecki med berum ordum, þá þó med hræsni, med ótrygd vid hans ord, med andvaralausu og glæpafullu liferni; ecki einúngis af breiskleika, sem Pétur, heldur af lángvarandi mótþróa. Hann skipadist vid þad sidara hana-gal og Jesú hjálpsamlega tillit. O! hvorsu opt hefir ei mörg ein vekjandi raust hljómad fyrir vorum eyrum allt frá barnæsku, segjandi: vakna upp þú, sem sefur og rís upp af syndunum, svo mun Kristur upplýsa þig! sjáid ad ydur og trúid Evangelió! øxin er þegar sett til rótar trjánna, hvört þad trè, sem ei ber gódann ávøxt, skal upphøggvast og í eld kastast, en vèr hofum þó vid henni daufheyrst? í voru egin brjósti hefir þráfaldlega qvedid undir samhljóda raust, hærra enn nockurt hana-gal, og því óttalegri, sem hún optar er nidurkjæfd, en vakir eda mun þó vakna einhvorntíma til ad áklaga oss; samvitskunnar sihljómandi og nagandi raust, sem ásaka mun og dæma sèrhvorn af þeim, sem illa breytir; dæma alla menn, kristna, gydinga, mahómedana, heidíngja og öll trúarbrögd.

Opt hefir Jesús í náð sinni litið til vor, sem Péturs, opt hrópað til vor: takið á yður, mitt ok og fylgið mér; snúið yður; trúið mínum orðum, varðveitið þau; elskið hvørt annann; komið til mín, þér erfiðandi og þúnga hlaðnir! opt viljað samansafna oss, en vér høfum ecki viljað, heldur sókt heimsins háskalega soll, og látið hann leiða oss til að afneita Jesú með voru andvaralausa lífserni. Snúum oss því, með Pétri, kristnir menn! enn í dag lítur Jesús til vor og hrópar: snúðú aptur til mín, syndari! og muntú lifa! æ! snú þú oss, Drottinn! svo að vér útgánga megum frá synd og íllu athæfi; lít til vor, svo að vér minnunst þinna orða, og aldrei framar afneitum þér! æ! þú þeckir vort dupt, vorn vanmátt og vorn breiskleika, verttú því í vorum breiskleika máttugur! Amen.

# Fjórða
# Miðvikudags Föstu-Predikun.

Sjáið manninn! í þessum meðaumkunar orðum brautst jafnvel sjálfs heiðins Pílati vorkunsemi fram, þegar hann leiddi Jesúm út úr þinghúsinu til Gyðinga, vitnaði hátt fyrir þeim: að hann enga sök finndi með Jesú, og leitaðist við að hræra þeirra grimmu hjörtu til

til medaumkunar med hans hryggilegû mind; þegar hann vonadi ad fá Jesúm lausann látid, med þvi nú ad leida hann húdstrÿktann, áminndadann af hrákum og púströum og reyr-hoggum sinna qvalara, blódrisa undir smán-andi og stingandi þyrni-kórónu, hæddann med purpura-kápunni fram fyri þá á skodunar-plátsid og hrópa nú til Gydínga: sjáid mann-inn! hann vonadi, segi eg, ad Gydíngar, med þessari aumkunarverdu sjón, þessari fremdu hædni vid Jesú Kóngdóm, sem nú var smán-adur med búníngi í purpura-kápu, med níst-andi þyrni-kórónu, med reyrstaf í hendi í veldis-sprota stad, þeim reyrstaf, er þess á milli vard bödlanna keyri á Jesú blessada höf-ud, hræraſt kynnu til ad álíta Jesúm nógu refsadann, fyrir þann sannleika, sem þeir þó mortu óhæfu, ad hann vitnadi sig ad vera Gydínga Kónginn Kristum; þvi hrópadi hann: sjáid manninn! sem vildi Pilatus sagt hafa: sjáid Jesúm, til smánar ísærdann þessari Kóngs-skyckju, þessari qveljandi og háduglegu kórónu; sjáid hans spottlegu veldis-sprotu, reyrinn, sem ridid hefir svo þétt ad hans hofdi, allt þetta einúngis fyrir þad, sem þid ákærid, ad hann segir sig ydar Konúng; sjáid hann píndann, húdstrÿktann og ílla útleikinn, en þó ad mín-um dómi med ollu saklausann, og látid ydur nú þetta nægja; sjáid manninn! þenna sár-qvalda, en þó saklausa mann, þessa hrærandi sjón og látid Jesúm lausann.

Svo þúngbær vard Jesú sannleikans medkenníng um sinn Kóngdóm, þegar hann kom til sinna eginn og hans eginn medtóku hann ei; svo fast var Gydíngum í huga, ad Kristsríki vera skyldi veraldleg vidrétting Israelsríkis, ad eckért skildu þeir um annann Kóngdóm; eckért skeyttu þeir Jesú eginn vitnisburdi: mitt ríki er ecki af þessum heimi, og samt er eg Kóngur; svo armædu- og qvala-fullt vard vorum saklausa Jesú ad vera til þess fæddur og kominn í heiminn, ad hann bæri sannleikanum vitni, kénndi oss þann rétta Guds veg, bætti fyrir brotlegt mankyn, stiptadi sitt nádar-ríki, sína kristni medal mannanna og auglýsti sig ad vera hennar Konúng, ad eilífu! svo þúngbært, segi eg, ad afreka oss þad eilífa lífid, sem er: ad þeckja Födurinn vera þann eina sanna Gud og þann, sem hann útsendi, Jesúm Kristum! Jóh. 17.

Sjálfur vissi Jesús fyrir, eins og allt annad, hvørja óvild, ofsókn, hatur, qvalir og hvílíkann dauda sannleikans medkénníng og vitnisburdur: ad hann væri Guds Sonur og Kristur Konúngur Gydínga, mundi baka sér, en undir eins hvørsu lítinn trúnad Gydíngar, sem nú framseldu og áklögudu hann, setja mundu á þann vitnisburd; ádur hafdi hann sagt: ef þér haldid vid mína rædu, þá erud þér mínir sannir lærisveinar, þá þeckid þér sannleikann, þá mun sannleikurinn

inn frelsa ydur, en þeir vildu ei þýdast þetta sannleiksins frelsi, qvádust engir þrælar vera; sem á frelsi þirstu ad halda, eptir þeirri meiníngu, er þeir gjordu sér um frelsi; hann hafdi vottad: ádur enn Abraham var; em eg, og þeir vildu grýta hann fyrir þenna sannleiks vitnisburd, Jóh. 8. Hann vissi, ad eptir þad hann gaf þeim sjónina, er blindur var borinn, hofdu Gydíngar hótad, ad reka þann út af samkundum þeirra, er medkénndi Jésúm ad vera Krist, Jóh. 9.; já, Gydíngar ádur spurt Jesúm í musterinu: hvort hann væri Kristur? en hann svaradi: ad verkin, sem hann gjørdi í Fødursins nafni, bæru vitni af sér; ad hann og Fadirinn væru eitt; ad þeir væru eigi sínir saudir, því sínir saudir heyrdu sína rødd, þeir fylgdu sér eptir, þeim gæfi hann eilift líf; og strax vildu Gydíngar grípa og grýta hann fyrir þessi sannleiks ord, Jóh. 10.; en nú, þegar kominn var Jesú qvaladagur, og líf hans skyldi fyrir heiminn útleggjast, nú, þegar opinber og augljós játníng sannleiksins ecki gat framar upphlaups edur óeyrdar ollad, nú vitnar Jesús enn þá skoruglegar fyrir hinum ædsta Presti: eg er Sonur Guds, og fyrir Pilató: mitt ríki er ei af þessum heimi, og samt er eg Kóngur, til þess fæddur og í heiminn kominn, ad eg beri vitni sannleikanum, og hvørr hann er af sannleikanum heyrir mína rødd.

Látum þessi Jesú ord minna oss, kristnir menn! sem allir látumst sannleikann elska, allir heyra vilja þess Jesú rodd, sem er vegurinn, sannleikurinn og lífid, látum, segi eg, þessi Jesú ord, á hans pínu-degi vid Pílatum, minna oss í dag á þá kristinna tvöföldu skyldu:

*I.* Ad bera sannleikanum vitni, og

*II.* Ad heyra sannleiksins rodd.

Heilagi Fadir! helga þú oss í þínum sannleika; þín ord eru sannleikur! Amen.

---

Mitt ríki er ecki af þessum heimi, og þó er eg Kóngur; svo hljódadi Jesú sannleiks vitnisburdur fyrir Pilató. Ad sönnu var hans ríki og á jördunni og í þessum heimi, en þó ecki af þessum heimi, eckert veraldlegt ríki, ecki líkt neinu Kóngs-ríki í heiminum, ecki ad heims-ríkja háttum; engin metord og veraldleg tign juku heidur og mátt þessa Jesú ríkis; þess þegnar eru allir brædur, allir eitt í Jesú Kristó. Veraldlegir Kóngar auka veldi og ríki sin einatt med grúa herlids og skipa, med blódugum stridum, med mannslagi og bruna, sem ofundsýki, dramb og ágirnd allopt qveikir og tendrar, og med inntöku og þrældómi landa og lýda, en Jesú ríki er ecki af þessum heimi, því vóru medölin ólík, sem grundvölludu og útbreiddu þetta

ríki um allar álfur heims, allt til endimarka veraldarinnar, sem Jesú vóru gefin til arfleifdar, því hans ríki jók og útbreiddi sannleikíins bodan og vitnisburdur í bródurlegri ástsemd og kjærleika; sannleikíins vitni og stríðsmenn í þessu Jesú ríki, vóru fáir og audvirdilegir Postular, og vopn þeirra herfarar ecki líkamleg, heldur stríddu þeir einúngis med Jesú lærdómi, med sannleikíins vitnisburdi, med ordinu, sem er hvörju tvíeggjudu sverdi hvassara, og inntóku þanninn svo víd og stór lønd og ríki, ad eckért veraldar ríki fær jafnast vid þetta Jesú ríki, hvar fridur og sannarleg farsæld jafnan ríkir, þegar veraldleg ríki vaxa og aukast optastnær med ófridi og allskonar hørmúngum, sem ætíd eru í hans før og fylgd. Veraldlegra ríkja veldi og tign, lætur sig einkum í ljósi í hégómlegri útvortis prakt og stærilæti, en Jesú ríki er ecki af þessum heimi, ecki bundid vid útvortis hégóma, heldur er þad innra hjá øllum Jesú þegnum; sæl-lífi og vel-lystingaar eru tálbitar veraldar ríkja, og margra ríkja skinsæld vid þann munadinn bundin, en Jesú ríki er ecki af þessum heimi, þessvegna ecki matur né dryckur, heldur réttlæti, fridur og føgnudur í heiløgum anda; í veraldar ríkjum drottnar opt ríkjandi dramb, øvild, sílfbúd, grimd, flærd, en Jesú ríki, sem ecki er af þessum heimi, er hid einasta og sanna nádar-ríki; þar í er heilsusamleg Guds nád hvørjum og einum birt og fram-

frambodin, med því eina audveldа skilyrdi: sjáid ad ydur! og trúid Evangelió; takid á ydur Jesú ok, og lærid af honum, sem er hógvær og af hjarta lítilátur; hans ok er þægilegt, hans byrdi létt, Matth. 11. Mörg veraldar ríki, eru ásamt lyginnar ríki, hvar hún til þeirra eydileggingar og tjóns hefir valid sér bústadi, og útbreidt sitt veldi, med miklum her lasta, sem undir hana þjóna, svo sem ad eru: rógur, lastmæli, bakbit, ósundurlyndi, fals, svik, ótrygd, og hvørr sæt nafngreint allt af því illþýdi, sem er hennar foruneyti? en Jesú ríki, sem ecki er af þessum heimi, er sannleiksins ríki, sem frelsa mun alla þá, sem gjørast hans verdugir þegnar og játendur, sem trúlega bera sannleikanum vitni, og sem fúsir heyra sannleiksins rodd, Jóh. 8. Æ! þetta nádar- þetta sannleiksins ríki vard Jesú svo erfidt ad stipta til mannanna frelsis hér á jordunni, ad hann, einúngis fyrir þad hann bar sannleikanum vitni, mátti þola lángvarandi hatur, álygar, vanþock, ofsóknir, hráka, smán og spott, bond, pústra og högg af hnefum og reyr, húdstroku, þyrni-krýníngu, krossfestíngu, já, svo aumkunarlega verda útleikinn, ad heidinn Pilatus fullur vorkunsemdar, vísadi til hans afskræmdu myndar, svo sem einhvørrar mest hrærandi rœksemdar. Hann var til þess fæddur og í heiminn kominn, ad hann bæri sannleikanum vitni, vitnadi berlega af sínum Gudi og Fodyr, opinberadi monnunum

um hans vilja og ráð, kénndi þeim veginn til sáluhjálparinnar, kénndi þeim að elska Guð, elska náúngann, elska dygðina, elska sannleikann, hvorn hann heidradi med sínu flekklausa lífi, útbreiddi með sínum lærdómi, hvorjum hann alla æfi bar óhvikult vitni í lífi og lídum eins midt í offsóknunum, smáninni, háskanum, og hvorn hann loksins, til mannanna frelsis, innsigladi med saklausum og fríviljugum dauda.

Svo mikid kostadi þann saklausa Jesúm að stadfesta sannleiksins ríki medal mannanna, að bera sannleikanum vitni, að hann til þessa vard að koma í heiminn, að fædast, að pínast, að deyja, já, að deyja á krossi, deyja þessum smánarlega, og qvalafulla dauð-daga, til þess að leida villuráfandi manneskjur aptur á sannleiksins götu; manneskjur, sem ecki framar þecktu sannleikann, heldur, að Jesú eigin vitni, Jóh. 8., gengu eptir girndum og á vegum síns fodurs, þess fodurs fjanda, sem ecki stód í sannleikanum, og í hvorjum enginn sannleikur er. Mun þá ei skyldt, að kristnir menn leggi alla alúð og kostgæfni fram, eda offri nockru af veraldlegum hagsældum til að breyta eptir Jesú, og bera sannleikanum vitni? mun ei skyldt, að hvorr og einn, sem heita og fundinn vill vera Jesú trúr þegn í hans náðar- og sannleiks ríki hér á jordunni, þegar hann á sídan kémur á skýjum himins, til að endurgjalda sérhvorjum eptir sínum verkum, að

hvorr

hvorr og einn, segi eg, sem þá ecki girnist ad medtaka þúng refsíngar-laun og hlutdeild med hræsnurum, haldi sér stoduglega vid sannleiksins veg, þó ad mørg hans stig verda mættu þyrni-gróin og ervid umferdar, sem flest fyrir Jesú? þó ad hatur, spott og áreitir vondra manna, vilji eins tálma oss og Jesú, á þessum eina farsældarinnar vegi? þó ad álygar og smánanir gégn vorri stodugu dygd og sannleiks elsku herthjadi sig oss á móti? þó vold og metord ógnudu oss? þó flárádur heimur med øllum sínum ginnandi munadi freistadi vor til ad víkja út af sannleiksins vegi, hætta ad bera sannleikanum vitni? Já, svo mottu sannleikann mikils, mørg þúsund píslar-vottar, sem ecki létu grimmustu píntingar, ecki húngur eda sverd, ecki krossfestingar, ecki steikingar á glóandi járn-ristum og loganda báli, eckert píslarfæri hræda sig né hrekja af þeim sannleiks vegi, hvorn þeir í Jesú lærdómum hofdu lært ad þeckja, hvo jum þeir þecktu sig skyldga til ad bera vitni, eins og þeirra Meistari Jesús; menn, sem líkt og Móses, litu á launin, og kjøru heldur med Guds fólki illt ad þola, enn ad hafa stundlegt eptirlæti syndarinnar, med því ad falla frá sannleikanum, og héldu vanvirdu Krists vegna meiri ríkdóm, enn jafnvel alla fjárhlutu heimsins, Ebr. 11.; menn, sem álitu þad mikla vegsemd og nád, ad mega lída nockud med Kristó, fyrir hans og sannleikans vidurkénningar sakir, svo ad þeir

Þeir mættu með honum dýrdlegir verda; sem hlupu stöduglega til enda sitt afmælda skeið, og mistu ei sjónar á trúarinnar stiptara og fullkomnara Jesú, sem í stadinn fyrir ad njóta honum tilbúinnar gledi gékk óskélfdur undir forsmánina og Þoldi krossfestíngu. Þeir minntust á hann, sem Þvílík mótmæli Þoldi gégn sér af syndurnnum, Ebr. 12., og Þreyttust Því ecki ad bera sannleikanum vitni, jafnvel med lossaungum midt í qvölunum, og innsigludu sannleikann med sínum dauda. O! vér höfum, Gudi séu eilífar Þackir! nú ecki framar Þvílíka reynslu vorrar sannleiks-elsku, Þvílík harmqvæli fyrir sannleiksins vitnisburd ad óttast, sem Þeir. Vér höfum einúngis ad óttast spott og spé heimsins gárúnga, sem sannleikann hata, máské róg og baktal, máské hatur, máské Þmigust af andvaralausum, máské óhýrt tillit einhvörra lastafullra, einhvörra heimsins ánaudugu Þýja, eins og Pétur ambáttanna; og vér skyldum fyrir Þad strax yfirgéfa sannleiksins veg! strax hætta ad bera sannleikanum vitni! strax rádast undan Jesú nádar- og sannleiks-ríki, en leggja oss undir lyginnar yfirrád! strax Þreytast undir Jesú létta og Þægilega oki, en votta oss kappsama, otula, óÞreytanlega undir heimsins Þúnga ánaudar-oki, er fljótt kann Þó ad draga oss nidur í Þad lastanna afgrunn, hvadan vér torveldlega egum undum apturqvæmt! til hvörs erum vér Þá fæddir og komnir í heiminn? æ! ecki sem Jesú

ús til ad bera sannleikanum vittni; ecki í verk-
inu og gudrækilegu lífemi ad votta, ad vér
séum trúir þegnar í hans sannleiks ríki, og
ecki ad vér heyrum Jesú sannleiks rodd; en
vort ríki er þá af þessum heimi, og vor af-
drif verda þá ad fyrirfarast med heiminum.
Þegar vér lokum vorum augum vid því Guds
orda ljósi, sem upprennur oss, sitjandi í myrk-
um dal og daudans skugga, til ad leida oss
á sannleiksins veg, kénna oss ad þeckja og elska
sannleikann; þegar vér byrgjum vor eyru fyr-
ir sérhvérri sannleikans raustu, sem hrópar til
vor mikilvægustu lærdóma, fyrir vora tíman-
legu og eilífu farsæld; sem lætur Guds egin
dásamlegu gjöf, skynsemina, Guds egin skop-
udu og sýnilegu dásemdar verk á himni og
jördu, sannfæra oss um sannleiksins heill og
vegsemd, og um hátign þess sannleiksins Guds,
hvörs ríkis þegna vér játum oss; sem óaf-
látanlega hrópar: snúid aptur frá óhginni, er
drottnar í ydar heimsku og hjátrú, ydar þánka-
leysi, ydar óráđvendni, en lærid ad þeckja
sannleikann, ad bera sannleikanum vitni, ad
hlýda sannleiksins raustu, sem gjora skal ydur
verdugar manneskjur, skynsamar manneskjur,
verduga þegna í Jesú sannleiks ríki, farsæla
þegna bædi í tíma og eilífd; þegar vér byrg-
jum, segi eg, augu og eyru fyrir öllu þessu,
til hvörs erum vér þá fæddir og komnir í
heiminn? ecki sem Jesús til ad bera vitni sann-
leikanum, heldur til ad fót-troda hann, til ad
an-

ina þänkalaust fram med skynlausu dhrunum eptir munni og maga, til ad lifa og deyja í heimskunni, lhginni, syndinni, og uppskera á sídan þeirra óttalegu laun. Þegar vèr fyllum þann óráðvandra flock, sem situr á svikrádum vid sannleiksins tráfostu játendur, sem eys rógi og álasi yfir gott mannord og æru saklausra brædra, spýr lyga og ofundar eitri yfir allra þeirra bestu athafnir, gèfur sannleikann salann vid gjaldi og fogrum loforðum, til ad kollvarpa frómlyndum sannleiksins elskurum, eins og Júdas sinn Meistara Jesúm, til hvors erum vèr þá fæddir og komnir í heiminn? ecki til ad bera sannleikanum vitni, sem Jesús; ecki til ad forsvara vora brædur í heiminum, eins og hann, sem assakadi jafnvel sína bødla og bad: Fadir! fyrirgèf þeim, þeir vita ei hvad þeir gjøra; ecki til ad elska brædurnar, eins og hann, sem lagdi sitt líf út fyrir þá, heldur til ad áfella, ad hata, ad deyda vora brædur, því Jóhannes segir: hvørr sinn bródur hatar, hann er manndrápari; já, vèr fædumst þá til ad bera lyginni vitni, ad sama Jóhannis dómi: ef einhvørr segir: eg elska Gud, og hatar sinn bródur, sá er lygari, 1 Jóh. 5.; Herra Gud! mun nockud þurfa Jóhannis vitnisburdar vid, til ad sannfærast um, ad manneskjur þanninn bera einatt lyginni vitni, í stadinn fyrir ad vitna med sannleikanum? eru ei dæmin dagleg og óteljandi, ad fáir verda til ad assaka náúngann, þegar óhlutvandir uppljósta máske lognustu sakargiftum

E hon-

honum á móti? eru þá ei flestra túngur eins og sjötradar, þegar hinn saklausa forsvara bæri mót óhródri æru-þjófsins, ellegar tala máli hins undirokada, gégn' yfirgángi lögræníngjans? þegar halda ber dygd og mannkostum í heidri, þegar sannleikanum skal vitni bera og unna brædra meinleysi sannmælis, mót áausturi af eitrudum túngum? o! ad þetta kjærleiksláusa túngunnar hapt losnadi þó ei svo opt til ens verra, til ad vanvirda Gud og sannleikann, til ad skada og meida náúngann, til ad úthella illyrdum, smánunum, bölvi og óbænum ödrum til hnjóds, til ad bera lygimni vitni, en ecki sannleikanum! þá lærdum vér betur ad þeckja sannleiksins ágæti, betur ad meta hans sönnu tign og heill, betur ad elska og vardveita sannleikann; þá nædi Jesú sannleiks ríki betur ad grundvallast í þessum heimi, í þessu voru landi, hvar sannleikurinn virdist allvída ordinn í lágum metum og senn landflótta, og þá mundi sannleikurinn fá oss frelsad, Jóh. 8. Æ! skulum vér ödlast þessa heill, kristnir menn! þá er vor skylda, ecki einúngis ad bera sannleikanum vitni, heldur og ad heyra sannleiksins röddu; það er og á þessa svo áríðandi skyldu, sem eg nú vildi minna ydur med einu ordi.

Hvörr hann er af sannleikanum, heyrir mína rödd, sagdi Jesús. Ad Jesú rödd sé sannleiksins rödd, þarf eg ei med ödrum rökum ad sanna, enn þessum Jesú ordum, sem gefa til kynna, ad sá sem sannleikann elskl og játi hann

hann heyri og Jesú rödd; hans rödd er þvî sannleikanum samqvæm, fyrst sannleikssins elskendur hlýda henni; hans rödd er þvî sannleikssins rödd; hans elskendur eru þvî sannleikssins elskendur, þar Jesús er vegurinn, sannleikurinn og lífid, Jóh. 14., já, þeir eru þegnar î Jesú nádar- og sannleiks-rîki, sem ecki er af þessum heimi. O! þá vegsemd og heill ad vera þegn î Jesú sannleiks rîki og þar hlýda hans röddu. Veraldlegir Kóngar rîkja og heita á stundum sînum þegnum heill og vegsemd; en sú vegsemd er optast innisalin î tómum og hégómlegum titlum, î sánhtú glisi, vrjáli, skarti, sem stærilát mold um litinn tîma skýlir med vesældóm sînum, en daudinn sópar ad bragdi þessum hégóma burt, og gjörir ad lîkami ens tignada vildar-manns, ordinn ad madka-veitu, hefir eckert ásjálegt, já, þeckist ecki frá betlarans, er útaf dó î volædi fyrir hins dyrum; sú heill, sem jardarinnar Drottnar veita mega, er, þegar hún ecki lendir vid fögur loford og einber nádar-heit, máské hrúgu korn af þeim þetta leir, er svo margann tælt hefir til ad rádast undan Jesú sannleiks-veldi, máské makrædi og ydjuleysi, er svo mörgum steypt hefir î lastanna djúp, margann leidt î þann háska, ad mega sîdarmeir óttast þann þúnga dóm, fyrir vanbrúkun sálar og lîkama, fyrir apturskilad ardlaust og skémmt pund: takid hinn vonda ónýta þjón, og varpid honum í hin ytstu myrkur! Matth. 25. Svo sánht og litilsverd er veraldarinnar Drottnara nád og velvild; hún

varir um augnablik, er svipul og opt snúin í hatur, ádur enn ordinu er sleppt, endar opt vid þau mørgu Drottna-skipti, en nær aldrei lengra enn ad bana-sænginni. Hvørjir, sem þarámót gjøraſt verdugir þegnar í Jesú sannleiks ríki, sem ecki er af þéſſum heimi, og heyra hans sannleiks rødd, þeir hafa Jesú fyrirheit um sælufullt eilíft líf, þeir skulu aldrei fyrirfaraſt, og enginn skal slíta þá af Jesú hendi, Jóh. 10.; þeirra sæla byrjar ad sonnu hér í lífi, med innvortis rósemi og gladværd og ánægju yfir því, ad þeckja sannleikann og Jesú síns trúfaſta hirdirs rauſt, hún byrjar med þeſſari farsæld, hvørrar margur í heims nægtir, já, á skínanda veldis-stól settur, má ángradur sakna og forgèfins óſka sér, en þeirra vegseind og heill nær þó fyrſt réttri full-komnun hinumeginn grafarinnar, þegar øll ver-aldleg tign heimsins ánaudugu þegna, sem ecki vilja heyra sannleiksins rødd, er horfin, þeirra prjál ordid ad dupti, þeirra minníng týnd í ó-minni, og þeirra dómur skal af sannleiksins munni uppsegjaſt: aldrei þeckti eg ydur, farid frá mér allir íllgjørda-menn! Matth. 7.

Vér høfum heyrt hvørsu mikid þad koſtadi Jesúm ad stipta sannleiksins ríki á jørdunni, ad leida oſs frá myrkrunum til ljóſſins, ad afreka oſs eilífa sáluhjálp og opinbera oſs Guds vilja til vorrar sáluhjálpar; hans sannleiks rødd hljóm-adi hátt fyrir mønnum medan hann umgéckſt í holdinu, sú sama sannleiks rødd hefir æ sídan hljómad í øllum heims-álfum og nád til vor í

nordur-

nordur-horn þetta, fyrir bækur og kénnendur sannleiksins orda, mun þá ecki skyldt ad vèr ljáum henni vor eyru, og vottum þar med, ad vèr séum verdugir þegnar í Jesú ríki? aldrei hefir sá þeckt sannleiksins heill og vegsemd, aldrei látid sinn hug hvarfla framyfir þetta skammvinna lífs-skeid og gád ad endalokunum, aldrei íhugad hvorsu ómetanleg ad er sú þyngd eilífrar dírdar, sem öllum sannleiksins trúfostu játendum er heitin, né hvorsu skélfandi laun ad bída muni allra sannleiksins þverbrotnu foraktara, aldrei, segi eg, hefir sá athugad þetta, sem andvaralaust temur sér ad forsmá og daufheyrast vid sannleiksins röddu; aldrei igrundad Jesú ord, Jóh. 12,: hvørr hann forsmáir mig og medtekur eigi mín ord, hann hefir nú þegar þann, sem hann dæmir, þad ordid, sem eg taladi mun dæma hann á efsta degi; hvørja rödd mundi því svo heilla-ríkt ad heyra, sem Jesú sannleiks rödd? vid hvorri röddu svo háskalegt ad daufheyrast, sem hans? mørg rödd og margvísleg heimsins hrópar til vor: hlýdid minni röddu, mín rödd er sannleiksins rödd, hvørr hana heyrir mun lifa. Vellyst og munadur hrópa; sjáid þann fjölmenna og gladværa skara vorra játenda, vorra elskenda, vorra þegna, sjáid hvorsu farsæll sá skari er, heyrid hans þægilegu rödd, hanns sannleiks rödd og adhyllist hana! þar eru raddir, sem hrópa: vèr viljum ecki Jesú rödd heyra, hans ok er oss óbærileg byrdi, heimsins rödd er sannleiksins rödd, hana

 vil-

viljum vèr heyra; vèr viljum losa oss af þeim skyldu-fjotrum, sem kristinndómur leggur oss á; vèr viljum gladir og ángurlausir, medan vèr gètum, ecki æra oss med grubli um Guds tilveru, eginlegleika, vilja, um líf eptir þetta líf, um straff og umbun þar, nè um sálarinnar ódaudlegleika, en vèr viljum lifa í fríu þánkaleysi, adhafast allt, sem heimurinn ad eins lídur óressad, fylgja straumnum, fylgja módnum og þanninn njóta farsældar; þad er sú almenna rödd, sannleiksins rödd, hana viljum vèr heyra.

O! hvörsu óstödugir, hvörsú efablandnir verdum vèr ecki, kristnir menn! þegar þessar margvíslegu raddir hljóma fyrir vorum eyrum! vor andi er ad sönnu reidubúnastur til ad heyra Jesú sannleiks rödd, en þegar vellyst, munadur og heimsins almenni sollur bjóda oss, undir sannleiksins og farsældar skini, audsengnari og vor skilníngar-vit tælandi gladværdir, finnum vèr strax holdid veikt og efablandid um, hvor sannleiksins raust vera muni, og hvar hana sè ad finna; vèr efumst þá um, hvort heldur velja skuli stundlegann munad, ellegar eilíst eptirlæti; Barabbam eda Jesúm, og vèr spyrjum þá hugsjúkir med Pilató: hvad er sannleikurinn? en látum, sem Jesús kalli enn þá til vor, eins og til Gydínga-fólks fordum: Pèr hræsnarar! því prósid þèr ei þenann tíma? því adgreinid þèr ei sjálfir hvad rètt og satt er? Lúc. 12. Pèr vanrækid

Ritn-

Ritníngarnar, hvíad þér meinid ydur í þeim ad finna veginn til eilífs lífs, þær bera vitni af mér, en þó viljid þér ei koma til mín og ödlast lífid, Jóh. 5. Prófum þá farsæld, hvorri heimurinn heitir: ad svalla burt lífi og heilsu í óhófi og lystíngum, og leggjast þessvegna veikur í hálf-kor á únga aldri, ellegar nár fyrir tímann, sem einatt er endirinn á vellystíngum, mun þad nockurrar sannrar ánægju og farsældar afla oss í þessu lífi, eg hvorju heita oss eptir daudann? æ! launum, sem miøg eru ólík sannleiksins. Ad lifa eins þánka- og þeckíngar-laust á Gudi og sannleikanum eins og dýrin, sem enga skynsemi fengu til ad þeckja hvorutveggju, þessvegna enga skyldu ad vardveita, er þad ecki ad steypa sér ofan fyrir alla mannlega tign og verdugleika í dýranna flock? og hvar er þá brúkun vorrar skynsemi, sem oss var gèfin til ad læra og þeckja og elska sannleikann, elska dygdina og këppast eptir ad líkjast sannleiksins Gudi? hvar eru launin, sem heimsins andvaraleysi fær fullvissad um í komanda lífi? æ! hrædileg og ólík sannleiksins launum, sem ad Jesú vitni verda skulu fyrir alla, er trúlega hlýda hans sannleiks roddu, eilíf sæla og eilíft líf; aldrei skulu þeir fyrirfarast, engiinn skal slíta þá úr Jesú hendi, Jóh. 10. Viljum vèr sannleikann þeckja og hondla eilíft líf, þá kènnir Jóhannes oss: nád og sannleikur er fyrir Jesúm Kristum ordin, þar-

 af

af þeckjum vèr, ad vèr erum af sannleik-anum, ef vèr vardveitum Guds bodord, sem er: ad vèr trúum á nafn hans sonar Jesú Krists og elskum hvørr annann, 1 Jóh. 3.; og sjálfur Jesús: ad svo elskadi Gud heiminn, ad hann gaf í daudann sinn eingétinn Son, til þess ad allir, sem á hann trúa, fyrirfaríst ecki, heldur hafi eilíft líf, og til þess ad heimurinn frelsíst fyrir hann; þèr erud mínir vinir, ef þèr gjørid þad eg býd ydur, en þad er mitt bodord ad þèr elskid hvørr annann, Jóh. 3. og 15. Sèrhvør rødd, sem ecki samhljód-ar þessari Jesú roddu, er þessvegna ecki sann-leiksins rødd; hvørja rødd, sem er gagnstæd Jesú roddu, viljum vèr ecki heyra, því hún er heimsins enn ei sannleiksins rødd; en til ad þeckja rèttilega sannleiksins rødd, vídur oss mikillega á rètt ad þeckja Gud og sjálfa oss; hvør og ein rødd, sem kallar oss til ad sjá og skoda Guds máttar-, vísdóms- og gædsku-undur í náttúrunni, Guds elsku í sendíngu síns eingétna Sonar til mannanna frelsis; Jesú ást, sem gaf sitt líf út fyrir oss, þess Jesú, sem var undir eins rèttlátur madur og Guds Sonur; hvør raust, sem vekur oss af andvaraleysinu, kénnir oss verduglega ad brúka vora skynsemi og vora tíd til ad þeckja Gud og hans vilja, þeckja sannleikann, þeckja vorn vanmátt, vorn breiskleika, þeckja vorar skyldur og vora áqvordun; sem minnir oss á hvørn-inn

inn vér fylla egnm þessar skyldur, lifa verduglega þessari áqvordun og manneskjunnar tign, keppast eptir ad ødlast þá ómetanlegu farsæld, til hvorrar vér erum skapadir, en hvorri vér þó svo audveldlega gétum svipt sjálfa oss, med því ad daufheyrast vid sannleikssins røddu; hvor og ein þesskonar rødd, segi eg, hún er sannleikssins rødd, hana skulum vér sífsir heyra, henni trúlega vitni bera í lífi og í dauda.

Avarpa vil eg því ydur, kristnir menn! vidlíkt og Postulinn Páll sinn elskulega Timótheum (1 Tim. 6.): eg býd ydur fyrir augliti Guds, sem alla hluti lífgar, og fyrir augliti Jesú Krists, sem fyrir Pontsíó Pilató játadi sannleikann, ad þér vardveitid þetta bodord hreinir og óstraffanlegir, allt til dírdlegrar opinberunar vors Drottins Jesú Krists, þad bodord: berid ætíd sannleikanum vitni, heyrid ætíd sannleikssins rødd! viljid þér nefnast og reynast verdugir þegnar í Jesú sannleiks ríki, þá minnist, ad þér erud til þess fæddir og komnir í heiminn, ad þér bera skulid sannleikanum vitni, sem hann, og heyrid því sífir sannleikssins rødd. Látid þad þrýsta ydur til ad elska sannleikann, ad Jesús, ydar vegna, gaf sitt líf í daudann, þoldi qvalir og smán, til þess ad leida ydur á sannleikssins veg, og kenna ydur ad þeckja sannleikann; berid því ætíd eins óhraudir þess af ydar Jesú opinberada sannleika vitni, hvor

freisting, hvor óvild edur spott, ellegar háski, sem ydur fyrir hann mæta kynni, eins og Jesús ótraudur vitnadi hann fyrir Pilató, og þenkid: til þess erum vér fæddir og komnir í heiminn, ad vér eptirfylgja skulum vors Jesú fótsporum, heyra vors Jesú rødd, þó vér jafnvel ættum, fyrir sannleiksins sakir ad líkjast hans hryggilegu mind, þegar hann var úr þínghúsinu til skodunar útleiddur. Já, berid æ sannleikanum vitni, kristnir menn! ecki einúngis þegar þér auglýsa skulid ydar trú og þeckíngu á Gudi, heldur og þegar vernda og forsvara ber æru og gott mannord, líf og eigur ydar undirokudu saklausu bræðra, unna dygdinni sannmælis, sigra rógs og ósúndar áráfir; já, afleggid lygar og talid sannleikann, hvørr vid sinn náúnga, Eph. 4. En ydar eilífi Konúngur Jesús, hvørs ríki er ei af þessum heimi, og sem til sinnar kristni talad hefir: hrædst ei þú litla hjørd! þvi þad þócknast ydar Fødur ad gefa ydur ríkid, Lúc. 12., hann virdist svo ad upplýsa ydar hjørtu med sínum sannleiks anda, svo ad ebla ydar í sannleikanum, ad þér í øllu ydar lífi ætíd minnist ad bera sannleikanum vitni, ætíd adhyllist sannleiksins rødd, og loksins, fyrir sannleiksins vidurkénníngu, mættud verdugir álítast ad eignast þad dýrdlega ríki, sem ydur er fyrirbúid frá upphafi veraldar! Amen.

Finita

# Fimta
# Midvikudags Fostu-Predikun.

Sjáid! þad er ydar Kóngur! svo hrópadi Pílatus enn þá til Gydínganna, þegar hann loksins settist á Dómstólinn til ad dæma hinn saklausa Jesúm, og enn leiddi hann fram fyrir þá til skodunar, og til medaumkunar yfir hans hormulega útliti. Olíklegt mátti þad þykja, ad þessi heidni madur, sem svo litla þeckingu hafdi á þeim sanna Gudi, hans vilja og bodordium, mundi bera meiri vorkunsemi med enum saklausa Jesú, meir hræraſt yfir hans óverdskuldudu qvöl og þjáníngum, meiri alúd audsýna í því, ad fá hann lausann látid, leidt hans meinleysi í ljós og dæmt þenna ókunna mann siknsaka, já, réttlátann, heldur enn Jesú egid fólk Gydíngarnir, til hvörra Gud hafdi svo lengi og ljóslega talad fyrir sitt ord, sína Spámenn, Speckínga og Skriftlærda, sem svo hofdu granskodad Ritnínguna, ad þeir jafnvel hofdu talid alla hennar bókstafi; þart svo berlega mátt sjá Jesúm fyrirmyndadann, sem þeirra Messíam edur fyrirheitna Lausnara, og sem þeirra Konúng, svo lengi heyrt hann, med kénníngum og kraptaverkum á medal þeirra, stadfesta allt hvad fyrirspád var um Messíam og sanna þetta ad hlýda fullkomlega uppá sig einann. Olíklegt, segi eg, já, undur mátti þad heita,

ad

ad þetta sama fólk, sem fyri fám dögum hrópadi: Hósíanna syni Davids! lofadur sé sá komandi Kóngur í nafni Drottins! fridur á himni og dírd í upphædum! Lúc. 19., þegar Jesús reid inn til Jerúsalem; ad þetta sama fólk nú skyldi andsvara Pilati hrópi til þess: sjáid! þad er ydar Kóngur! med því gudlausa, því ómanneskjulega heiptar hrópi: burt, burt med hann, krossfestú hann! en — svo óstødug, svo blind, svo tilfinníngarlaus og svo forherdt má þó manneskjan verda, þegar hún lídur heipt og hatri ad festa rætur í hjartanu, ad leggja skynsemina í sansaleg þrældóms-fjötur, ad útrýma sérhvørri mannedlis- og skyldu- og réttvísis- og dygda-tilfinníngu; hún fremur þá med laungun og lyst sérhvørja grimd, sem einúngis ætti ad finnast hjá villudýrum, og hún verdur þeim í ædinu svo lík, ad hún eckért vílar fyrir sér ad úthella háskaleguftu heiptar-hrópum og óskum fyrir sig og sína, ad drýgja hvørja óhæfuna á fætur annari.

Vér hofum þá fyrir oss, kristnir menn! í uppleſnum fimta parti Jesú Písslar-søgu enn þá tvö gagnstæd dæmi ólíkra manna; tvö gagnstæd hróp vid Jesú fordæmíngu, nefnilega: ens heidna Landsstjórnara Pilati hróp til Gydínga: saklaus er eg af blódi þess réttláta, sjáid þér til! og alls Gydínga-lýdsins, þessa Jesú egin uppvæga fólks andsvarandi hróp: hans blód komi yfir oss og yfir børn vor!

vor! látum oss bera þessi hróp samán, og vid nockur undanfarin Pilatí og Gydínganna, og oss til lærdóms og hugvekju yfirvega:

## Pílatí vidleitni ad láta Jesúm laus-ann, undir eins og Gydínganna blindu krossfestíngar-hróp yfir Jesú.

En — vísa þú oss, Drottinn! þína vegu, svo ad vér gaungum í þínum sannleika; vid-haldtu vorum hjörtum vid þad eina, ad ver óttumst þitt nafn! (Psálm. 86.) Amen.

---

Lengi hösdu Gydíngarnir, einkum þeirra Hösd-íngjar, leitast vid ad fá Jesú fyrirkomid ádúr enn þeir lokfins handtóku hann; þeir vildu einatt grípa hann, grýta hann og ráda hann af dogum, en þeir óttudust fólkid, sem hné ad honum og hlýddi hans ordum, héldt hann vera Spámann, trúdi á hann; þeir vildu því veida hann í ordum, og leitudu eptir átyllu einhverri, er þeir brúka kynnu, sem ákjæru grundvöll honum á móti, en fundu enga. Svo hreinn og flecklaus og heilagur var vor guddómlegi mannvinur Jesús, ad sjálfir hans ofundar- og haturs-menn, hans ofsóknar-menn leitudu ept-ir ákjæru-efni gégn honum, en fundu eckert, og þó gaf þeirra ofund og hatur þeim enga ró, fyrr enn þeir fengju hann af dogum ráð-id; þeir sáu hans miklu dásemdar-verk og teikn og skélfdust, ad allt fólkid mundi trúa á hann,

taka

saka hann til Kóngs yfir sig, og þetta orsaka þeim stríd vid Rómverja, sem þá mundu leggja undir sig land þeirra og lýd, því gaf Kaiphas þeim rádid, ad, til þess ad afvenda þvílíkri óhamíngju fólksins, væri betra ad einn madur, enn þótt réttlátur og saklaus, sem Jesús, dæi fyrir fólkid, heldur enn ad allur lýdur tapadist, Jóh. 11., hann bendti þeim til, ad betra væri þeim ad deyda Jesúm saklausann, svo hann hvorki yrdi tekinn til Kóngs né þaraf orsakadist stríd vid Rómverja, og Gydínga-land og lýdur legdist svo undir þá; svo lítid skildi hann í Jesú, sem hins sanna Messiæ andlega Kóngdómi, svo fastann trúnád setti hann á þá veraldlegu stjórn, en af því hann héldt hann ei fyrir hinn sanna Messíam, óttadist hann, ad þessi Jesús, ef tekinn yrdi til Kóngs af lýdnum, mundi ei orka ad verja land og lýd mót yfirgángi Romverja, enn sídur ad vidrétta Israels veraldlega ríki, sem Gydíngar væntu ad Messías gjora skyldi. Því matti sjálfur Kaiphas þad óhæfu, er Jesús, vid ransókn af þeim andlega rétti í Jerúsalem, játadi sig ad vera Kristum Guds Son; hann reif sín klædi í sundur af vandlætíngu, hann dæmdi þessa játníngu gudlast, og qvad engin vitni framar þurfa, því allt rádid hefdi þessa gudlostun heyrt; hann spurdi: hvad virdist ydur? og fljótir urdu þá allir til ad fordæma Jesúm, ad skyla hann dóm, er þeir óskudu þegar uppsagdann, og ad hrópa:

hann

hann er "dauðans sekur! Þángað til hǫfðu þeir leitað ýmislegra ljúgvitna gégn Jesú, en fundu þau ei, og þó nockur ljúgvitni gengju fram, bar þeim ecki saman; nú þóktust þeir engra vitna framar þurfa, nú hefði Jesús guðlastað, nú væri hann dauða sekur; þeir héldu nú nýja ráðstefnu, hvorninn þeir gætu honum í hel komið, fengu hans sonni játníngu á ný, og að henni heyrðri bundu þeir Jesúm strax og framseldu hann þeim rómversku landsstjórnara Pilató til dóms og straffs; en — hér sáum vér nóg tilefni að undrast innilega viðleitni þessa heiðna manns að sá Jesúm lausann látið; hann spyr: hvar um Gyðíngar ákæri hann? og þeirra svar verður, án minnstu sönnunar eður líkinda: væri hann ecki illræðis-maður, hefðum vér ei selt hann í þínar hendur. Pilatus krefur, að þeir sjálfir dæmi þenna, er þeir nefni illræðis-mann, en — nú vottaðist augljóslega þeirra laungun og áform að sá Jesúm líflátinn, en eckért minna straff fyrir hann ákvarðað; nú kannast þeir við, að þeim sé ecki leyst nockurn að lífláta, en hér þurfi lífláts við, hér megi eckert nema líflát nefna; Gyðíngar vóru þá komnir undir rómverskt Herradæmi og hǫfðu undir eins misst makt til að lífláta aðra, en hefði þeir ecki misst þessa makt, hefði Kristur ei þolað þá smánarlegu krossfestíngu, sem ecki var Gyðíngalegt, heldur heiðið og romverskt dauðastraff; og þá hefði ei heldur það Jesú orð

upp

uppfyllst, sem hans Píslar-saga hér tilvísar, med hvorju hann laungu ádur teiknad hafdi sinn daud-daga, nefnilega krossfestinguna, segjandi: þegar eg verd upphafinn frá jørdu, mun eg draga alla til mín, Jóh. 12. Jesús vitnar fyrir Pílató um sinn Kóngdóm, af honum spurdur, qvadst fæddur til ad bera sannleikanum vitni; segir alla sannleikans elskendur heyra sína rødd, og strax hræist Pílatus svo vid þetta Jesú hreinskilna andsvar, þessa sannleiksins rødd, ad hann géngur út aptur til Gydínga og játar: enga søk finn eg med þessum manni. Gydíngar þarámót áklaga Jesúm því hardar, því ákaflegar, en Pílatus bendir honum til ad forsvara sig mót þeirra sakargiftum, segjandi: heyrir þú ecki? svarar þú engu? sjá! hvørsu þeir áklaga þig! og undrast mikillega Jesú þøgn vid Gydínganna ákjærum, hann virdir þessa þøgn, eins og var, sem vott Jesú sakleysis og gódu samvitsku, og hlidrar sér med øllu móti hjá ad áfella hann, sendir hann til Heródis, og gladdist af ad sjá, ad Heródes enga søk med Jesú fann, lét þetta endurnýja forna, en um tíma undir lok lidna, vináttu þeirra á milli, ber þetta Heródis samhljóda álit fram fyrir Gydínga, segir: ad hvorugur þeirra finni Jesúm valdann af þeim søkum, hvorra vegna hann ákjærdur sé, segist því vilja refsa honum og láta hann lausann.

Vißt

Víst sýnist það að vitna á móti rëttsýni Pílati, að hann qvaðst vilja refsa Jesú, og þó finna hann saklausann; en vorkënna ber heiðnum manni, þó ecki treysti hann sér til að meta svo rëttilega, sem bar, Gydínganna sakargiftir, svo mikillega snertandi þeirra trúarbrögð, á hvor Pílatus ekkërt skynbragð bar. Hann hefir líklega mátt hugsa: þetta, sem þeir frambera, að Jesús segir sig vera Gydínganna Kóng og Krist, má vera eptir þeirra trú og lögum eitthvað mjög saknæmt, þar þeir frambera að fólkið së þarvið uppæst, og það nú uppvægt, framselur mér hann til straffs, og krefur hans dauða; þó eg, heiðinn maður, viti ei hvörsu saknæmt þetta vera kann, sje eg þó, að það hefir óeyrðar ollað, eg vil því gjöra nockra assokun, refsa Jesú svo óróinn stillist, og þar með láta hann lausann. Og hann, sem eckërt þeckti til persónu og lærdóma Jesú, hann sýnist víst afsakanlegur fyrir þenna breiskleika, þessa vanþeckingu, þessa órëttvísi, ef nockur breisk manneskja annars, því afsakanlegri í vorum augum, kristnir menn! sem sjálfur sá saklausi Jesús, reiknar þessa vanþeckingu hans honum til málbóta, segjandi: þú hefðir ecki vald yfir mér, væri það ecki gefið þër hër að ofan, því er þess synd meiri er seldi mig þér; meiri vegna betri þeckingar, er Jesú óvinir og Júdas hans svikari höfðu um lærdóma og dásemdar verk Jesú; því afsakanlegri, segi eg, er í vorum augum sú Pílati ávæ-

 ing,

ing, sem likir, en miklu straffsverdari brestir, vegna vor kristinna betri upplýsingar og þeckingar á Gudi og hans vilja, já, lestir eru algengir medal vor, hvar ósundad, hatad og offókt sakleysi einatt má andvarpa undan óverdskuldudum ressingum, þegar máttugir ossækja litilmagnann og ógna hans dómendum, ellegar eitradur blinds almennings rógur gjörir samtök til ad fella skorugleganu sannleiks og dygda frædara og verndara, og umslýja hans vandlætingar, likt og Gydingar gjördu vid Jesúm.

Hvor er nú Pilati vidleitni framar ad fá Jesúm lausann látid? hann vissi ad Hosudprestar Gydinganna hösdu af ósund framselt Jesúm, hann álýktar því med sjálfum sér: svo ránglátir munu þó áklagendur Jesú, hvörs sök eg enga finn, aldrei verda, ad þeir taki fram yfir hann argann óbóta-mann, ræningja, upphlaups-mann, manndrápara? eg verd, ad vana, gésa þeim einn bandingja lausann á Páskum, nú skal eg bjóda þeim, ad velja þann saklausa Jesúm, sem sagdur er Kóngur þeirra, ellegar illvirkjann Barabbam, og nú hrópar Pilatus til fólksins: viljid þér ad eg gesi ydur nú Gydinga Kónginn lausann? hvørn viljid þér lausann Barabbam eda Jesúm, sem kallast Kristur? og allur Gydinganna hópur, leiddur af rádum þeirra ædstu Presta og Öldúnga, hrópar þarámóti (ó! þá dæmalausu frekju og mannvondsku!): tak burt þennann og gés-oss Barabbam lausann! Hvørt er

er sá kristinn, sem ecki verdi undir eins hissa, ordlaus og frá sér numinn af ánaigt og skelfingu, þegar hann heyrir um þessa samvitskulausu Gydinganna grimd? heidinn madur Pilatus leitar allra medala til ad losa Jesúm undan offóknum, og býdur Gydingum ad velja um lausn þessa heilaga ellegar skálkinn Barabbas, en þetta Guds egid fólk Gydingarnir, þessir Abrahams-nidjar, velja nú skálkinn, en framselja heilagann Jesúm í qvöl og dauda. Jesús hefir medal þeirra gengid um kring, gjort gott og grædt alla, læknad sjúka, kallad dauda til lífsins, kénnt og prédikad Guds nád, veana sjálfs síns, útbreidt sanna Guds þeckingu medal mannanna, og leidt þá á dygdanna lucksæla veg; en Barabbas þarámóti géck um kring og gjordi illt, særdi og sýkti marga, kalladi lifendur til daudans, hvorra blód hann úthellti, kénndi andvaralaust og glæpafullt líferni, og leiddi sína áhángendur á lastanna afvegu, og þó heyrum vér þetta Guds fólk, þegar velja á um Barabbam og Jesúm, hátt hrópa: tak burt þennann, en gef oss Barabbam lausann! Jesús kénndi allstadar med lærdómi sínum og lifnadi, hógværd, eindrægni, ástsemd, bródurlegann kjærleika og hlýdni vid yfirbodarana; Barabbas kénndi og framdi óhlýdni, upphlaup, innbyrdis hatur og mord, og þó hrópadi allur Gydinga-lýdur: tak burt þenna, en gef oss Barabbam lausann! Jesús lifdi svo heilögu lífernı hér á jördu, ad

 hann

hann sjálfur krefja þordi óvini sína til vitnisburdar um sitt réttlæti, segjandi: hvørr ydar gétur sannfært mig um nockra synd? en ef eg segi ydur sannleikann, því trúid þér mér þá eigi? Jóh. 8., hann var heilagur og flecklaus, og engin flærd fundin í hans munni, hann gaf sitt líf út fyrir brædurnar, og vann aldrei til minnstu refsíngar; en Barabbas lifdi illvirkjanna lífi, hann var fyrir rán og uppþlaup og mannslag nafnkénndur, sem flestum óbóta-mønnum háskalegri, fyrir margsháttar ódádir verdugur daudans, hans ydja var ad svipta sína medbrædur fé og fridi og fjøri, og þó hrópar Gydínganna uppvægi lydur, þegar velja skal um Barabbam ellegar Jesúm: tak burt þennann og géf oss Barabbam lausann! um Jesúm hefir Landsstjórnarinn aptur og aptur vitnad fyrir øllu fólki: eg finn alls enga søk med þessum manni, og ad hann sé réttlátur madur, þó heitir fólksins ítrekada hróp mót Jesú lausn: eigi þennann heldur Barabbam! já, þad bætir enn samvitskulausara hrópi vid hin þegar Pilatus spyr: hvad þá skuli gjøra vid Jesúm, sem sagdur sé Gydínga Kóngur, þegar Barabbas verdi frí? sem vildi Pilatus segja: verdi Barabbas, rænínginn, óbóta-madurinn, manndráparinn Barabbas frí, kann ecki þúng hirtíng ad leggjast á Jesúm, hvad viljid þér þá gjøra vid hann? uppá þessa spurníngu, segi eg, andsvarar alls lydsins miskunar- og gud-lausa hróp: krossf-

krossfestist hann! krossfestú hann! Herra Guð! mun sólin nockurntíma skinið hafa yfir jafnt ránglæti og háðúng? mun nockurt eyra heyrt hafa svo skélfandi, svo blóskrandi grimdar-hróp? ræníngjinn, upphlaupsmaðurinn, manndráparinn hrópast og heimtast lausgéfinn til að géta framið nýjar ódáðir, en hendur og fætur hins heilaga Jesú hrópast og heimtast gégnumboraðar og negldar með stórum járngoddum, og allur hans líkami útþaninn á krossins smánarlega og qvalafulla gálga. Forgéfins hrópar enn sá heiðni Landsstjórnari, og mælir Jesú líknar-mál, segjandi: hvað illt hefir þá þessi gjört? enga sök finn eg með honum, því vil eg hegna honum og láta hann lausann, því ódara qveða við ný og hæckuð hróp lýðsins til Jesú fordæmíngar; þau blandast ítrekuð og ýmisleg saman, úr sérhvorri krá, sérhvorju horni á víxl: eigi þennann heldur Barabbam! og, í stað allra roksemda gégn Jesú, hrópast: krossfestist hann! krossfestú hann! hvørr hrópar yfir annann með miklum og hæckuðum hljóðum, og þessi hljóð og sjálfra Hofuð-prestanna, þessara almúgans fræðara og leiðtoga hljóð, tóku yfir. Jesús hafði hrópað: komið til mín allir, sem mæddir eruð undir yðar byrðar-þúnga, eg skal endurnæra yður! lærið af mér, sem er hógvær og lítilátur, og þér skuluð finna hægð yðar sálum, Matth. 11.; en til endurgjalds þar fyrir umkríngir nú þessi hatursfulli skari

ám þar, sem hann stód hladinn alls heimsins synda-þúnga, gleymir allri hógrærd, og med óstjórnlegri grimd eykur þad honum qvöl og sálar-ángist, já, krefur hans dauda, med opt-sinnis itrekudu krossfestíngar-hrópi.

Hvad reynir nú Pilatus framvegis? sannfærdur um ad engar roksemdir, engar afbatanir dugdu til Jesú lausnar, er fólkid andsvaradi öllum Pilati tilraunum og vitnisburdum um sakleysi Jesú, einúngis med óhljódum og grimmu krossfestíngar-hrópi, vonadi hann enn ad fá Jesúm lausann látid, eptir nockra hegníngu; hann rædur því af— o! þau sorglegu og skélfilegu úrrædi!— ad húdstrýkja Jesúm, en stridsmennirnir spottudu hann med ypr- hann lagdri purpura-kápu, og reyr-staf látnum í Jesú hægri hönd, særdu hans höfud med nístandi þyrni-kórónu, spjódu hann med knéfalli, med tilbeidslu og med þessari hædandi qvedju: heill sértú! Kóngungur Gydínga! en gafu honum þess á milli pústra og hræktu á hann, og bördu hans höfud med reyrnum. Nú leidir Pilatus Jesúm svo aumkunarlega medfarinn út, vitnar enn um hans sakleysi, leitast enn vid ad hræra þann blindada lyd til medaumkunar, med því ad syna hans herfilegu píslar-mind, vid hvorrar sjón jafnvel mann-ófreskjur mátti til líknar hrærast, og nú hrópar hann: sjáid manninn! hvört mun þá ei þessi Jesú mind hafa hrært Gydínganna hjörtu? já! til endurnyjadrar grimdar

ar og ítrekaðs hróps: krossfestú! krossfestú! og enn þá hrópar Pílatus þarámóti: takið þér hann þá og krossfestið, sem hann vel vissi Gydíngum ecki leyfilegt, því eg finn enga sök með honum.

Strax hitta Gydíngar uppá nýja ákjæru gégn Jesú, nýja dauða-sök. Hann á eptir vorum løgum að deyja, hrópa þeir, því hann gjørdi sig sjálfann að Guds Syni. Eckért skildi Pílatus í þessu Gydínganna hrópi, lítið þeckti hann til ens sanna Guds, minna til hans eingétins Sonar, er nú stód mis-þirmdur frammi fyrir hans dómstóli. Hann gjørdi sér því í grun að hér stædi eitthvort Godanna afqvæmi, þeirra sánhtu Goda, sem Heidíngjar dyrkudu í stað þess rétta Guds. Hann skélfdist, hann grenslast nú enn betur eptir, hvadan Jesús sé, hann heyrir Jesú ljúf-lyndis dóm: þú hefdir ecki vald yfir mér, nema væri þér géfið það hér að ofan, því er þess synd meiri er seldi mig þér; og þetta lætur hann enn framar hvetja sig að verja allri vidleitni til Jesú lausnar. Lengi hefir hann stríðt við Gydínga þar um, lengi andsvarad þeirra grundvallarlausa kross-festíngar hrópi med vitnisburdi um Jesú sakleysi, og um sína laungun til að géfa hann lausann, en nú mætir allri hans afsøkun og fyrirbón nýtt og háskalegt hróp Gydínga, háskaleg reynsla fyrir Pílati stoduglyndi, réttsýni og dygð, háska-legt hróp fyrir Jesú frelsi: látir þú þennann

lausann, hrópa þeir, ertú ecki Keisarans vin-
ur! og røksemdirnar til þessa eru: Jesús segir
sig að vera Konúng, hvorr sem gjørir sig að
Konúngi, er á móti Keisaranum, svo sem sá,
er skérda vill makt hans eßlegar yfirráð, og
látir þú hann lausann, er þetta gjørir, mis-
brýtur þú við Keisarann, máttú vænta Keis-
arans óblíðu, já, afsetníngar frá vøldum og
landstjórn; og þetta hróp vard líka reiðarslag
í Pilati eyrum. Strax, sem hann heyrir
þetta orð, þetta hróp, leiðir hann Jesúm út
og setst á dómstólinn. Svo freistandi var þessi
Gyðinganna ógnun Pilati dygðar, svo kjær
honum stundleg metord og hylli og velmégan,
að nú sá hann ecki lengur fært að skjóta á
frest dómi hins saklausa; þó reynir hann enn
til að løsa hann undan óvinanna ákjærum,
sjáið! hrópar hann þegar hann leiðir Jesúm
út, það er ydar Kóngur, en þeir aptur á
mót: burt, burt með hann, krossfestú hann!
enn kallar Pílatus til þeirra: skal eg kross-
festa ydar Konúng? og þeir aptur á mót:
vér høfum engann Konúng nema Keisarann.

Forgéfins hafði nú Pílatus svo opt og
lengi gjørt innilega tilraun, að løsa Jesúm und-
an Gyðinganna heiptugu ákjærum, forgéfins
reynt að mæla honum líknar-mál, forgéfins
vitnað um sakleysi hans, forgéfins sýnt hans
afstræmdu, grátlegu mind, forgéfins minnt þá
á, að hér stæði þeirra Konúngur ránglega á-
kjærdur, forgéfins reynt að stilla óróann, nú
sá

sá hann loksins, þegar engu varð til leiðar komið, að upphlaupið yrði enn meira, léti hann Jesúm lausann, og þess endalok, að Keisarans óvild mundi svipta sig völdum og virðingu, því vitnar hann enn þá í síðasta sinni um sakleysi Jesú, og hvorsu naudugur hann láti áfellis-dóm yfir hann gánga, já, eptir því, sem hans litla þekking á Guði og skyldunum gjørði honum í lund, vill opinberlega fyrifram velta allri skuldinni af sér, sem neyddum og kúgudum dómara, sem engu gat lengur til leiðar komið, á Gyðínganna uppvæga lýð, með því nú seinast að þvo sínar hendur í vatni fyrir fólkinu, til að votta sitt sakleysi af þeirri óhæfu það ógnar honum og skelfir hann til að fremja, og með því að hrópa: saklaus er eg af blóði þess Réttláta, sjáið þér til! og Pílatus heldur sig siknsaka, þegar hann heyrir alls lýðsins andsvarandi hróp, sem leiðir alla sekt og straff yfir sjálfann sig, en alls ekki yfir dómarann, svo látandi: hans blóð komi yfir oss og yfir børn vor! og nú fyrst dæmir hann Jesúm, að vild þeirra, til krossfestingar.

Þvílíkann endir høfðu þá Gyðínga-lýðsins miskunarlausu ofsóknar- og øsundar-hróp yfir Jesú, og þenna endir øll Pílatí velmeinta tilraun; þann endir, sem að sonnu virdast má skelfilegur fyrir Jesú fjandmenn, er sífeldt hrópuðu hans krossfestingu, en varð þó heiminum lucksæll; endir, sem øllu framar hrópa

 mátti

mátti hefnd og straff yfir Jesú mordíngja, enn Abels blód, er hrópadi af jordunni hefnd yfir Kain fordum, og þeirra morgu aflífudu Spámanna blód, er ad Jesú spádómi koma skyldi yfir og krefjast af Gydínga kynslód; en þessi endir gjordi þó, ad Jesú blód ollu heldur hrópadi vægd og líkn fyrir mannkynid, sambodid Jesú mannelskufulla hrópi á krossinum: Fadir! fyrirgéf þeim, þeir vita ei hvad þeir gjøra! æ! þessi endir er ecki einúngis fyrir oss fullur gledi, heldur og lærdómsríkur; vér fáum ei nóglega furdad Gydíngauna grimdarhróp, máské og ad verdugleikum álasad þeim, máské fundid Pilati hreisleika, en — vér gleymum þá sjálfum oss, gleymum ad jafna oss saman vid þessa menn, gleymum ad vér dæmum opt sjálfa oss, í því vér dæmum þá, þar vér í svo morgu gjorumst þó þeirra líkar.

Gydíngar ofsóktu Jesúm, af því hann ecki smjadradi þeirra hégóma-girnd, ecki fegradi þeirra vondsku, ecki virdti þeirra hræsnis dyrkun, sem bundin var vid fánýta sidi, en hafdi ei gudhrædslunnar sonnu kennimerki, hafdi ecki í hjartanu stad; heldur ávítadi hann og straffadi þeirra flátskap, lagdi þenna ljóslega fyrir augu og lysti veyi og vesæld yfir þeirra lífnadi, því var þeim annt um ad rydja þessum sannleiksins prédikara af vegum sínum, og þoldu ei ad sannleiksins ljós lysti upp og opinberadi þeirra sonnu mind, því hrópudu þeir: burt, burt med hann, krossfestú hann!

en

en hvad gjörum vèr, þegar vandlætíngasamir kénnendur og frædarar leitast vid ad breyta eptir sínum Meistara Jesú, vekja oss af andvaraleysinu, láta sannleiksins ljós birta upp fyrir oss veginn, sýna oss ad hvörsu óttalegu afgrunni vèr önum fram, draga skýluna frá voru hræsnisfulla líferni, sem ad eins ber ysirskin gudhrædslu einhvörrar, en þó freklega afneitar hennar krapti, þyckjum vèr þá ecki svo þeita, er vèr metum sneidir uppá virdíngu vora, tálmun í andvaraleysinu, hneckir addrátta-ásælni og andstyggilegann taum vid taumlausar girndir og líferni, ad vèr med hjarta, munni og framferdi, hrópum líkt og Gydíngar: burt, burt med þenna frædara! hatist smánist og fellist hann! þegar Gud sendir oss stjórnsamann yfirbodara, sem ecki lídur ránglæti og allskonar óknyttum ad gánga strafflaust fram fjöllunum hærra, sem minnist ad hann, sem þénari Guds, ber ei rèttlætisins sverd forgéfins, og lætur þad ecki ridga í slídrunum til ad ala upp strákskap bródvandra, heldur minnist, ad og svo honum er áqvardadur reikníngs-dagur fyrir stjórnar rádsmennsku sína hèr á jordu, og ad honum eru log- í hendur fengin og sett, vid hvör hann vernda á undirokadann lítilmagna mót ómildra yfirgángi, og med laganna straffi innprenta þeim og sèrhvörjum, sem ei ödruvísi láta sèr segjast, Jesú dýrmæta bodord: hvad þèr viljid ad mennirnir gjöri ydur, þad skulud þèr og þeim gjöra, já, halda sèr-

hvör-

hvorjum vid laganna hlÿdni og skyldur, vid dygda og réttlætisins veg; hrópa þá ecki ótal raddir: burt, burt med hann, rógberist og kollvarpist hann! en gèf oss þann, er lídur oss ad hafast allt ad, sem oss lystir, lifa stjornar- og laga- og adfindnis-laust, lifa villusida og stórbockanna lifi, lifa vorum and-varalausa aldar-mód; já, gèf oss þann, er í tilliti til vor, lifir sem hvorki sjái hann nè heyri! já, þegar Jesú lærdómur ámálgast og innprentast oss, og vèr eptir honum egum ad audsÿna lifandi og kroptuga trú, kroptuga í gódum verkum og dygdugu liferni, kroptuga í stjórn og herradæmi yfir vorum lystingum, heimsins og skilníngarvitanna freistíngum, hrópar þá ecki, því midur! vort framferdi mót þessum Jesú lærdómi: burt, burt med hann! gèf oss heimsins gjálífis lærdóm, fÿsn holdsins og drambsamt liferni? Vilji nockurt fræda, upplÿsa, betra oss, leida oss til þeckíngarinnar á Gudi og sjálfum oss, á skyldu og dygd, til ræktunar vorrar skynsemis og heilsu, og til verdugrar umþenkíngar tímans og eilífdarinnar, fljótt heyrast nógar raddir ad hrópa: burt, burt med þenna! gèf oss þann, er lossÿngur og vegsamar þánka- og andvara-leysi, og lifir eins og hann alls enga eilífd egi fyrir höndum.

Pilatus óttadist Keisarans óvild, ef hann léti Jesúm lausann, óttadist valda- og virdínga-missir, og lét þetta neyda sig til ad framselja

selja hinn saklausa í qvöl og krossins dauda: Hann var heidinn madur, sem litid vissi um Gud og eilífdarinnar gjöld fyrir íllar athafnir hér í lífi; en vér, sem kristid nafn berum, og miklu betri þeckíngu, enn hann, ödlast hofum um hvorttveggja, hrædumst vér aldrei framar mennína enn Gud? þá sem ad eins fá litid óhýrt vid oss, ad eins amad oss eda óvirdt, máské í einhvorju stundlegu, máské í velmegun og fjár-abla skadad oss, framar enn þann, sem varpad gétur sáln og lífi í eilífa fyrirdæmíngu? stýrir ei metorda-girnd, ávinníngs von og fánýtur losstýr af monnum, opt af óráðvöndum og ásælnum monnum, einatt morgum vorum athofnum til ens verra, og stýlar saklausum dóm þeim til áfellis, í stad þess hann vera ætti undirokadra vernd? en gleymum vér þá ecki, hvorsu litid þad gagnar ad ávinna, jafnvel allann heim þenna, en lída tjón á sálu sinni? og hvorsu einkisverd ad er eptirsókt vegsemd hjá monnum, mót vegsemd hjá Gudi? lengi finnum vér eitthvört yfirvarp réttinda, til ad segra med ránglæti vort, til ad þvo med vorar hendur fyrir fólkinu eins og Pílatus, til ad velta skuldinni af oss á adra, og hrópa, sem hann: saklaus er eg af blódi þins Réttláta, sjáid þér sjálfir fyrir! en munum vér sá þess augu blindad, sem augad skapadi, svipt þann heyrn, sem eyrad plantadi, og sem losad hefir ad heyra qveinstafi sinna undirokudu mannsképna? og—þegar vér aldrei gaumgæf-

um, hvílíka blúcku vér med áráſum og ráng-
læti gégn ſakleyſi og dygd, leidum yfir ſjálfa
oſs í tíma og eilífd, og yfir vora nidja, held-
ur ſvíſumſt jafnvel ecki vid, ad kalla yfir oſs
hefnd og tilſvar vorra drýgdu ránglætinga,
hrópum vér þá ei likt og Gydíngar, er ſögdu:
hans blód kómi yfir oſs og yfir børn vor?
æ! vér ſkulum framvegis láta oſs þeirra og
Pilatí víti ad varnadi verda, kriſtnir menn!
elſka dygd og réttlæti, hafna ſynd og ráng-
læti, vernda ſakleyſid mót ómildra yfirgángi,
óttaſt Gud framar enn menn. Vér ſkulum
elſka vorn kroſsfeſta Jeſúm og hans lærdóm,
og þegar heimſins gárúngar hrópa: burt, burt
med hann! ſkulum vér ótraudir hrópa: til
vor, til vor med hann! eiliflega til vor med
hann! Já, o Herra Jeſú! ſvo lengi, ſem vér
lifum ſkulum vér hrópa, ecki med þínum frek-
ſmánurum og Gydíngunum, ſem hrópa þitt
blód yfir ſig og børn ſín, heldur med Skáld-
inu: þitt blód fleckklauſt, ſem flódi á kroſs,
frelſi þad børnin vor og oſs! Amen.

# Sjøtta
# Midvikudags Føſtu-Predikun.

Hann hneigdi høfudid og gaf upp and-
ann. Svo vitnar Gudſpjallamadurinn
Jó-

Jóhannes um andlát Jesú á krossinum, Jóh. 19., þetta merkilegasta andlát medal dauðlegra manna, þetta huggunar-ríkasta andlát fyrir allt mannkyn. Jesús dó, af því hann vildi svo sjálfur til mannanna frelsis; hann sannadi undireins þar med sín egin ord, Jóh. 10.: eg legg mitt líf út fyrir saudina, — enginn tekur þad af mér, nei, fríviljuglega legg eg þad út, eg hefi vald til ad leggja þad af mér, og vald til ad taka þad aptur, því stendur nú um hann í upplesinni Píslar-søgu: hann hneigdi høfudid og gaf upp andann. Já, en merkileg eru þessi ord; merkileg til ad sanna ádurgreind Jesú ord: fríviljuglega legg eg lífid af mér, þegar vér ádgætum, ad krossfestar manneskjur hafa opt lifad marga daga á krossunum, en eptir þad Jesús hefir ad eins um frekar 6 stundir á krossinum hángid, heitir þad nú: hann hneigdi høfudid og gaf upp andann; og, ad Jesús hafi þá sannarlega gefid upp sinn anda, stadfestir nógsamlega, ecki einúngis allra Gudspjalla-mannanna vitnisburdur, heldur og þad atvik Jesú Píslar-søgu, sem greinir oss, ad strídsmennirnir, sem brjóta áttu þeirra krossfestu bein eptir Gydínga bón, svo líkamarnir ei væru á krossunum um Sabbaths-daginn, gjørdu þetta vid báda ræníngjana, sem enn vóru lifandi, en sáu Jesúm látinn, þegar til hans kom, brutu því eckert hans bein, heldur til ad fullvissa sig um hans dauda, lagdi einn þeirra

hans

hans sídu ígégn med spjóti, og strax rann út þadan vatn og blód, óræk merki um Jesú sannarlega dauda. Þetta Jesú sídu-sár, þetta útrunna vatn og blód, ber enganveginn ad heimfæra til Jesú píslа, engannveginn þar af ad smída sér grundvallar-lausa hjátrú, ellegar ad útþýda þetta, sem teikn og fyrirmyndun markverdustu hluta, eda, sem fridþægjandi part Jesú pínu, hvar ad þó margir hafa til fányt-is margt tilthýnt, heldur ber einúngis ad álíta bædi sídu-sárid, og þad sem út af því rann, fyrir þad eina, sem þad á ad votta og kann, þad nefnilega: ad Jesús var sannarlega á krossinum daudur. Hans andvana líkami fann þá ekkert framar til nockurra sára, eymsla edur stúngu, heldur enn þó hvorr annar nár edur líkami daudra skepna sé lagdur ígégn; hann hafdi nockru ádur høfudid hneigt og géfid upp andann, hans harmqvæli øll vóru því undir eins umlidin, og kunnu ecki ad vek-jast framar á ný, þó hans sída væri logd í-gégn; þad vatn og blód, sem af sárinu út-rann, vottadi einúngis ad hann var fullkom-lega daudur, því eptir náttúrlegu edli, rennur vidlíkt út af sérhvorjum ný-dánum líkama, sem lagdur verdur ígégn, eins og Jesú; já, blód og vatn rennur margopt sjálfkrafa út af and-vana líkømum, sem oss er alkunnugt. Stríds-mennirnir vóru nú ecki, heldur útsendir til ad lengja, heldur stytta Jesú qvalir, hefdi hann ecki, látinn, verid. Þad þókti nád, ad flýta med

med bein-broti dauda þeirra kroßfestu, sem annars kannske hefdu lengi lifad og pínst; þessa skélfandi vægd, þenna ógnarfulla eymda-styttir, med áauka sárustu qvala vid beinbrotin, þurftu og fengu ræníngjarnir, sem enn lifdu, þá stríds-mennirnir framgengu til ad brjóta þeirra kroßfestu bein; en Jesús einn komst hjá þessari qvøl, hann einn þurfti hennar ei vid, hann einn hafdi þá fríviljuglega lagt lífid af sér, þá nýlega hneigt sitt høfud og gefid upp andann; þeir sáu hann látinn, enn þótt svo óvenjulega fljótt, ad Pilatus jafnvel um qvøldid feint, undradist og trúdi þvf ecki, fyrr enn Hundrads-høfdínginn, er vardhaldid hafdi vid Jesú kroß, vitnadi ad Jesús væri fyrir laungu daudur, og þar á ofan hafdi hann til stadfestíngar um hans sannarlega dauda, verid med spjóti gégnumlagdur.

Jesús hneigdi høfudid og gaf upp andann, en hvørt? þad votta Gudspjallamennirnir, segjandi: hann hrópadi hárri røddu í annad sinn, og sagdi: Fadir! í þínar hendur fel eg minn anda! í fyrra sinn hrópadi hann nýlega qveinandi: Gud minn! Gud minn! því hefir þú yfirgefid mig? nú hrópar hann litlu sídar til síns sama Guds og Fødurs: Fadir! í þínar hendur fel eg minn anda! Látum nú vora þánka, kristnir menn! nálægjast Jesú kroß, og lærum þar, oß til uppvakníngar, til huggunar, til eptirbreytnis af vorum deyjanda Jesú:

Hvørsu hvørr og einn fái med bestu trúnadar-trausti og verdugastri umhyggju fyrir sinni sálu, hneigt sídast høfudid og gefid upp andann.

Æ! Drottinn! kenn þú oss ad hugsa, ad vér hljótum ad deyja, svo vér forsjálir verdum! leid oss eptir þinu vísdóms- og miskunar-rádi! Amen.

Hvorgi sáum vér þvílíkt dæmi til huggunar, til upporfunar, til eptirbreytnis í trúnadar-traustinu á vorum Gudi og Fødur, svo sem í Jesú Píslar-søgu. Í Grasgardinum bad hann, en undirkastádi sig þó í øllu Fødursins vilja; hann fulltreysti honum til ad senda sér margar fylkingar Engla, ef hann ad eins vildi bidja um þær, já, í því Jesús hnegir høfudid og gefur upp andann á krossinum, hrópar hann: Fadir! í þínar hendur fel eg minn anda! O! hvílíkt trúnadar-traust! hladinn alls heimsins synda þúnga sundurflakandi af sárum, ígegnum hendur og fætur stúnginn med járngoddum, útþáninn á krossins smánarlega gálga, spottadur og smánadur af sínum qvølurum, af framhjá-farendum, já, af sjálfum ræníngjunum sér til beggja hlida, yfirgefinn af øllum, og, hvad þýngst var, yfirgefinn af sínum Gudi, fullkomnar Jesús þad verk, er Fadirinn fékk honum ad gjøra, fullkomnar þolinmódlega ad lída krossins sáru qvøl, en nú finnur hann lífsins

sins krapta ad þverra, nú vill hann sjálfkrafa leggja lífið af sér, og innsigla endurlausnarverkið með sínum dauða, og nú hrópar hann: Faðir! í þínar hendur fel eg minn anda! eptir alla þá sáru qvöl, er hann saklaus þoldi að vilja sins Guðs, sem þó hafði hann á krossinum yfirgéfið, heitir hann enn þá hans Faðir; í sjálfum andarslitrunum er hann hans Faðir, hans hjartkjæri og góði Faðir, í hvörs hendur Jesús lætur sér annt um að fela sinn anda; deyjandi finnur hann hjá sínum Guði og Föður sálu sinni best borgið; til hans eins setur hann nú, sem fyrri, allt sitt trúnaðar-traust, á þessu markverðasta augnabliki, við aðkomu hins kalda dauða, þessa náttúrlega óvinar lífsins, og við umskipti tímans og eilífðarinnar. Hvörsu þúnga hirtíngu, sem Guð hafði lagt á þenna sinn saklausa Son, hvörsu yfirgéfinn, sem Jesús í qvölinni þángað til var, fulltreystir hann nú Guði, sem ástríkum Föður, sem elski sig, af því hann þá var að géfa sitt líf út fyrir sauðina, og þar með fullkomna Föðursins vilja, og sem þess vegna meðtaka muni sinn anda, hvörn hann nú hneigir höfuðið til að géfa upp.

Grundvöllurinn til þessa Jesú óbifanlega trúnaðar-trausts, var hér einkum meðvitni hans samvitsku, ecki einúngis um sakleysi og flecklaust líférni, heldur og um trútt erfiði hans hér á jörðu í því kalli, til hvörs hann var af Föðurnum sendur í heiminn og í uppfyllíngu Föðursins vilja til mannanna frelsis; um svo trútt erfiði,

 að

ad Jesús gengur út í pínuna med því ad vitna sjálfur um þetta trúlyndi sitt, í hans minnisstædu bæn til Fødursins, segjandi: eg hefi auglýst þig á jørdu, og fullkomnad þad verk er þú fékkst mér ad gjøra, auglýs mig nú einninn, minn Fadir! med þeirri dírd er eg hafdi hjá sjálfum þér, ádur en heimurinn var til, Jóh. 17., og hángandi á krossinum vitnar hann aptur undir sitt andlát: þad er fullkomnad. Eckért hafdi hans samvitska nú til ad ásaka hann fyrir, en allt, sem gledja og hughreysta mátti undir bitrustu þjáníngum. Eckért var nú ógjort af því, sem Fadirinn baud, heldur allt fullkomnad; eckért því til, sem ógna edur ángra mætti Jesúm deyjandi framar; daudinn var honum nú eckért skélfilegur, þær bitrustu píslir vóru hjálidnar, Fadirinn forlíkadur, eilífdin gledifull og æskileg, sem umbuna átti hans trúa erfidi hér á jørdu, med óútmálanlegri dírd og sælu, þeirri sælu og dírd, sem Jesús hafdi í upphafi hjá sínum Fødur. O! hvørsu farsæll er ecki sá, sem eins og Jesús, má grundvalla allt sitt trúnadar-traust á sínum Gudi og Fødur, vegna medvitnis samvitskunnar, ad hann hafi trúlega erfidad í sínu kalli á jørdunni, og í øllu stundad ad gjøra Guds vilja, eptir síns Lausnara dæmi! hann, sem med Jesú þorir ad segja: þad er fullkomnad! þad verk er þú fecksst mér ad gjøra, minn Fadir! hefi eg fullkomnad! hann, sem jafnan ástundar ad hafa óskérdta samvitsku, bædi fyrir Gudi og

mønn-

mönnum; hann, sem vidfrægt hefir Guds dásemdir, auglýst og fullkomnad, eptir mætti, hans vilja hér á jordu, hann má gladvær og trúar-örugg ur mæta sérhvörju, er ad höndum ber, sé þad hatur eda áráſir vondra manna, fjár- eda virdínga-missir, spott eda smán, rógur eda lastmæli, sótt eda sjúkdómar, skortur eda neyd, sorg edur harmqvæli, þvi hann veit ad Gud er ætíd hans líknsamur Fadir, og er med Postulanum Páli þar um fullviss: ad mótlæting þessara tíma er, sem eckért ad reikna mót þeirri dírd, sem á honum mun opinberud verda, þessvegna er hann med gódu trausti í vanvirdíngum, í naudum, í þreyngíngum; vilji nockurr hann ásaka, á hann þann Gud og Födur ad, sem réttlætir, þann bródur Jesúm ad, sem dáinn er, góda samvitsku ad, sem sikrar honum sérhvört mótlæti, verndar hann mót ómildra árásum öflugar enn nockurr kopar-múr, vid hvörn þeir gömlu þó líkt hafa hennar forsvari; hann óttast ecki daudann, heldur metur hann sem ávinníng og fagnar honum, sem vini; hann óttast ecki eilífdina, þvi hún hefir honum eckért óttalegt, en mikid gledi- og sælu-fullt fyrirbúid; hann skélfist ei Gud, sem hegnara vondra verka í ókomnu lífi, þvi gód samvitska hefir rótfest og grundvallad sinn frid, sína innvortis ánægju og hugar-rósemi, sitt himnaríki í hans hjarta, sitt besta trúnadar-traust á Gudi, hvörn hann, jafnvel midt í þvi hann sýnast mætti af Gudi yfirgéfinn í þreyngíngunum, vogar, sem

Jesús, ad nefna sinn Fødur, og eins og hann ad bidja midt í harmqvælum daudans, midt í andarslitrunum: Fadir! í þínar hendur fel eg minn anda, já, med sama trúnadar-trausti til Guds og hans Meistari Jesús, má hann vid ad-for daudans vongladur hneigja sitt høfud og géfa upp andann. Ekkért fær því eins grund-vallad, ekkért géfid oss svo óbifanlegt trúnadar-traust til vors Guds og Fødurs, svo sem góð samvitska, þad trúnadar-traust, sem aldrei læt-ur vora ánægju raskast í nockurri neyd, heldur géfur oss jafnvel yndælastann forsmeck þeirra ó-vidjafnanlegu gæda, sem bída vor í komanda og betra lífi, þá, þegar daudinn bodar: gjør nú reikníngskap þinnar rádsmennsku! nú er mitt tíma-glas útrunnid, nú skaltú hneigja þitt høf-ud og géfa upp andann! med fagnandi hjarta fær þá hvorr einn, sem á þenna dýrmæta fésjód, tekid hans qvedju og sagt: Fadir! í þínar hend-ur fel eg minn anda. Hvorsu rósamt, vært og gledirikt er andlát þvílíks kristinns manns! hvorsu líkt Jesú ánægda vidskilnadi! í øllu sínu lífi hefir hann kostad kapps um ad finnast trúr í sinu kalli, og standi á jørdunni, trúr lærisveinn Jesú, hans bodordum trúr, trúr yfir því pundi, sem hans Gud og Fadir féck honum í hendur; hann hefir vardveitt trúna og góda samvitsku, þess-vegna ætíd mátt treysta Gudi, sem ástríkum Fødur í gledi og sorg, í medlæti og mótlæti, vitandi: ad þó vér lídum hér med Jesú, mun-um vér þar med honum dírdlegir verda,

ad

ad þetta skammvinna líf er stuttur reynslu-skóli, sem uppörfa skal hans dygd og kostgæfni, æfa hann í þolinmædi og oruggu trausti á Gudi, sannfæra um ad eins í sorg og neyd, sé Gud hans mildur og gódur Fadir, og hérvistar-tíminn honum einkanlega gésinn til egin og annara fullkomnunar, og undirbúníngs undir þá endalausu eilífd, hvar honum er geymd kórónа réttlætisins, uns hlaupid er fullþreytt hér á jordu. Fús skilur hann því vid heims-sins fánýta hégóma og háskalegu gladværdir, til ad medtaka eilífdarinnar umbun; hann veit ad daudinn ecki fljótar fær apturbyrgt hans augu og svipt hann sjónum á veraldarinnar fallvolltu fjársjódum, glisi og munadi, heldur enn hreinni, ædri og ótæmálanlegar gladværdir ens komanda betra lífs opnast honum, og sá fjársjódur afhendist, sem ecki má skémmast né rotna. Þó stuttur adskilnadur frá vinum og vanda-monnum, þó harmqvæli nockur breidi hrigd yfir og umkríng hans bana-sæng, full-treystir hann sínum Gudi og Fodur til ad láta þessa léttvægu hrigd snúast í fognud, láta sig í al-fognudi aptur finna sína ástvini, þeim fognudi, sem enginn skal af þeim taka, þeim fognudi, sem gud-hræddum fyrirbúinn er, en enginn daudlegur séck sér ímindad. Hughraustur sendir hann því sitt sídasta andvarp upp til himnanna Guds med Jesú, segjandi: Fadir! í þínar hendur fel eg minn anda, já, med sama trausti og Jesús, hnegir hann loksins sitt hofud og géfur upp andann.

 Svo

Svo rólegur dó vor Jesús á krossinum, svo rólegur má og hvorr og einn deyja, sem grundvallad hefir sitt trúnadar-traust til Guds, eins og hann, á gódri samvitsku, og lærir af enum deyjanda Jesú ad bera verdugasta umhyggju fyrir sinni sálu. Jesús var hreinn og flecklaus, gjordi enga synd, og flærd fannst engin í hans munni; hans líf allt vitnadi einúngis um hlýdni vid Gud og elsku til manna, hans ydja var ad upplýsa og betra manneskjur, gjøra øllum gott, en engum íllt, hans samvitska vard því ad vera hin allrabesta, hún mátti því best fá hans traust til Guds grundvallad, og hann fullþeckti sér fyrirbúna sælu eptir daudann hjá sínum Gudi og Fødur, þó lét hann sér annt um á krossinum med hárri roddu ad fela sinn anda í Fødursins hendur; fyrr vildi hann ecki hnegja sitt høfud og gefa upp andann, enn þessari umhyggju var aflokid, ecki fyrr enn hann kénnt hefdi mønnunum med sínu dæmi, hvorsu skyldugt þeim sé ad bera umhyggju fyrir sálunni allt fram í daudann, kénnt þeim, hvornin þeir verdugast fái þessa umhyggju borid, kénnt besta rádstøfun á sálunni, kénnt verdugasta andláts bæn, kénnt þeim á ný med sínu sídasta ordi á krossinum, þann ádur svo opt prédikada sannleika, ad líf sé til eptir þetta líf, og ad Gud sé hans Fadir. Þenna sannleika játadi hann oruggur, bædi í lífi og dauda; þann sannleika hrópar hann út af krossinum,

med þeim sídustu ordum hann taladi undir sinn dauda, segjandi: Fadir! í þínar hendur fel eg minn anda: med þenna sannleika í munn-inum innsiglar hann endurlausnar-verkid, med því strax ad hnegja sitt høfud og gefa upp andann. Um líkamans medferd í qvölinni og eptir sinn dauda, er honum eckert annt, hann vissi, ad þegar hann tæki sitt líf aptur á þrid-ja degi, mundi líkaminn forkláradur, heill og umm[i]ndadur úr grøfinni uppríſa; hann þeckti hann einn daudlegann, og, þvílíkann, sem hann var medan Jesús í holdinu umgeckst, einúng-is ætladann til ad umberast skamma stund, en sálina til ad lifa eilíflega, fyrir henni og henn-ar vardveitslu í Fødursins høndum bar hann því einkum umhyggju.

Hvorsu er þessi Jesú umhyggja fyrir sinni sálu ólík fjøldans umhyggju? því midur! hann, sem eckért óttast þurfti eptir daudann, hann, sem átti sér vissa óumrædilega dírd og sælu, og best hafdi grundvallad sitt trúnadar-traust til Guds á hreinustu samvitsku, hann lætur sér ecki úr minni lída, ádur enn hann í daudan-um hneigir sitt høfud, ad fela sinn anda í Fødursins hendur, en er áhyggjulaus um sinn líkama lidinn; múgur manna þarámóti ber litla edur enga umhyggju í lífinu fyrir sál-unni, en alla fyrir líkamanum, rétt eins og hann sé ódaudlegur, en salarinnar lífi sé med daudanum lokid; rétt eins og hér sé vort rétta føđurland, þar vér þó dveljum hér ad eins litla

 stund,

stund, sem gêstir og Pílagrímar, hvørra Borgar-réttur er á himnum. Margir verja allri sinni tíd, allri umhyggju og efnum og atburdum til líkamlegs munadar, til stollts, óhófs og lystínga, til prjáls og yfirlætis, til ad fegra med þessa fúa-mold, þetta visnandi gras-strá líkamann á manna-mótum, til ad gjøra hans útfør hefdarlega, erfis-dryckjuna ríkmannlega, leidid álitlegt, svo ad hid ytra sé allt prýdilegt þó innra sé allt vidurstygd; en hvørsu mikla alúd menn leggi á ad prýda sálina med nytsamlegri þeckíngu, med þeckíngunni á Gudi og hans vilja, á náttúrunni, á sjálfum sér og manna miklu skyldum, med leidréttíngu og skynugri stjórn viljans og skilníngar-vitanna, med dygdanna rækt og æfíngu, þad bid eg hvørn einn ad rannsaka, sem einhvørntíma vill gaumgæfa framferdi sitt og ydju, sem adgæta vill þad andvaraleysi og þá of-heimslegu, já, heimskulegu umhyggju, sem nú drottnar hjá mønnum. Nirfillinn og hinn ágjarni gjørir nætur ad døgum, og sofnar sjaldan værann blund fyrir áhyggju og búksorg, til ad géta bætt nockrum álnar-virdum vid sinn margra ára sjód, af hvørjum hann sjálfur tímir ecki ad njóta góds, og kénnir med mikilli umhyggju nidjum sínum somu hugsýki og atburdi, en þarámót veit og kénnir naumlega þad um Guds veru, verk og vilja, sem fái ad eins útvegad honum og þeim kristid nafn medal mannanna, undir hvørs yfirhylmíngu þeir lifad fái verr enn heidínglegu

lífi;

lífi; um sálarinnar ódaudlegleika og kjör eptir þetta skammvinna líf, láta menn sér allt minna hugad, edda fáum stundum til umhyggju fyrir henni, þeirra rædur og athafnir eru heiminum offradar, fyrir himninum halda þeir óþarfa fyrri ad hugsa, en hnegja skal sídast höfudid og géfa upp andann; eitt andvarp: Fadir! í þínar hendur fel eg minn anda, þykir þá nóg, þá er fyrst mál ad hugsa fyrir eilífdinni, þegar líkaminn er lagstur til fulls í bana-sængina, og getur ei af sér borid fyrir verkjum og qvöl, þegar rád-deild og skilníng þrýtur, og vér skulum út, en gröfin er gjör, en eilífdin med öllum sínum ógnunum er þegar upprunnin yfir vorum höfdum; og hvad nefni eg bana-sængina, ecki allir leggjast í hana ádur enn skilja vid, og færstum verdur hún hentugur undirbúníngs-stadur undir eilífdina, er þad nú þeim, sem enga umhyggju báru fyrir mentun- og betrun sálarinnar um allann undanfarinn aldur, aldrei logdu alúd á dygd, Guds ótta og góda samvitsku, heldur draga med sér ad þessu harma-bóli mikinn her ædra ránglætinga ásamt nagandi samvitsku, sem nú ógnar þeim, ad vonum, afmálar þeim eilífdarinnar, skelfilegu gjöld fyrir undanfarid illt athæfi og umhyggjuleysi fyrir sálunni, bannar þeim ad vænta sér huggunar framar af Gudi, sem þeirra Fodur, og ad deyja med grundvölludu trúnadar-trausti á hann, en býdur ad skelfast hann, sem réttlátann og reidann dómara; æ!

þessi

þessi nagandi samvitska vísar þá til launa og hlutdeildar med þeim fodur þeirra, hvörs girndum og vilja þeir í lífinu þjónad hafi, hennar nagandi ormur deyr ecki, og hún er sannkallad helvíti á jordu. Mun bana-sæng-in, segi eg, fyrst verda þvílíkum hentugur skóli? mun helsóttin, er geisar í líkamanum og gjor-ir sálina krapta- og dád-lausa undir eins, vegna þess náqvæma sambands, sem er á milli sálar og líkama, mun rænuleysid betur menta vora sálu, og bæta um fyrir allt illt umlidid, einn allur undanfarinn aldur, sem vér offrudum heiminum, en ecki Gudi? og margir hníga þó daglega undir eins í bana-sængina og grofina. Á einu augnabliki finna margir í sjó og í votn-um, úti á vídavángi voveiflega og brádqvadd-ir, já, midt í syndunum sómu bana-sæng og grof; þeim géfst opt ecki tóm til ad andvarpa: Fadir! aukheldur meir, fyrri enn þeir hljóta ad hnegja hofudid og géfa upp andann.

Hafi hinn heilagi og flecklausi Jesús fund-id sér svo verduga umhyggjuna fyrir sinni rétt-látu sálu; hafi hann á sakleysi í ollu sínu lífi og hreinni samvitsku grundvallad þad trúnad-ar-traust til Guds, med hvorju hann dey-jandi fól sinn anda í Fodursins hondur, mun þá ecki mál fyrir oss einhvorntíma ad bera nockra umhyggju fyrir vorri sálu, fyrri enn vér hana afhenda egum vid adkomu daudans? eda munum vér, med grundadri von og trún-adar-trausti, þora ad ávarpa þann, sem Fod-ur

ur í andlátinu, og vænta að hann þá vilji þeckja oss fyrir sín born, hvorn vér alla æsi hofum lagt svo litla alúð á að þeckja, hvors boð og vilja vér hofum svo litils virdt, við hvors födurlegri kollun vér hofum svo lángsamlega daufheyrst, fyrir hvors dómstóli vér með svo skélsdri og nagandi samvitsku mæta megum? mun líklegt að hann vilji heyra eitt, máské rænu- og þánka-laust Fodur-ávarp í því vér sídast hnegjum høfudið og géfum upp andann, hvors vér aldrei fyrri í alvoru leitudum, hvors roddu vér aldrei þángað til heyra vildum, heldur heimsins tælandi rodd? mun líklegt, að hann þá strax vilji innleida oss, vegna vors marklitla munn-flapurs, í sitt ríki, sem sagt hefir: þeir munu ei allir, sem til mín segja: Herra! Herra! inngánga í Guðs ríki, heldur þeir, sem gjøra Fødursins vilja? oss, sem allann vorn aldur hofum syndinni þjónað og heimsins vilja, ofþýngt vorri samvitsku með íllum athofnum, og þess vegna erum ei verdugir að nefnast born, né til að voga að nefna Guð vorn Fodur, og vænta að hann í sínar hendur medtaka vilji vorn anda, þegar þessi ecki lengur orkar að þjóna ránglætinu og yfirgéfur líkamann? mun líklegt að honum vel gédjist þetta ómannlega offur vorra fjorbrota, þegar oll undanfarin æsi er heiminum offrud? mun svo ólíklegt, að hann spyrja vilji þá, sem fyrst í andarslitrunum leita hans, sem Fodurs: sé eg ydar Faðir, hvar er þá

minn

minn' heidur? hvar hlýdni minna boðorda? hvört vitni bera ydar samvitskur? mun þá ei jafnframt ad óttast hans þúnga dóm: þér erud af födurnum fjanda — aldrei þeckti eg ydur, farid frá mér allir íllgjørda-menn? œ! ef vér viljum med grundvølludu trúnadar-trausti géta ávarpad Gud, sem vorn Fødur i andlátinu, þá lærum af Jesú, kristnir menn! med fúsri hlýdni vid vilja vors himneska Fødurs, med trúrri fullkomnun þess verks, er hann baud oss ad framqvæma hér á jørdu, med dygd og rádvendni og verdugri umhyggju fyrir vorri sálu alla æfi, i einu ordi: med óflekkadri samvitsku ad gjøra oss verduga hans nádar, svo ad hann þeckja vilji oss fyrir sín børn, heyra vort Fødur-ávarp, og loksins medtaka vorar sálir i sínar miskunar hendur, þegar vér skulum leysast hér frá, hnegja sídast vor høfud og gefa upp vorn anda. Já, lærum af Jesú ad bera verduguustu umhyggju fyrir vorri sálu. Hann lét sér jafnan hugfast síns Guds og Fødurs ord og hans vilja; hann var ydugleaa og nóttum saman á bænum til síns himneska Fødurs; hann bad innilega ádur enn hann gèck út til sinnar pínu; bad ákaflega i Grasgardinum; bad ljúflyndur sínum óvinum vægdar á krossinum; já, bad allra sídast og hrópadi hárri roddu: Fadir! i þínar hendur fel eg minn anda. Látum oss því offra vort líf, eins og hann, ecki heimsins lyst og vilja, heldur vorum himneska Fødur; verum

um ei lengur svo ránglátir, svo hatursfullir vid vora sálu, ad verja litilli edur engri umhyggju til hennar velferla, en allri þarámót til líkamlegs munadar; verjum ei vorri bestu tíd og kroptum og efnum til heidínglegrar og syndugrar hugsýki fyrir þessum moldarseck, sem um skammt skal aptur til jardarinnar hníga, af hvorri hann upprunninn er, né ætlum ad eins sídustu fjorbrot vors lífs til umhyggju þeirrar sálar, sem ecki deyr, þó líkaminn rotni, og sem eilíf gjøld skal uppskéra í ókomnu lífi af því, sem vér med vorum athofnum sádum nidur hér, en lærum þarámót ad leita Guds ríkis og hans réttlætis, ad taka framforum í dygd og Guds ótta, ad betrast og upplýsast æ meir og framar, og ástunda jafnan ad hafa óskérdta og hreina samvitsku fyrir Gudi og monnum. Hafi Gud kostad svo miklu til vors frelsis og upplýsíngar, ad hann gaf í daudann sinn eingétinn Son fyrir oss, þá er skyldt ad vér helgum honum til þjónustu, ecki einúngis hruma og dádlausa elli, ecki einúngis vor sídustu andvarp, heldur alla vora æfi, og segjum med Skáldinu: allt mitt líf skal þjóna þér, þar til, bid eg, hjálpa þú mér! þá megum vér hughraustir, sem vor Jesús, taka oss hans andláts bæn í munn og andvarpa: Fadir! í þínar hendur fel eg minn anda, já, sigri hrósandi, sem hann, eptir farsællega vendad strid, hnegja sídast vort høfud og gefa upp andann. Sálir réttlátra eru í

Guds

Guds hendi, og engin pína snertir þær; segir hinn Vísi, Spek. b. 3.; þángad vildi og vor deyjandi Jesús fela sína sálu, þar og hvørgi annarstadar fann hann henni vel borgid. Oss skal heldur aldrei úr minni lída, ad fyrir sérhvørjum af oss liggur ad rádstafa vorri sálu, ádur enn um hann verdur sagt: hann hneigdi høfudid og gaf upp andann, vér skulum því kosta kapps um ad hreinsa vora samvitsku af daudum verkum, og á medan vér lifum deyja syndunum en lifa réttlætinu, svo vér loksins megum med Símeóni í fridi fara, deyja réttlátra manna dauda, og vor endir verda eins og hinna gódu, eins og Jesú. Æ! fyrir hans réttlætis sakir virdstú, himneski Fadir! ad heyra vor sídustu andvorp, med hvørjum vér, sem hann, felum vorar sálir í þínar Fødur-høndur! já, virdstú ad senda þinn frid í vor deyjandi hjørtu, svo ad vér vongladir og hughraustir, sem Jesús, loksins hnegja mættum vor høfud og til þín géfa upp vorn anda! Amen.

## Sjøunda Midvikudags Føstu-Predikun.

Vissulega hefir þessi réttlátur madur verid og Guds Sonur; svo hljódadi nú

nú vitnisburdur Hundrads-hofdíngjans, sem vér af uppleſnum ſjöunda parti Jeſú Píſlar-ſögu, heyrdum ad ſtód gégnt Jeſú kroſſi, þegar hann heyrdi þeſſa ſídaſta andvarp: Fadir! í þínar hendur fel eg minn anda, og ſá þau miklu undur, er ſkédu vid hans andlát. Hundrads-hofdínginn, þeſſi Fulltrúi Landsſtjörnarans Pílati, ſem med undirhafandi ſtrídsmönnum veita átti fullnuſtu þeim gengna blóddómi yfir Jeſú, og hvörs vitnisburd Pilatus litlu ſídar krafdi um fullviſſu Jeſú dauda, þeſſi, ſegi eg, ſannfæriſt nú allt í einu um ſakleyſi og perſónu Jeſú; hann tekur nú til ad íhuga hans umlidna líf, hans þolinmódu lídun, hans ljúflyndi vid ſína óvini eins á ſjálfum kroſſinum, hans undirbúníng undir daudann, hans dáſamlega dauda med minnis-ſtædustu undrum, og nú ljúkaſt lokſins hans augu upp, nú dæmir hann ſtrax, ad ſá hafi rétt-látur madur verid, ſem ſvo gódur og laſt-var lifdi, og ſvo dírdlegur dó, já, ſé Guds Sonur, enn þótt Gydíngar gjora vildu hans egin játníngu um þetta ad gudlaſti, ad óbótamáli, ad dauda-ſok. Sem heidinn madur hefir hann máſké þenkt, ad hann væri af Godunum kominn, eitthvört Goda-afqvæmid, eins og heidnir menn gjordu ſér í lund ad til væru, en hvorninn ſem því er varid, er þad augljóſt ad heidíngjar viſſu ecki af ædra Gudi ad ſegja, enn þeim er þeir dýrkudu, og ad þeir þeſſ vegna undir ýmislegum ímindunum dýrkudu


hann

þann ædsta og sanna Gud, án þess ad þeckja hann, þegar þeir tileinkudu afgudum sínum þá eginlegleika, sem einúngis finnast hjá þeim einá og sanna Gudi, af hvorjum þeir eckert vissu; þad er því og augljóst, ad Hundrads-höfd-ínginn, med því ad játa Jesúm réttlátann mann og Guds Son, eckert ágjætara, eckert heilagra, eckért ædra gat um hann vitnad, eptir sínni vitund og óskíru þeckíngu. Hann hefir jafnvel nú, þó ecki væri fyrri, mátt leidast til þeckíngar og sannfæríngar um Jesú lærdóms dýrmæti, um líf eptir þetta líf, um heill og ófarir annars heims; því mundi, mátti hann nú hugsa, þéssi gódi og saklausi, þessi upplýsti og réttláti madur, sem med dásömum kraptaverkum hefir í lífinu sannad sinn lærdóm og guddómlega uppruna, og med undrum í andlátinu, því mundi hann á krossinum bidja sínum óvinum vægdar, taka til nádar deyjandi glæpamann, fela sína sálu í Fodursins hendur, væri ei þessi hans Fadir ódaudlegur Gud, væri ei líf eptir þetta líf, væri ei neinna launa ad vænta, né gjöld ad óttast eptir daudann, hvad þessi réttláti, upplýsti og af Gudi upprunni madur allt hefir fullþeckt? í lífi og í dauda hefir hann játad sig ad vera Guds Son, nú stadfestir himin og jord þenna sannleika vid hans andlát, med óheyrdum og ádur dæmalausum undrum vid lát nockurs daudlegs. Þessi undur stadfesta og sannleikann djúpt í Hundradshöfdíngjans sálu, þau fylla hann heilagri undr-

un

un og sannfæríngu um sakleysi og persónu þess deyjanda Jesú, já, fyllá hann innilegum fögnudi yfir þessari sannfæríngu; heilög lotníng gagntekur svo hans hjarta, ad hann samstundis prísar Gud og vitnar hátt til þess dána Jesú heidurs: víssulega hefir þessi réttlátur madur verid og Guds Sonur; allt fólkid undirtekur strax sama vitnisburd, med sömu fullvissu, þad ber sér á brjóst og heldur furdandi, hissa, skélkad, sannfært heim.

Markverdur er þessi Hundrads-höfdíngjans vitnisburdur, kristnir menn! já, svo markverdur, ad eg nú vil láta hann vera mitt umtals-efni á þessum sídasta Föstu-Midvikudegi; þess vegna minna ydur á og streka nockur þau atridi í Jesú Píslar-sögu, sem sannfæra máttu jafnvel heidinn mann um, ad Jesús hafi réttlátur madur verid og Guds Sónur; atridi, sem undir eins skulu leida ydur fyrir sjónir til eptirdæmis og huggunar:

I. Jesúm ljúflyndann lídandi,

II. Jesúm dásamlegann deyjandi.

Drottinn! kénn mér ad kunngjöra þitt hjálprædi medal þíns fólks, og send oss þinn góda Anda, sem leidi oss í allañ sañleika! Amen.

Þegar eg fer ad minna ydur, kristnir menn! á nockur atridi í Jesú Píslar-sögu, sem leida skulu ydur fyrir sjónir Jesúm ljúflyndann lídandi; atridi, sem sannfæra máttu Hundrads-

ads-höfdíngjann um, ad Jesús hafi réttlátur madur verid, þarf ecki hér ad réttlæta hans orda-tiltæki um manninn Jesúm, því ydur er fullkunnugt, ad Jesús einúngis leid, sem madur, já, ad allri hegdun fundinn madur, ecki sem Gud, því hvad má ama ad þeim alleina sæla og óendanlega? hvad rasta fullsælu ens óumbreytanlega? hvor holdleg píst hjá andanna Fodur? hvad leggja hinn alvalda, ódaudlega og eilífa undir veikra og syndugra mannsképna fjörrád, ellegar í daudans dupt? svo víst, sem þad því er, ad Jesú gétnadur, fædíng, líf og kénníngar, Jesú guddómlegu almættis- og kraptaverk jafnvel vid byrjun hans pínu og Jesú daudi, vottudu augljóst fyrir öllum ad hann Guds Sonur var, svo víst er og þad, ad hann einúngis leid, sem madur, alla sína qvöl og krossins dauda, já, ad Hundrads-höfdíngjans og vor allra vitni, sem saklaus og réttlátur madur. Mannsins Jesú dæmi í hans sáru qvöl, skal því vera verdugast dæmi til eptirbreytnis oss manneskjum, sem allmargir stundum bergja megum á nockrum sorga og hörmúnga kaleik í voru lífi, máské þola ofund, hatur, álygar og adkost af vondum mönnum, eins og hann, máské heiptuga medferd af ómildum fyrir gott, þó í lángtum minni mælir enn Jesús, hvors merki vér þó svarid höfum ad fylgja. Æ! til þess ad þeckja ad Jesús hafi réttlátur madur verid, þurfum vér einúngis ad íhuga hans ljúflyndi lídandi. Nennum þá vorum huga

huga til þessa í hans pínu yfir höfud og eink-
anlega vid vini hans og óvini.

Hvörsu hann í Grasgardinum vid byrjun
pínunnar vottadi sitt ljúflyndi í bæninni til
síns himneska Fodurs, og í öllu lagdi sig fús-
lega undir hans vilja, med því ljúflyndi, þeirri
þolinmædi og því stöduglyndi, sem gód sam-
vitska edur medvitund síns sakleysis og fulltraust
á sínum Gudi og Fodur einúngis má gëfa, þad
heyrdum vër undanfarinn fyrsta Föstu-mid-
vikudag, og á nærstlidnum Midvikudegi, hvörsu
hann endadi pínuna med því sama ljúflyndi
og trúnadar-trausti á þeim Gudi og Fodur,
hvörjum hann deyjandi fól sinn anda á hend-
ur; hvörsu þolinmódlega hann alltaf umbar
alla smán og vanvirdu, hráka, pústra, högg,
húdstroku, þyrni-krýníngu og sjálfa krossfest-
ínguna, vottar oss einninn öll Píslar-sagan;
eckért mögl, enga óþolinmædi, eckért vantraust
á Gudi sínum Fodur lét hann nockru sinni í
ljósi, enga tilraun ad forda edur skjóta sër und-
an ad súpa þann qvalanna kaleik í botn, er
hann þeckti ad sër réttann af Fodurnum, í stuttu
máli: á honum rættist náqvæmlega spádómur
Esajæ 53., þegar hann var straffadur og
píndur, lauk hann ei sínum munni upp, líka
sem lamb þad til dráps er leidt, eins og
saudur, er þegir fyrir þeim, er hann klipp-
ir, og lýkur ei upp sínum munni.

Viljum vër sannfæraſt um Jesú ljúflyndi
í pínunni vid sína vini og þanninn um þad,

ad hann hafi réttlátur madur verid, minn- umst þá fyrst hans advorunar til sinna læri- sveina vid upphaf pínunnar, og einkanlega til Péturs, hvors breiskleika hann svo vel þeckti; hans ljúfljndu áminnínga, þegar hann aptur og aptur fann þá sofandi, þegar þeir hellst áttu ad vaka; hans umhyggju fyrir læriſveinanna frelsi, hans sannfærandi tillits til ens fallna Pét- urs, hvar um nockud er ad fornu talad, já, hans ljúflyndu advorunar til sins eginn svik- ara Júdasar, í því hann forrædur Jesúm: vin- ur! segir hann, til hvørs ertú kominn? Júdas! svíkur þú mannsins son med kossi? enn þá var Júdas hans vinur, enn gésur Jesús hon- um í þessu ávarpi þá mannelskufyllstu, þá mest ljúflyndu advorun, ad eg meina, þessa efnis: þú, sem ert minn vinur, hvorn eg elska, og sem átt ad elska mig, til hvors íllrædis ertú híng- ad útgénginn? gádu þín, Júdas! ertú, þú minn eginn lærisveinn og vinur sá, sem med vélum og vináttu merki, med kossi svíkur mig nú? mig, sem nú ecki framar vil brúka neinn gud- dóms krapt, til ad gjora þín svikrád og þinna fylgjara ad engu, heldur sem manneskja, fædd af manni, sem manns sonur, en ei sem óvinn- anlegur Gud, falla fyrir þínum svikrádum í syndugra hendur? med einu almættis ordi: eg er hann, sló eg þér og þínum skara flotum til jardar nú samstundis, eg leid yckur ad rísa á fætur aptur, og nú, þegar eg ei lengur vil brúka sama almætti gégn yckur, heldur lída sem

mad-

madur ad vilja míns Fodurs, nú hikar þú samt ecki vid ad svíkja þinn Meistara og vin!

O! hvorsu mátti ei þetta Jesú blída og ljúflynda ávarp þreyngjast inní svikarans hjarta, og fylla þad undir eins trega og smán fyrir þessa stórnudu óhæfu, hefdi þad ei verid af samvitskulausri síku eptir skammarlegasta ávinníngi svo hardstockad og blindad, ad þad midt í óhæfunni einkis matti þess blída og ljúflynda Meistara Jesú elskuríku advorun! o! hvorsu ólíkt vottadi sig hér Jesú mannkjærlega ljúflyndi flestra vor óbilgjarna og heiptræka sinni! vér stöndumst ei reidari, enn ef einhvor óss óvildkomandi litur óhýrt vid oss, veitir oss minni sóma og lotníngu enn vor metnadur girnist, gleymir einhvorntíma í ordi, verki eda atlotum nockru af þeirri þacklátsemi, er oss þykir skyld, sýnir oss einhvorja lítilsjorlega ótrygd edur óhollustu; strax brennur vort hjarta af hatri, af hefndargirni, af laungun ad sjá þenna óþackláta smánadann, straffadann, mótlættann; o! hvorsu fjarstædt þó Jesú ljúflyndis dæmi, sem ávarpar sinn eginn lærisvein, í því hann gjörist hans svikari, med ástúdlegu vinar-nafni! hvorsu ólík vor umhyggja, vor ræckt og vor trúfesti vid þá, er vér nefnum vora vini og vandamenn á medan allt leikur í lyndi, og vér sjálfir hofum þeirra vináttu-, þjónustu- og skyldsemis-not, hvorsu er þetta ólíkt, segi eg, Jesú trygd og rækt til sinna? vér metum þessar skyldur vorar optastnær eptir eginn ardi edur venju, og látum einatt rækt og trygd

 sok-

lokid vid vandamenn og vini, þegar neydin þreyngir ad þeim, og ef lítils endurgjalds er ad vænta hér í tímanum; þá finnum vér mest og best til vors egin gagns en ei til annara þarfa; þá vottum vér ljósast vort vinsengis edli, þegar í þörf skal vinar leita; þá sendum vér einatt frá oss vininn, náúngann, dyggva þjóninn med lítilli edur engri ásjá, þó hæglega veitt gætum, nema máské med hræsnadri samsorg og henni sambodnum, ónýtum og hjálparlausum óskum; Jesús þarámót ávarpar sinn lærisvein, í því hann er af honum seldur í daudann, med blídu vinarnafni, og varar hann vid þeirri óhæfu hann sér þá ad fremja; leiddur út til aftökustadarins til qvala-fullrar krossfestíngar, hræríst hann miklu framar af sorg fólksins og qvennanna, er fylgdu honum úr Jerúsalem, grétu og aumkudu hann, enn af þáverandi eymdar-hag sínum, snýr sér til þeirra og áminnir þær med venjulegu ljúflyndi, ad gráta ecki yfir sér; já hángandi á krossinum gleymir hann ecki, midt í þeirri sárustu qvöl, sinni munadarlausu módur vid krossinn, heldur lætur sér umhuggd, ad fela hana á hendur sínum elskada Jóhanni, hvors vinsengi hann nú í heiminum best mátti treysta, hvors rækt og dygd til sín hann fullþeckti, hvorn hann og nú til skilnadar gaf sinni módur til adstodar. Æ! þessi og öll önnur ljúflyndis dæmi vors lídanda Jesú, vid sína vini, skulu jafnan vera oss hugföst, kristnir menn! skulu vera oss regla til eptirbreytnis í voru lífi, skulu sannfæra oss

med

med Hundrads-hofdíngjanum þar um, ad Jesús hafi vissulega réttlátur madur verid!

En — verdskuldi öll ádurtalin ljúflyndis dæmi Jesú lídandi, bædi í sjálfri qvölinni og vid ástvini hans vora undrun og eptirbreytni, sem nú hefi eg ávikid; hvörsu mætti þá ecki hans ást og ljúflyndi vid óvinina hræra oss enn framar til undrunar, til eptirbreytnis, og til vidurkénníngar, ad Jesús var réttlátur madur! Jesús gengur á móti óvinum sínum í Grasgardinum, segir þeim til sín, og med einu: eg er hann, kollvarpar þeim, til ad sýna hvörsu lítid þeir megnudu, vildi hann ad eins hindra þeirra áform, en — hann lætur þá ecki lengi fallna liggja, hann lídur þeim enn ad rísa á fætur, segir þeim enn til sín og lídur þeim ad handtaka sig; hann talar ljúft til þeirra og tekur vægdarsamlega á þeirra fyrirtæki; þér hafid, segir hann, ecki fyrri lagt hendur á mig, þó eg daglega sæti hjá ydur í musterinu og kénndi, en þetta er ydar tími og makt ydar blindnis, svo ad ritníngarnar uppfyllist. Þegar enn Pétur hefir sverdi ryckt og snidid eyrad af þénaranum Malchusi, ávítar Jesús hann og segir: sverdid í slídrin! — því svona hlýtur ad ské; skal eg ei drecka þann kaleik, sem Fadirinn gaf? og til óvinanna segir hann, í því hann áhrærir Malchusar eyra, Lúc. 22.: leyfid einúngis svo mikid! nefnilega: ad lækna þad, sem vildi hann sagt hafa: eg bid

ecki um mína lausn, ecki um rádrúm til verndar mér, en til skada yckur, heldur leyfid mér ad eins svo mikid, sem ad snerta og lækna þad eyra á yckar þénara, sem minn læri-sveinn í brádrædi afsneid, þad skal vera þad frekasta, sem eg bid yckur um! hvílík hógværd! hvílíkt dæmalaust ljúflyndi! ad vera umkríngdur dauðans ógnunum, ad vera í óvina höndum og sem í fjötrum, og þó láta sér meira annt um ad lækna eyra-sár á fjandmanni sínum, veitt í brádrædi af einum sínum fylgjara, heldur enn um eigid frelsi! Malchus var útgenginn med vopnum til ad grípa og fjötra Jesúm, en Jesús bidur nú óvinina einúngis um leyfi ad lækna á honum þenna verdskuldada áverka. Til ad græda en ecki ad særa jafnvel þenna sinn fjandmann, er Jesús hér enn þá útgenginn. O! þetta minnisstæda Jesú ljúflyndi! þenna vott ad hann réttlátur madur var!

Saklaus verdur Jesús Kinnhesti lostinn, og sannfærir þann er sló, um sakleysi sitt, undir eins og um þenna illverknad. Hann verdur hæddur, hræktur, hoggum laminn, háduglega medfarinn, húdstrýktur, þyrni-krýndur, galli dryckjadur, krossfestur, en lýkur þó aldrei upp sínum munni óvinunum til ama, þegir vid öllum fals-vottum og lognum ákjærum, vid öllu krossfestíngar hrópi, og svarar med hógværd og ljúflyndi stuttlega, þegar Kaiphas og Pilatus spyrja um kénníngu hans og persónu, já, ásekir ecki sinn Dómara, heldur afsakar

sig-

segjandi: eckert vald hefdir þú yfir mér, væri þér ei gèfid þad hér ad ofan, því er þess fynd meiri, er seldi mig þér.

Hvörsu sögur og lærdóms-rík eru ei oll þessi Jesú mannelsku- og ljúflyndis-dæmi vid óvini sína í qvolunni! hvörsu sannfærandi um, ad hann réttlátur madur var! hvörsu verdug eptirdæmi oss kristnum í breytni vid óvini vora, en þó, hvörsu ólík oss, er svo margir, því midur! berum úlfbúd og hatur til þeirra, er vér álitum, nefnum eda þykjumst reyna ad séu vorir ofundar- eda haturs-menn! Jesús ávítar ecki sína qvalara og áklagendur, ecki ljúgvottana gégn sér, hann umber þolinmódlega sérhvorja vanvirdu og smán og hædni, sérhvorja álögi, högg og alla miskunarlausustu medferd; hann þegir lengst af, er hann vel vissi, hvörsu litid hans eins afbotun gylda mundi fyrir þessum blindada og ólma skara, en gaf sitt málefni í vald þess Guds, sem rétt dæmir; nýlega stúnginn ígégnum hendur og fætur med stórum járngoddum, lýkur hann á krossinum upp sínum deyjanda munni, en til hvörs? máské til ad veina af ofraun qvalanna; máské til ad formæla sínum óvinum; máské til ad bjóda jordunni ad uppsvelgja þessa skálka? ónei! — til ad bidja þeim líknar og miskunar hjá sínum Födur upplýkur hann sínum blessada munni; Fadir! segir hann, fyrirgéf þeim, þvíad þeir vita ei hvad þeir gjöra! þessum qvölurum, sem án afláts juku honum

megn-

méginustu pínslir, sem hæddu og hræktu hann í bøndunum, sem bríxludu og skóku hösud sín ad honum á krossinum, þeim bidur nú sá ljúflyndi og réttláti madur Jesús vægdar á krossinum deyjandi! sjarstædt var þad hans ást og ljúflyndi ad bidja óvinum sínum hefndar, því hann leid fyrir alla, svo ad allir mættu fyrir hans benjar heilbrygdir verda; hann forlíkadi fyrir alla, svo allir mættu nú hans vegna hafa frid vid Gud; hann dó fyrir alla, svo ad allir mættu fyrir hann ødlast eilíft líf og sáluhjálp; jafnvel ødrum þeirra óbótamanna, sem med honum krossfestir vóru, og ad vitni Gudspjallamannanna Matthæí og Marcí bádir forsmádu og spottudu hann allt fram í daudann, fyrirgéfur hann ódara enn þessi ræníngi á krossinum ydrast, ávítar hins ræníngjans lastmæli gégn Jesú, vitnar um hans réttláta framferdi, og tekur til ad huysa lengra fram í veginn fyrir sér, tekur ad óttast Gud, sem reidann hegnara vondra verka, sjálfur dreginn ad daudans dyrum; já, ódara enn ræníngjinn hefir út-talad: Drottinn! minnstú mín, er þú kémur í ríki þitt! andsvarar sá ljúflyndi og réttláti Jesús: sannlega skalt þú í dag vera med mér í Paradís!

O! þessi blessudu, þessi eptirbreytnisverdustu, þessi huggunar-ríkustu dæmi! þessar dýrmætu reglur fyrir vora breytni vid óvini! Jesús bidur qvølurum sínum vægdar á krossinum; vér megum því ecki hata vora ofsækjend-

jendur og haturs-menn, ecki bidja þeim hefnd-ar, ecki formæla þeim; Jesús affakar þeirra illverk, er hann qvoldu: þeir vita ecki hvad þeir giøra, segir hann. Vér megum því ecki hallmæla vorum óvinum, ecki fordæma þá, né Jesú óvini, hvorjum hann sjálfur hefir eitt sinn fyrirgéfid og vægdar bedid, fyrir hvorja hann dáinn er, og um hvorja hann sjálfur vitnad hefir: þeir vita ecki hvad þeir gjøra. Jesús tekur ydrandi óbóta-mann til nádar, sem all-ann sinn aldur hefir í illskunni alid, og á sjálf-um krossinum spottad hinn réttláta og ljúf-lynda Jesúm; æ! hvorninn megum vér þá synja vorum sjandmonnum forlíkunar vid oss, eda fyrirgéfníngar á mótgjordum? hvorninn fáum vér þá nockurntíma efast um Guds nád fyrir oss, edur fyrir nockurn glæpamann, hvors hugarfar í sjálfum daudanum er oss hulid, hjá hvorjum Gud, med oss óþecktum hætti, verka kann sanna yfirbót, og um hvors sálar-heillir hann aldrei gaf oss blindum og fárádum manna-sképnum nockurt vald til ad dæma? Því hvorr og einn hefir nóg med sina egin byrdi; hvorr og einn stendur og fellur sínum Herra; hvorr og einn mun kallast fram fyrir Jesú dómstól, Róm. 14., þess Jesú, sem baud: fordæmid ecki; hvorr og einn varist því þá frekju, ad takmarka nád og miskun vors Guds, eptir vorum skammsýna og opt illviljada hugþótta, en minnist þess, er Jesús sagdi vid Pharísæ-ana: vissud þér hvad væri: á miskun hefi

eg

eg þóckñum, en ei á óffri, hèfdud þèr ecki saklausa fordœmt, Matth. 12.

Þanninn hofum vèr af nockrum atridum í Jesú Píslar-søgu mátt læra ad þeckja Jesúm ljúflyndann lídandi og med Hundrads-høfdingjanum mátt sanna: vissulega var hann rèttlátur madur!, nú skulum vèr og sannfæraſt um, ad Jesús eins vissulega var Guds Sonur, þegar vèr yfirvegum hann dásamlegann deyjandi. Látum oſs nú í þessu, tilliti gánga framhjá hans tveimur dásemdar-verkum í Grasgardinum, en lítum eingungis til hans hángandi á krossinum, deyjandi á krossinum!

Jesús andvarpar, já, hrópar hátt: Gud minn! Gud minn! því hefir þú yfirgèfid mig? og sólin hafdi þá um 3 heilar stundir miſt sitt skin, en myrkur dregid yfir allt landid. Þessa formyrkvun sólarinnar á medan Jesús á krossinum píndiſt, og nærsellt í 3 heilar stundir edur fullá eykt fyrir þetta hans ángistar hróp, má því befanlegar telja med þeim mørgu dásemdar-verkum, med hverjum Gud auglýsti allri verøldu, ad þessi lídandi Jesús væri rèttlátur madur og Guds Sonur, og gjørdi hann þanninn dásamlegann deyjandi, því befanlegar, segi eg, sem stjørnu-fródir menn hafa med gløggustu reikningum sýnt og sannad, ad þessi sólar formyrkvan skèd hafi gagnstædt náttúrunnar edli, nefnilega, í fullu túngli, sem annars náttúrlega aldrei skèdur, nema í nýju. Jesús ſègir vort lausnar-gjald og sína

pínu fullkomnad, hrópar og felur sinn anda í Födursins hendur, og undir eins rifnar Musteris-tjald Gydínganna sundur frá ofanverdu og nidur úr, jördin skélfur, björgin klofna, grasir framlidinna ljúkast upp, margir daudir rísa upp og birtast í Jerúsalem; hvorn dauda má dásamlegann nefna ef ecki þenna? Jesús lídur, og sólin sortnar, Jesús deyr, og jördin skélfur og björgin klofna og grafirnar ljúkast upp; Jesús deyr, og daudir rísa undir eins upp til ad gjöra hans dauda ásamt þeim lifandi, dásamlegann; Jesús deyr, og tjald Gydínganna Musteris rifnar, nádin er öllum frambodin, opinn vegur fyrir alla til Guds, Jesús dáinn til forlíkunar fyrir alla; Jesús felur sinn anda í Födursins hondur og deyr, og Hundrads-hofdínginn, sem heyrdi hann svo kalla, svo fela sinn anda í Födursins hondur, þá hann lètst, sannfærist nú, þegar hann samanber allt hans líf, öll atridi hans pínu, öll undurin vid hans dauda, vid þessa hans andláts-bæn, allt í einu um þad, ad Jesús hafi rèttlátur madur verid og Guds Sonur. Því skyldi hann, mátti Hundrads-hofdínginn nú huasa, fela sig og sinn anda ödrum á vald enn Gudi? nú sèr hann sig þó Födurnum; æ! þessi hans Fadir má vera hans Gud, sá einasti og besti Gud, sem hann þeckir, og hvörjum hann fulltreystir, eins nú dásamlega deyjandi og í öllu sínu flecklausa lífi; nú hefir og þessi hans Fadir og Gud med svo miklum undrum gjört þenna

sinn

sinn Son dásamlegann deyjandi, og vottadi, ad hann hafi verid saklaus, já, réttlátur madur og Guds Sonur, og nú prísar Hundrads-hofdínginn þenna Gud, og vitnar hátt fyrir öllum: vissulega hefir þessi réttlátur madur verid og Guds Sonur! hann, sem nú framqvæmt hafdi á Jesú dauda-dóminn med sínum stridsmönnum, og ad vitni Matthæi 27., átti med þeim ad vardveita Jesúm; hann, sem líklega hefir fyllt flock þeirra yfir- og undir-manna, er stódu hjá og gengu framhjá, skóku höfud sín, hæddu og spottudu Jesúm á krossinum, hann verdur nú allt í einu sannfærdur um þetta fullframda ránglæti, um sakleysi Jesú, um persónu Jesú; nú verdur hann óttasleginn vegna þessa illvirkis, nú metur hann einkis Oldúnganna og Hofdíngjanna og lýdsins óblídu, er svo ákaft framfylgdu lífláti Jesú, en gefur Gudi dýrdina og vitnar hátt fyrir þeim og öllu fólki: vissulega hefir þessi réttlátur madur verid og Guds Sonur! og fólkid er hjá stód og horfdi á, er svo fjarlægt því ad þyckja þennann Hundrads-hofdíngans vitnisburd, ad þad í sama vetfángi hættir öllu brixli, spotti, lastmæli gégn Jesú, og undirtekur hátt med Hundrads-hofdíngjanum: sannarléga var þessi Guds Sonur! já, allir berja sér á brjóst, snúa nú sínum augum frá þessari óttalegu skodun, og halda skelkadir og undrandi heim; fjöldi af dásemdum gudlegs kraptar á sólu og jördu og musteri og gröfum og lík-

þínum dauðra, sem nú rísu upp við almættis krapt þess eina og sanna Guðs, sem af dauðanum kann að lífga, gagntekur svo allra áhjáenda hjörtu og fyllir þau svo furðun og skelfingu, að þeir berja sér á brjóst, snúa burt aptur og segja: sannarlega var þessi Guðs Sonur!

Hvað virðist yður nú, kristnir menn! var ekki yðar Lausnari Jesús næsta dásamlegur þanninn deyjandi? var hér nú ekki allt samtaka, vinir og óvinir, lifandi og dauðir, himintúngl og jörð, helgidómurinn og qvalastaðurinn, já, samferða Hundraðs-höfðingjanum með vitnisburðinn, að Jesús vissulega var réttlátur maður og Guðs Sonur? Ó! þessar miklu dásemdir við vors Lausnara dauða! o! huggun yfir alla huggun, að Jesús vissulega var réttlátur maður og Guðs Sonur! o! hvörsu dýrmæt er nú hans friðþæging og fyrirbón, hjá þeim Guði vorum og Föður, sem auglýsti þanninn sinn Son svo dásamlegann deyjandi! hvílíkt mun hans veldi og máttur og vegsemd nú með Guði Föður ríkjandi, sem svo var dásamlegur deyjandi! hvörsu mun sú sæla og unaðsemd verða hans trúlyndu bræðrum og þjónum óútmálanleg og yfirgnæfandi, sem Sonur Guðs, sá réttláti maður Jesús kostaði lífinu til að afreka oss og innsiglaði svo dásamlega deyjandi!

Æ! prísið nú Guð, þér hans kristnir! sem heyrt hafið af Jesú Píslar-sögu ell áður sögð dæmi uppá ljúflyndi hans líðandi, uppá dásemd hans deyjandi! prísið nú Guð, og tak-

takid undir með Hundrads-hofdíngjanum og sjónar-vottum Jesú dauda, segjandi: vissulega hefir þessi réttlátur madur verid og Guds Sonur! Þad skal ydar æfinleg heill og huggun í sorg og í gledi, í vansemd og vegsemd, í lífi og dauda, í tíma og eilífd, ad hann hvorutveggja var! En — egi þó Jesú pína og dásamlegi daudi ad veita ydur sannarlega heill og huggun, egi hún ecki ad ákella ydur fyrir hans dómstóli sidarmeir, egi hans blód ecki ad koma yfir ydur og ydar born, þá látid hans qvøl og dauda aldrei verda skálka-skjól, undir hvorju þér hugsid óhætt muni ad syndga framvegis, oftreystandi því, ad þó þér af ásetníngi drýgid og æfid glæpi og lesti, sé Jesú verdskuldan, pína og daudi fullnóg skýla allskonar ódáda fyrir augliti ens alskygna og réttláta Dómara, ef þér ad eins, líkt og ræníngiun, einhvorntíma fyrr enn þér takid andvorpin munid til ad senda Gudi eitt bænar ávarp um inntoku ydar í himininn. Minnist, enn þá bid eg ydur þessa, ad hvorki ydar yfirbót, ydar sálar-kraptar og þeirra brúkun þar til, nè ydar daudastund er í ydar valdi og umrádum, þegar þér, eins og svo margur, máské lída megid svo óbærilega þjáníngu í helsóttinni, ad øll greind, øll yfirvegan og skilníngur yfirbugast, minni og ræna og mál allt í einu hverfur, ótti og skélfing gagntekur ydur, og þér til engrar huggunar edur sálar-rósemis finnid, ellegar ef þér hraustir, máské midt í syndum-

inni, hnigid ölendir nidur í daudans nákalda fadm. Æ! adgætid þess vegna, ad hverr, sem vill njóta huggunar og góds af Jesú sakleusa og dásamlega dauda og med honum í dírdinni dásamlegur verda, skal í gudrækilegu liferni, sem ávexti sannrar trúar, votta, ad hann hafi valid sér til eptirdæmis og eptirbreytni, grandvarlegleika og ljúflyndi þess réttláta Jesú lifandi og lídandi; þetta sé ydar leidarvísir í þessu stundlega lífi, svo ad þér deyjandi fullvissast mættud um ad sá höndlad líka dírd og dásemd med hans eptir daudann í því eilífa! skundid ótraudir, sem ydar Meistari Jesús, med öllu ydar framferdi æ nær og nær þessu sæla takmarki, med því ad hlýda heilrædum Péturs: fyrst ad Kristur hefir fyrir oss í holdinu lidid, þá brýnjid ydur med því sama hugarfari og látid af ad syndga! hann hefir fyrir oss lidid og oss til eptirdæmis, hann, er enga synd gjördi, ecki formælti þegar honum var formælt, ecki ógnadi þegar hann leid, en fól þad honum, sem rétt dæmir. Látid því þetta fagra dæmi vera ydar reglu, kristnir menn! eins þegar ydar ástkjæru vinir sitja á svikrádum vid ydur, líkt og fladrandi en fláráður Júdas vid Jesúm, hlæja ad sönnu í augun og smjádra ydar hégóma-girnd edur oflæti, til ad ávinna ydar adstód og velgjördir, ydar ást og einlægni, ydar heilrædi, en umbuna ydur þó allt þetta med ómannlegum rógi og lastmælgi, med smánar-

legri ótrygd og vanþacklæti, med ofundsjúku nidurdrepi ydar mannkosta, med flærdarfullri vidleitni ad sneyda ydur heillum og sæmd; lítid þá til hans, sem mótmælin þoldi gégn sér af syndurunum, sem ecki ógnadi þá hann leid, og sem ljúfur ávarpadi sinn svikara Júdas med blídu vinar-nafni! segid aldrei ydar breiskleika, ydar brádrædi til afbotunar, ad lík hógværd vid fjandmenn sé ei moguleg syndugum mønnum, sem Jesú var vid Júdas, á medan þér ei fáid sannad, ad hann hafi sett ydur óbærilegt løgmál, sem í sínu nádar-Evangelió baud: elskid, þér óvini ydar, — gjørid þeim gott, er ydur hata; á medan Veraldar-sagan vitnar, ad jafnvel heidnir menn hafi í líku ásigkomulagi sýnt ecki ólíka sinnis hógværd, eg tek til dæmis þann nafntogada og misjafnt sinnada rómverska Stjórnara og kappa Júlíus Cæsar vid sinn elskada vin og bana-mann Brútus (*). Hafi nú heidinn madur vottad líkt stoduglyndi og hógværd í daudanum vid svikafullann og vanþacklátann vin,

(*) Júlíus Cæsár vard í Rádinu yfirfallinn af mordíngjum, sem þar veittu honum 23 banvæna stíngi og sár; en er hann sá ad annar þessara var hans elskadi Brútus, sagdi hann: ogsvo þú, sonur minn Brútus (ert ad þessu!) fletti kápunni fram yfir høfud á sér, og ljet sig án mótvarnar rósamur gegnumstínga.

vin, mun þá náttúru vorri um megn að læra þessa hógværð, þetta ljúflyndi af Jesú við vora fláráðu vini? æ! hvörsu erfidt mun oss þá veita, eptir Jesú dæmi, að árna vorum ofsóknurum góðs, biðja vorum smánurum vægðar, blessa þá, er oss bölva? og þetta er þó Jesú boðorð til vor, kristnir menn! þetta hans egið dæmi á krossinum hángandi; þetta nockurra hans píslar-votta og trúu elskenda dæmi; þetta þó meðalið til að ávinna þann fögnuð og það ríkuglega verdkaup, sem, eptir Jesú loforði, Matth. 5., er þeim geymt á himnum, sem hér þola verða forsmán, áráfir og álygar af vondum mönnum fyrir sakleysi og vidurkénníngu Jesú lærdóma.

Látum því allt Jesú líf og hans pínu, hans ljúflyndi og mannelsku, vera vort staðfasta dæmi til eptirbreytnis í voru lífi og líðun; hans dásamlega dauða vora huggun og styrk og von í vorum dauða, svo að vér, hughraustir, sem hann, deyja mættum réttlátra manna dauða, deyja sælir, sem hann og vor lífs umskipti til ens eilífa verða dásamleg, sem hans. Þá verður vel lifað og vel dáið! þá er vel stríðt og vel sigrað og þá líður oss eilíflega vel! En — miskunsami Drottinn! minnstú vors vanmáttar og géf að svo vel verði! Amen.

## Bæn fyrir Föstu-Prédikun.

Miskunsami Fadir og Gud! þín elska til heimsins og umhyggja fyrir vorri velferd, sem ecki þirmdi þínum eingétna Syni, heldur gaf hann í daudann fyrir oss og alla menn, leyfir oss med sonarlegri djörfúng ad koma nú fram fyrir þitt auglit, til ad yfirvega þad vísdómsfulla medal, er þitt guddómlega frjálsrædi valdi til líknar syndugu mannkyni, þegar þú létst þinn hjartkæra Son, vorn réttláta Jesúm, opinbera mönnunum þinn vilja hér á jördu, leita ad þeim, sem fóru villir vega og leida þá aptur til þinnar þeckíngar og þjónustu; létst hann lída örbyrgd og volædi, ofsóknir, hád og brixl, bönd og högg og sárar qvalir, og loksins deyja á krossi. Gef oss nú og ætíd svo ad yfirvega þetta þitt miskunarrád, þetta þitt og þíns eingétna Sonar minnisstædasta elsku-merki, ad vér upptendrumst til lofgjördar og þacklætis og elsku fyrir allt þetta, til þolinmædis í öllum mannraunum og fúsrar undirgéfni undir þinn guddóms vilja ad dæmi vors Jesú, til hlýdnis þinna orda og trúfesti vid þig og vorn Lausnara, til ad elska sannleikann og láta oss af hans roddu leida; til grundvallads trúnadar-trausts á þér, sem mannanna ástríka Fodur, bædi í sorg og í gledi, bædi í lífi og dauda, og til fullvissunnar um, ad þinn Sonur og vor ljúflyndi bródir Jesús, sé oss gefinn af þér til rétt-

réttlætis, til helgunar og til eilífrar endurlausnar. Virdstú sjálfur med þínum vísdóms anda ad upplýsa og styrkja oss í þessu gudrækins verki, ad vér svo verduglega læra mættum ad leita þín og vors Jesú hér í tímanum, ad vér um sídir med honum upphafdir verda mættum til dírdlegrar eilífdar hjá sjálfum þér. Amen.

## Bæn eptir Föstu-Prédikun.

Eilíft lof og ódaudlegar þackir sén þér, líknsami Gud og Fadir! ad þú med sendíngu þíns Sonar og vors Frelsara Jesú í holdid, med hans dýrmæta lærdómi og flecklausa lifnadi og med hans óverdskuldudu, sárú qvöl og krossins dauda, hefir kénnt oss monnum ad þeckja þig, Födur allrar nádar, og þinn guddómlega vilja, tekid oss brotlegar manna-sképnur aptur í sátt og stadfest þá trú og von í vorum hjörtum, ad sæluful eilífd bídi vor í komanda og betra lífi, ef vér ad eins trúlega fylgjum hér fótsporum vors Meistara Jesú. Æ! styrk oss jafnan, gódi Fadir! í ollu voru lífi, vorri lídun og dauda, til ad setja oss hans eptirdæmi fyrir sjónir, til huggunar og kostgæfilegrar eptirbreytni, til súsrar undirgéfni undir þinn födurlega vilja; hans dæmi, sem hlýdnadist þér í ollu, og vorra vegna gjordist hriggur allt í daudann, skalf og titradi, vard fjotradur, hrakinn frá einum dómstóli til annars, hræktur, hoggum laminn, húdstrýktur, þyrnikrýndur, hæddur, galli dryckjadur, negldur á

krossi og á honum spottadur, uns hann hafdi fullkomnad sína hlýdni vid Þig, med Því ad deyja á krossi. Kénn oss verduglega ad leita vors Jesú, ecki sem Júdas og Jesú nafns smánarar, heldur sem sannir Jesú elskendur, og styrk oss til ad reynast Þér og honum jafnan trúir í lífi og dauda; hrósum vér, sem Pétur, æ! lít Þá til vor, Drottinn Jesú! ad vér gánga mættum út frá andvaralausum og háskasömum heimsins solli, en trúlega, sem Þú, bera sannleikanum vitni, og heyra Þína sannleiks-rödd. Þú, sem Þola máttir miskunarlaus krossfestíngar hróp, Þíns óÞackláta fólks, yfir Þér á Þínum qvala-degi, en hrópadir Þó vægd og líkn fyrir Það og alla oss, sem svo opt syndgum og vitum ecki hvad vér gjörum, lát oss sífeldt med alúd ástunda ad líkjast Þínu Þolinmædis, dygda og ljúflyndis dæmi, vardveita trúna og góda samvitsku allt til æfiloka, svo vér med sama trúnadar-trausti til vors himneska Födurs, sem Þú, allra sídast fela mættum vorn anda í hans miskunar hendur, já, hughraustir hnegja kokksins vor höfud og gésa upp vorn anda; lát oss Þá fá ad sanna, ad hvorr, sem kappkostar ad finnast trúr og réttlátur madur í öllu sínu lífi hér á jördunni, sem Þú, skal med Þér eptir daudann um eilífd sæll og dásamlegur verda. Þér sé fyrir alla Þína elsku til vor og Þjáníngu vorra vegna, lof og prís og Þackargjörd um aldir! Amen.

# Nýr Psálmur
út af
# Jesú sjö Orðum á krossinum,
snúinn úr Dönsku af
Síra Þorsteini Sveinbjörnssyni.

Lagið er: Greinir Jesús um græna tréð:

Að Jesú krossi kom og bið, kristin sál! og því góðfús hlýð, sem þinn Frelsari sagði þar, seinast við heim til skilnaðar!

2. Hann fyrst óvinum friðar bað: Faðir! (segjandi) tilgéf það! villtir á synda vegi hér, vita nú ei hvað gjöra mér.

3. Fyrir mér bið, Frelsari minn! fær þér ei dulist blindleikinn og vangjætslan í verki mín; veri mitt forsvar árnan þín!

4. Harmþrúnginni sem móður mót, mændir augum hjá krossins fót, og þinn Jóhannes henni þar, hjálparmann, vin, son ávísar.

5. Þegar mig undir þinn kross ber, og þrýtur vina stoðin mér, en offækjendur hata' og hrjá, hjálparmann, Jesú! send mér þá!

6. Strax er ræninginn sinar sá, syndir ydrandi' og vildi ná, fyrir þinn dauða frelsi' og hlíf, fullvissu gafst um eilift líf.

7. Huggun af þinum munni mér, minn Jesú! géf þá deyja fer! unn mér í tíma að mér sjá, og arf í þinu ríki fá!

8. Heyrt var ekkért á himni og jörð hræðilegt, sem þitt fjórða orð: hvörs vegna, minn

Guð

Gud! minn Gud þú! mig hefir yfirgéf-
id nú?

9. Angistar hróp þitt, Herra minn! hugg-
un og von mér gefur inn, ad yfirgéfast ei eg
skal, um daudans þó eg ráfi dal.

10. Mig þyrstir (hér nærst hróp þitt var),
Herra minn! þínum einn frambar, orþyrstum
munni' ad auka þín edikid, beist var svolun þín!

11. Veit þú eg hafi vidbjód á, vondsk-
unni sem mér rikir hjá; med dygd og trú ad
þócknast þér, þorsti gnæsandi sé hjá mér!

12. Qvalanna mæltann fullkomnad, Krist!
med hlydni afskérfder, og allt sem fyrr var á-
lyktad, yfirlystir þú fullkomnad.

13. O! þú hjálprædis ordid sagt! upp héd-
an synd og daudans makt, ecki skélfir mig aum-
ann mann, eilífann sigur mér þad vann.

14. Allra sídasta ord þitt nú er mín lífs
von, þá sagdir þú: Fadir! í þína fel eg hönd,
fram hér lídandi mína önd.

15. Þad ord mín djúpast þreyngist inn,
í þánka fylsnin, Jesú minn! allrasseinasta ordid
mitt eg sem tala, lát vera þitt!

## Prentvillur.

Bls. 7. línu 27. rettum les: rettann; Bls. 14. línu
6. 8000. les: 80,000. Bls. 51. línu 27. breisk-
leiska les: breiskleika. Bls. 54. línu 22. jansvel les:
jafnvel. Bls. 73. línu 30. þess les: þeim. Bls. 76.
línu 23. þá (undanfellist). Bls. 79. línu 27. hefdt
les: hefdu.